# ÆFISAGA

# JÓNS EYRÍKSSONAR,

Konferenzráðs, Depúteraðs í enu kgl. Rentukammeri, Bókavarðar á því stóra kgl. Bókasafni, o. s. fr. o. s. fr.

Samantekin af

Handlæknir SVEINI PÁLSSYNI

eptir tilhlutan

Amtmanns BJARNA THORSTEINSSONAR,

og af þeim síðarstnefnda yfirsèð og löguð,

með andlitismynd og rithandar sýnishorni

útgefin á kostnað

ens íslenzka Bókmentafèlags.

Kaupmannahöfn, 1828.

Prentuð hjá *S. L. Møller*.

*Sú andlitismynd, sem þessari æfisögu fylgir, er tilbúin eptir öðru exemplari af þeirri gypskrínglu, sem getið er bls. 99, tilheyrandi dóttur Konferenzráðsins, Frú Posth, því einasta að líkindum sem nú er heilt eptir. Þó hefir eyrgrafarinn einnig haft við höndina koparstúngu Prof. Ólavsens, og enn aðra brjóstmynd falliga litgreinda á armspaung, tilheyrandi annari dóttur þess framliðna, Frú Jessen, en tilbúna eptir gypsmyndinni af smámyndamálara Müller, sem aldrei hafði sèð Jón Eyríksson í lifanda lífi.*

---

# Formáli.

Svo bar til, að á þeim seinustu árum, er eg dvaldi í Kaupmannahöfn, bárust mèr í hendr nokkur handrit, snertandi æfisögu Konferenzráðs *Jóns* sal. *Eyríkssonar*, hvaráméðal var hans eigin uppteiknan um það markverðasta í æfi hans, allt að árinu 1778. Nokkru áðr hafði eg líka komizt yfir frumvarp, þó í mörgu ófullkomið, til algjörðrar æfisögu hans, ritað af landa okkar, Herra Prófessor og Riddara *Ó. Ólavsen* á Kongsbergi í Noregi, að líkindum 1789, eða um þær mundir. Hafði hann ætlazt til, að hið fyrrverandi *íslenzka Lærdómslistafèlag* skyldi laga og að sèr taka þetta verk til prentunar, í þakklætisminníng fyrir þær mörgu velgjörðir, er Ísland og fèlagið sèrílagi hafði af Érichsen þegið. En einsog það er alkunnugt, að fèlagsins líf og atgjörðir dofnuðu við Érichsens viðskilnað, svo varð ei

heldr neitt úr þessu Ólavsens lofsverða áformi.

Á þeim lánga tíma, er eg þènaði í því konúngliga Rentukammeri, við danskar, norskar og íslenzkar sakir, heyrði eg Erichsens svo optlega getið af mönnum í hærra og lægra standi, hans frábæra skarpleika, minni, lærdómi, yðjusemi, ráðvendni ok embættisdugnaði svo mjög á lopt haldið, að jafnvel snemma þá kviknaði hjá mèr sá þánki, að rita eða stuðla til að rituð yrði æfisaga hans. Mèr sýndist tilhlýðiligt, að einhvör Íslendíngr skyldi endrnýa minníng hans hèr á landi: því hafi nokkur maðr af hjarta og sèrplægnislaust elskað sína fóstrjörð, aukið hennar heiðr utanlands og innan með frábærum lærdómi og dugnaði, leitazt við að styðja og betra hennar fallvöltu velmegun, og án manngreinarálits haldið fram úngum gáfuðum sonum hennar; þá var það víst Konferenzráð Jón Erichsen.

Í þessum ásetníngi og til þess að kynna mèr hans lærdóm og þeinkíngarhátt, las eg eigi einúngis allt það, sem hann hefir prentað eptir sig látið, heldr líka margt annað óprentað, sem við ýmislig tækifæri er af hönum samið, og eg gat yfirkomizt. Enn þau seinustu ár, er eg dvaldi í Kaupmannahöfn, þá eg helzt fann mig færan til, að

samantaka þessa æfisögu og nokkurnveginn var undirbúinn þartil, voru mèr svo margar annir uppálagðar, að eg ei gat byrjað, því síðr framkvæmt þennan ásetníng; viðlíka var hag mínum varið nokkra stund, eptir að eg híngað til lands var aptr kominn, því embættisstörf, ferðir, flutníngar og annað þesskonar hafa leyft mèr einúngis fáar, róligar frístundir. Hinsvegar vildi eg þó ekki, að mitt áform skyldi algjörlega til hliðar leggjast, af ótta fyrir, að það þá kynni burthjaðna, og að eingu verða. Eg leitaði þessvegna, fyri nokkru síðan aðstoðar hjá Herra Distriktskírúrgus *Sveini Pálssyni*, og bað hann að sèr taka, at semja þessa æfisögu, af þeim efnum, er eg gat hönum í hendr fengið, og sumpart sjálfr hafði undirbúið. Eg þekkti fáa svo vel hæfa til þessa verks sem hann, því bæði er lærdómr hans og greind, líka hans lipri íslenzki stýll að margra dómi framúrskarandi. Fyri bón mína og elsku til síns föðurlands — því öldúngis ekkert annað knúði hann þartil — tók hann þetta erfiði að sèr, og leiddi það til lykta, óhraustr að heilsu og mörgum önnum kafinn, von minni fljótar eins og þannig, að bæði eg og að minni meiníngu allir þeir, er elska Erichsens minníngu, eiga hönum beztu þökk þarfyrir að kunna. Sjálfr hefi eg síðan

tvívegis yfirfarið þetta verk, kipt úr því, bætt þarvið, og lagað það, í efnisins orðu ok niðrraðan, sem mèr sýndist bezt henta; enn hvað sjálfan stýlinn snertir, þá hefi eg mjög svo lítið umbreytt hönum, og jafnvel þar, hvar eg hefi leyft mèr nokkra umbreytíng, veit eg eigi, hvört Herra Pálssonar eða mitt betra sè; því miklu æfðari og greindari er hann í slíkum málum enn eg.

Þau markverðustu efni, af hvörjum verk þetta er samið, eru: 1. áðrnefnt æfisögubrot Érichsens sjálfs, ok frumvarp til hennar algjörðrar af Prófessor *Ólavsen*. 2. Ýmisligar upplýsíngar meðdeildar af Stiptprófasti *M. Magnússyni*, Sýslumanni *J. Jóhnsoníus*, (sem nú báðir eru sálaðir), sem og af öðrum fleirum, er í lifanda lífi þekktu Érichsen, hans sinnisfar, lífernismáta, hvörsdagliga hegðan og annað þesskonar. 3. Mínar eigin uppteiknanir, bæði hèr og í Kaupmannahöfn, snertandi æfi Érichsens, teknar sumpart af prentuðum bókum, er nefna hann og verk hans, sumpart af góðra og að öllu leiti trúverðugra manna sögn, þó svo, að úr öllum þessum hjálparmeðölum er það eitt valið, sem að líkindum eigi getr verið neinum hèr eða erlendis til óþægðar, eða ásteytíngar; og 4. ættartala Érichsens (meðal fylgiskjalanna nr. 1.) af Herra Biskupi *St.*

*Jónssyni*; að litlu einu þartil lögðu af þeim frændum Erichsens, *Benedikt* presti *Sveinssyni* að Hraungerði og *Brynjólfi* presti *Árnasyni* að Lángholti.

Hvað söguna sjálfa enn fremr áhrærir, þá hefir bæði Herra *S. Pálsson* og eg leitazt við, að gjöra hana svo sanna, hlutdrægnislausa og fróðliga, sem við höfðum bezt vit á, og efnin leyfðu. Þessvegna höfum við að mestu leiti leidt hjá okkr lof og last, enn skrásett atburðina einsog við vissum þá annaðhvört sanna, eða að líkindum ei ósanna, og eigi einúngis þá atburði, er snertu Erichsens eigin persónu, heldr líka þá er í einu og öðru máske hafi verkað þaruppá, hönum til ógleði eðr ánægju. Í þessu tilliti höfum við sumstaðar vikið á eitt ok annað í ástandi lærðra hluta, á meiníngar lærðra manna og annað þesskonar um þær mundir, líka af því að það er fróðligt og íhugunarvert að vita, hvörnig merkustu menn hvörrar tíðar hafa dæmt um vísindi ok áríðandi mannligar framkvæmdir. Stýlinn höfum við leitazt við að láta vera hreinan, auðskilinn og fljótandi, án allrar þvíngunar og tilbreytni, bæði vegna þess, að E. sjálfr hafði valið sèr í íslenzku þennan náttúrliga og eðli íslenzkunnar svo öldúngis samboðna ritsmáta, sem ok af því, að hann mun leingi hvervetna bezt skarta.

Agrip af þeim snotra formála, er Prófessor og Riddari Ólavsen hefir sett fyrir framan ofannefndt frumvarp til æfisögu Erichsens, lagað og, hvað stýlinn snertir, endrbætt af Herra S. Pálssyni, virðist ei ótilhlýðiligt, að teingja hèrvið. Þetta ágrip hljóðar þannig:

---

„*Svâ var Ísleifr biskup fóstri minn:* —
„orð Jóns biskups á Hólum — *hann var*
„*manna vænstr ok manna hyggnastr; þá mæltu*
„*þeir, er við hann ræddu: hverr gat nú hans?*
„*hann svaraði: þá kemr mèr hann jafnan*
„*í hug, er ek heyri góðs manns getit, því*
„*svâ reyndum vèr hann.*"

Kristnisaga, bls. 140.

---

„Kunnugt er það almenníngi, hve mikinn hug landar vorir á fyrri öldum lögðu á, og hvörsu lagið þeim var, að bóksetja markverða tilburði; að smíða sagnarit landa og ríkja, konúnga og jarla, hernaðar og bardaga; líka svo að rita um siði ok hætti útlendra þjóða, og æfisögur göfugra manna og tiginna. Verðr því ekki neitað, að þeir í þessu efni hafa ei afkastað nokkrum mun minna, enn hvörr önnur þjóð í Norðrálfunni um sömu mundir, og að þeir hafa af-

„rekað sèr og föðurlandi voru, með þeim „sæmdarstörfum, þann orðstýr, er leingi hefir „glaðliga skinið, og aldrei mun áskyggja, „meðan fræði og kunnátta eru í nokkrum „metum. Með þessari yðn hafa þeir það „áunnið, að Ísland, hvörju náttúran varpaði „afsíðis út frá öðrum meginlöndum lángt í „norðrið, er nú þekkt af velfleirstum upp-„lýstum þjóðum, og talið meðal siðaðra þjóð-„landa, og varð það jafnvel á undan mörg-„um þeim. þeir yðkuðu þessar bókmentir, „meðan frjáls andi í ókúguðu brjósti hvatti „til nytsamra sæmdarverka; meðan jöfn vel-„gengni manna ámilli viðhèlzt, og hjálpaði „öllu góðu fyrirtæki á legg; meðan landið „var í blóma sínum, og meðan stjórnin var „hjá þjóðinni sjálfri. þeirra tilgángr var: „að geyma handa niðjum sínum þekkíng þá, „er sjálfir þeir höfðu um önnur lönd, þeirra „siðu og annað þaraðlútandi, hvað þeir „álitu því nauðsynligra, sem land það þeir „íbjuggu, var fjarlægara samkvæmi annara „þjóða, og þenna fróðleik hinn einasta veg, „til að forða þeim frá, að gjörast ósiðað „fólk, er hvorki þekkti skyldu sína móti „guði nè föðurlandinu. Mörg önnur, sum-„part smágerðari og staðminni fræði, hafa að „sönnu uppkomið síðan í landi voru; enn „hin áðrnefnda góða og nytsama íþrótt:

„að rita *Sagnafræði*, sýnist ekki að öllu leiti „hafa haldið sínum jöfnuði; væri þvi ósk-„andi, að sú kostuliga yðn yrði vakin á ný, „og löndum vorum gefin sannsögul ágrip af „æfisögum merkustu manna, innlendra sem „útlendra, hvörra dygð og mannkostir helzt „frammúrskara; má tilgeta, það mætti upp-„örfa landsins úngdóm til laungunar eptir að „gánga sama veg, og sýna hönum hvörnin „sig skyldi framrekja, á lífsins marglögðu „ferlum, til að ná enum eina og æðsta aðals-„titli, sem er að heita *góðr borgari, gagn-„samr meðlimr af fèlagi því, maðr lifir í, „og trúr þegn kóngi sínum.*"

„þetta knúði mig til að bjóða enu kon-„únglíga *ísl. Lærdómslistafèlagi* forðum rit-„líng þennan, sem inniheldr ágrip af *æfisögu „hins fyrsta forseta* þess — og einasta er „svo má heita — sál. Konferenzráðs *Jóns „Eyrikssonar*, einsog það, að miklu leiti eptir „hans eigin handriti, prentað finnst í *Worms „Lexiconi yfir lærða menn*, hvaðan það aptr „er tekið og innfært, í þær *Berlíngisku fræði-„frèttir* fyrir árið 1788, nr. 12. Sneri eg á ís-„lenzka túngu því, sem á nefndum síðara stað „finnst um hann ritað, og jók með stöku at-„hugasemdum, er sjálfr vissa eg, sem í sam-„feld 5 ár kom dagliga í hans hús, sá gjörðir

„hans, og hlýddi hans orðræðum. Eg vissi „eingan, sem fèlaginu var skyldara ok sæmra „að heiðra með eptirmæli enn hann, sökum „þess að:

„1. Átti það hönum að þakka tilveru „sína, og fræga framför í uppvextinum, og „af hönum leiddi, má kalla, allt það góða sem „fèlagið gjörði, eðr gaf hugvekju um að „gjöra."

„2. Hjá hönum höfðu sambýli, af flest„um ef ekki öllum Íslenzkum, sem eg hefi „þekkt, fleirstir mannkostir, en færstir brest„ir, svo að líferni hans og dagfar mátti heita „regla, hvörjum góðum manni eptir að „breyta."

„3. Varð viðskilnaðr hans svo snöggr og „voveifligr, að hann — sem margt annað — „er hugvekja um: að þótt lukka og metorð „sýnist blíð og fögr, er þó hvorttveggja „nærsta hverfult, og hún reiðubúnust að „snúa við oss bakinu í sama vetfángi, sem „andlit hennar brosir sem hýrast, enn um„fram allt: að mannligr breyskleiki aldrei við „oss skilji, hvörsu sem vèr hraustir sýnumst „og fullkomnir.

„4. Mætti það virðast hyrðu- og ræktar-„leysi hjá oss löndum hans, ef vèr ekki teld-„um lífsögu þessa öldúngs útá Ísland, eðr „lètum oss þarí miðr fara enn Dönum, hverj-„um lagið er að þekkja og launa dygð og „dugnað, og ritað hafa æfiminníng hans, enn „þó hann, hvað fæðínguna snertir, væri „meðal þeirra útlendíngr."

„Hvorki er eg þess umkominn, og ekki „heldr er það ásetníngr minn, að semja um „hann lofræðu, heldr einúngis sá, er nú hefir „eg ávikið að framan; hitt er bæði mèr um „megn, og þess von, að það gjörði einhvör „sá annar, sem betri hefir þar faung á enn „eg, og fyrir þá skuld hefir eg dregið svo „lengi að leggja fyrstu hönd á ritlíng þennan; „nú eg þykist þarum úrkula vonar, legg eg „fram það litla, sem eg hafði til, og beið-„ist: að nærgætinn lesari leggi á línkindar-„dóm, þótt eigi sè svo skráð sem skyldi, og „sjálfr vilda eg!

„þegar *Fræða-dæmendr* í Kaupmanna-„höfn hafa sagt upp dóm sinn yfir vors „frammlidna riti: *Jóns Loptssonar Encómiast*, „í fróðleiks frèttablaði sínu, fyrir árið 1788 „nr. 12, fara þeir fram og hefja hans æfi-„ágrip á þennan hátt: „*Vær höfum byrjað*

*„að gefa svo fullkomna skírslu, sem tök á „höfum, um þá af vörum lærðu landsmönn-„um, sem dauðinn hefir firrt oss; vèr álít-„um skyldu vora, að gjöra það framvegis, „því heldr sem almenníngi hefir meir þókt „koma til ens frammliðna, og því heldr sem „vèr trúum, að fleiri girnist að vita þær „ýmsu lífs-breytíngar, gegnum hverjar svâ „sjaldfenginn maðr hefir gengið, uns hann „skildi við heiminn, og endaði sína vegsemd-„arfullu lífs-braut. Sökum þessarar vorrar „skyldu viljum vèr kunngjöra lesaranum það „vèr fundið höfum um þennan heiðrsverða „mann og ógleymanliga, í Jústizráðs Worms „Lexícons 5 parts bls. 285, og 3 parts bls. 195, „og bæta því litlu við, sem vèr sjálfir vitum, „ásamt breytíngum þeim við hann framm-„komu, eptir það bók sú kom á prent, og „svo frv."*

Eg veit ei betr að enda þennan formála enn með tveimr ei miðr snotrum enn sönnum þánkagreinum; er sú önnur af Virgílius þannig:

*Stat sua cuique dies, breve et irreparabile tempus*
*Omnibus est vitæ; sed famam extendere factis,*
*Hoc virtutis opus.* —

Enn hin af Seneca svohljóðandi:

> *Bonum qvod est supprimitur, neqvaqvam exstingvitur; bona fama in tenebris proprium tenet splendorem,*

vonandi að flestum, ef ei öllum virðist þær uppá þessa æfisögu í mörgu tilliti vera vel heimfærandi.

Skrifað á Arnarstapa í júlió 1827.

*B. Thorsteinson.*

# Æfisaga

## Jóns Konferenzráðs Eyríkssonar.

Í Hornafirði, í Austr-Skaptafellssýslu, á bæ þeim, er heitir Skálafell, í Borgarhafnar hrepp, bjó öndverðliga á 18du öld maðr sá, er Eyríkr hèt og kona hans Steinunn. [1]) Bæði þau hjón voru, að allra rómi, með helztu merkismönnum í almúga-röð á þeim dögum, einkum var hún nafnkunnug að fyrirtaks gáfum og kvennkostum. Ekki finnst þess með vissu getið, hvað lengi þau bjuggu á Skálafelli, þó hafa það víst verið 10 eðr 11 ár; viku þau búferlum þaðan vorið 1738, að Hólmi í Einholts sókn og Mýrna sveit, hvar þau bjuggu alla tíð síðan, þángaðtil Steinunn andaðist; brá Eyríkr þá búi sínu, og fór að Einholti, til teingðasonar síns, prestsins Sìra

[1]) Um ættartölu Eyriks ok Steinunnar, sjá Viðbætir, nr. 1.

Sveins' Haldórssonar, en sálaðist skömmu þareptir. [1])

Óglöggt er það, hvörsu mörg börn þau saman áttu Eyríkr og Steinunn, hitt er víst, að 8 náðu þau fullorðins aldri, 4 piltar og 4 stúlkur, nefnilega: Jón eldri, Jón ýngri, Árni, Ólafr, Anna, Kristín, Guðrún og þórdís. [2])

*Jón Eyríksson eldri*, hvörs æfi hèr ritast, er borinn í heim þennan, að Skálafelli, þ. 31[ta] ágústí 1728. [3]) Naut hann síðan uppeldis í foreldra húsum að staðaldri, og lærði þar að mestu leiti bóklestr og kristindóm, með svo stakligum framförum, að hann — sem menn kalla — var fermdr, eða opinberliga staðfestr í kristnum fræðum ár 1737, á sínu 9[da] aldrs ári; því þá var enn ekki fermíngartími lögskorðaðr við aldrs-

---

[1]) Síra Sveinn Haldórsson vígðist prestr til Einholts annó 1750, en veik þaðan, til Hraungerðis í Árness sýslu 1775; nær verðr nú ekki komizt dánarári þeirra hjóna, Eyriks og Steinunnar.

[2]) Um þessi systkin Jóns eldra, sjá Viðbætir nr. 2.

[3]) Svo hefir ritað Prófessor og Riddari Ól. Ólavsen á Kóngsbergi í Noregi, og því er fylgt í steinletrum þeim, er Sulim og Luxdorph settu þessum merkismanni; enn í sögubroti, rituðu af sjálfum hönum, stendr 28, eptir ávisan frá foreldrum hans; enn á þeirri tíð voru áreiðanligar prestembættis bækr (*ministerialbækr*) óvíða til.

ár, heldr námsgáfur og skynbragd lærdómssins. Haustið fyrir, eðr ár 1736, komu foreldrar hans hönum í kennslu til móðurbróður hans, gáfumannsins Vigfúsa prests Jónssonar, sem þá var kapellán ens gamla prests Guðmundar Högnasonar að Hofi í Álptafirði; lèk þá ei meira orð á enn svo, að hann ætti þar að taka sèr fram í bóklestri, læra að skrifa og að fullu að búast undir ferming, en síðar kom það upp, að piltsins stöku námsgáfur og lærdómsfýsn mundu kveikt hafa hjá foreldrunum laungun til frekari frama þessa gáfaða sonar síns.[1]) Skömmu eptir komu Jóns að Hofi, varð þar sú breytíng á, að gamli Sìra Guðmundr fèkk af kapelláni sínum, Vigfúsa presti, að fara austr að Stöð í Stöðvarfirði, til Högna prests, sonar Sìra Guðmundar, og vera hönum til embættisaðstoðar í veiki hans, enn sá gamli maðr undirgekkst, að segja Jóni til um vetrinn, hvar til hann var

[1]) Það er haft eptir Jóni bróður hans ýngra, sem merki uppá laungun hans til utanbókar lærdóms, er þá var í mestum metum: ekki einúngis, að hann hafi á barnsaldri þannig numið fjölda af bænum og sálmum, heldr eitthvert sinn, þá hann eignazt hafði nýtt bænakver, en ekki fèkk lært það utanað, svo fljótt sem hann vildi: hafi hann tekið það fángaráð, að rifa 1 eða 2 blöð úr kverinu, tyggja þau og renna niðr. Er það eingvum niðrun, þó um hann verði sagt: *þegar eg var barn, breyttí eg sem barn.*

einkar laginn, og á hvörjum vetri plagaði að taka únga menn til kennslu á heimili sitt. — Bráðum komst prestr að námfýsi Jóns, og í stað þess að æfa hann í ritníngu, lèt hann byrja latínu lærdóm. Um vorið eptir hvarf Jón aptr til foreldra sinna, sem nú höfðu búferlum fluzt til Einholts sóknar á Mýrum í Hornafirði. Þá var Síra Þorleifr Bjarnason prestr til Einholts, var Jón þángað til lærdóms settr nærsta vetr, enn haustið 1738 var hann á ný sendr móðurbróður sínum Vigfúsa presti, hvör þá fengið hafði Stöðvarfjarðar prestakall, að önduðum Högna presti Guðmundarsyni; dvaldi Jón þar nærstu 4 vetr til mentunar, enn á sumrum heima hjá foreldrum sínum [1]), einsog almennt tíðkast hèr á landi, hvar velflestir lægri embættamenn hljóta um sumartímann at gegna bústörfum sem bændr, þó þeir — fáeinir — geti brúkað vetrartímann til barnafræðingar og eigin anna; líka þurfa foreldrarnir barnanna optast við, til vinnu um sumartímann. [2])

---

[1]) Hèrum kemst Érichsen sál. svo að orði, *l. c.* „Svona „varð eg strax á únga aldri, að ferðast, optast al„einn, vor og haust þann lánga og vegna brattra „fjalla og stórvatna hættuliga veg; enn þarmeð gafst „mèr, á öndverðri æfi hentugt tilefni, að þekkja náð„arríka vernd guðs af eigin reynslu." Bendir þetta nokkuð til hans þánkafars og góða uppeldis.

[2]) Um heimaskólamentun sina skrifar hann svo, *l. c.*: „Kennsla min, einkum hjá móðurbróður minum,

Að liðnum þessum tíma þókti Jón velhæfr til inntöku í Skálholts skóla; enn nú kom annað í veginn. Mag. Jón biskup Arnason, er þá sat að stóli í Skálaholti, hafði svo fyrirlagt, að piltar þeir jafnvel, sem njóta áttu fullrar ölmusu, skyldu lúka fullri meðgjöf fyrsta árið; kom það ekki af eigingirni biskups, heldr ætlaðist hann til, að þetta væri reynslu- eðr próf-ár þeirra, svo ölmusan ekki gæfist óverðugum. Eingu að síðr þótti mörgum þetta kenna fremr af einræði biskups, heldr enn rèttvísi, hvörrar meiníngar líka voru foreldrar Jóns. þau lögðu ekkèrt með hönum fyrsta árið, þar þau þóktust fullviss

„framfór med slíkri kostgæfni, sem eg aldrei fæ „tilhugsað án inniligustu þakklætis tilfinníngar; það „eitt dettr mèr í hug, að minni mínu og fljótnæmi „hafi nokkurnpart verið misboðið, með því að láta „mig læra nógu mikið utanað, ámeðal annars *Cale*-„*piní Lexícon* frá upphafi til enda, ekki að sönnu sam„stædt, þó svo að eg vissi öll þess orð og málbreyt„íngardæmi utanað; bættist mèr þarvið grúi af glós„um og talsháttum, þó mundi eg hafa náð fastari „botni í túngu þessari, hefði mínum utanaðlærdóms„tíma varið verið til lestrs-æfíngar, í fleirum latínu„riturum, einkum þar eg fann hjá mèr mikla laung„un, að laga ritbátt minn eptir þeim fáu, er mèr „þann tíma voru í hendr seldir." Árið 1780 lèt Erichsen sál. prenta þau snotru barnaljóð móðurbróður síns, Síra Vigfúsa, í Kaupmannahöfn, hönum til verðskuldaðs þakklætis og endrminníngar.

um, að næmi hans og ástundun mundi sigra, eptir vitnisburðum þeim, hann feingið hafði frá lærifeðrum sínum; rituðu því biskupi til um komu hans til skólans, og án þess að bíða svars frá biskupi, sendu piltinn haustið 1742 á leið til Skálholts, í þeirri von, að kæmist hann þángað að eins, mundi hann svo síðla árs valla verða gjörðr aptrreka svo lángan veg. En á miðri leið þessari mætti hönum afsagnarbrèf frá biskupi, þar burtu væri gefnar allar ölmusurnar; snèri Jón þá aptr heimleiðis, og hafðist þann vetr við í foreldra húsum, þar óráð virdtist, að senda hann, svo seint á tímum, þann lánga veg austr að Stað; hèlt þó við lærdómi sínum, og varð hönum það til hagsmuna, að við flutníng þorleifs prests Bjarnarsonar, frá Einholti til Hofs í Álptafirði, fèkk aptr Einholt, á þessu sama sumri, Jón prestr þórðarson [1]), en vistaðist hjá foreldrum Jóns um vetrinn að mestu leiti. Á þessum missirum andaðist Jón biskup Árnason, og var þá Jón á nærsta

---

[1]) Hann varð síðan fáein ár kyrkjuprestr í Skálholti, þareptir prestr í Hruna og prófastr í Árness sýslu, í fleiri ár, en síðast andaðist hann prestr að Reynivöllum í Kjós, árið 1789, maðr álitinn vellærðr á sinni tíð; telr sál. Érichsen hönum til gildis líkprèdikun eptir biskupsfrú, sál. Guðríði Gísladóttur, sem prentuð er í Kaupmannahöfn ár 1768.

hausti sendr á ný til skólans, og falinn náskyldum frænda sínum, Einari lókáti Jónssyni; kom hann því til vegar hjá þáveranda stiptprófasti, síðan biskupi og Dr. Finni Jónssyni og öðrum viðkomendum, að strax var Jóni viðtaka veitt í skólann, þó ekki færði hann kost með sèr, nè penínga til próf-ársins; fèkk hann sæti ofarliga í neðra bekk, og fannst brátt að gáfum hinn líkvænligasti, en bregða þókti hönum við matreiðslu og annan aðbúnað á biskupsstólnum. [1]) Nærsta sumar lifði Jón hið síðarsta í foreldra húsum,

---

[1]) Mörgum eldri skólagengnum ber saman um það, að við hafi mátt bregða skólakosti á biskupsstólunum, allt þángaðtil Harbóe kom út híngað, og gegndi að miklu leiti biskupa verkum, í norðr- og suðr-stipti, nærst áundan Dr. Finni og Mag. Haldóri Brynjúlfssyni. Verðr því ekki fyrir lastmælgi tekið, þó Erichsen sál. fari þarum, á gr. st., svofeldum orðum: „þarámót lá við sjálfa garða, að jeg minn fyrra vetr „í Skálholts skóla, ef ekki dæi útaf, þá þó — náliga „koðnaði upp af sulti ok órækt, þar vasapýngjan „var helzt til lítthlaðin, til að eg gæti keypt mèr „það eg viðþurfti, og jeg of fjærlægr foreldrum mín„um, til að þau gætu hjálpað mèr, enn skuldum „vilda eg ekki safna. Allar viðgjörðir til fæðis og „þjónustu voru í sannleika svo, að gáfuvænligum „piltum var ei viðvært, því síðr að rètt væri af þeim „betalingr heimtaðr þarfyrir, framar enn konúnglig „boð tilstóðu. *Það var dýrkeypt nóg, að leggja þarvið „fjör sitt og heilbrygði í sölurnar.*"

og veik aptr til Skálholts um haustið, hvar hann í venjuligu haustskólaprófi fèkk sæti í *efra bekk.* [1]) Þann vetr sat að Skálholti (og sinn seinasta í Íslandi) sá að almanna rómi til þessa dags hèr góðfrægasti danski prestr og síðan biskup, Loðvík Harbóe, hvör af Danakonúngi var híngað sendr, líkt og nokkrumsinnum var áðr skeð, til að álíta og endrbæta kyrkjunnar og skólanna tilstand, að því leiti viðkom lærdómi og siðferði, med fleiru þaraðlútandi; lèt hann þenna vetr innfæra í Skálholti konúngs tilskipun af 3 mají 1743, sem almennt hefir kölluð verið *Skólafororðníng*, og er gefin að tilstilli hans. Með þessari tilskipun náðu allar skólasakir hèr, ásamt kosti pilta og annari aðbúð og þjónustu, allmikilli endrbót. Þess er getið, að Jón strax hafi fleirstum piltum framar, aðhylzt Harbóe og orðið á vegi hans; að biskup hafi tekið eptir því, og virdt hann opt viðtals, forvitnazt nákvæmliga um gáfur hans og nátt-

---

[1]) Þángaðtil latínuskóli hófst á Bessastöðum, var skólalærisveinum skipt í 2 hópa eðr leksiur, sem í Skálholti kallaðist *efri bekkr* og *neðri*, en á Hólum *borð* og *bekkr;* var í Skálholti lengi að framan ekkèrt borð, til að skrifa við í hvörugri leksíu, en á Hólum að eins í hinni efri, og skrifuðu piltar þá almennt á hnè sinu. Neðri bekkr var þá undir Lókáts, en hinn efri undir Rektors tilsögn.

úrufar og fundizt um hvörttveggja.[1]) Í miðsvetrar skólaprófinu þennan vetr 1745, er biskup Harbóe sjálfr hèlt, var Jón svo vel að sèr orðinn og svo lukkugefinn, að hann áleizt verðugr að stíga uppyfir marga, svo hann nærsta vetr hefði orðið efstr í röðinni, ef eigi hefði svo tiltekizt, að hönum var ætlaðr annar vegr. Þegar fram liðu stundir bauð biskup Jóni ekki einúngis að taka hann í sitt hús, heldr annast framvegis uppfóstr hans og frama að öllu leiti, og án þess að Jóni eða nokkrum öðrum dytti í hug að leggja þar minstu drög til. Þaraf má ráða álit biskups á þessum merkiliga únglíngi, jafnframt hinni alvísu ráðstöfun, hvörja Jón

[1]) Biskup Harbóe fór víða umkring í stiptunum, þau 4 ár hann hèr dvaldi, til að skoða háttsemi presta, einkum þeirra katekisèring í kyrkjunni; blessuðu síðan margir, er þá voru lærdómsbörn, þennan biskup, fyrir hvað góðr hann hefði verið við börnin, þegar á þeim merktist beigr við hann eðr prestinn, eðr þessi var offlókinn í spurníngum og svipþúngr; klappaði hann þeim, er vel úrleystu, undir kinnina, og framar þeirra daga venju talaði bliðliga til allra, bæði prestanna og einkum úngdómsins. Fór og svo að lokunum, einsog Pontoppidan ádrepr í sinni Danmerkr kyrkjusögu, að þótt margir af landsfólki bæri í fyrstu ærinn stugg til Harbóes, og teldu erindi hans geigvænliga nýlundu, svo vildu þeir þó að síðustu ekki af hönum sjá, heldr kjöru að hann ílengdist.

strax þekkti, og með þakklæti tók tilboði biskups, fullviss um ljúfasta samþykki foreldra sinna, hvört hann skrifligt frá þeim fèkk að heiman sama vor. [1]) Eptir uppsögn skólans um vorið, tók Harbóe Jón að öllu í sitt hús; hafði biskup þá að fullu lokið erindi sínu híngað í land, að visítèra kyrkjur og kennidóm, ok ásetti sèr heim aptr til Danmerkr þetta ár; lèt hann því Jón taka vitnisburð sinn uppá lærdóm og siðferði hjá skólameistaranum, sem þá var Gísli Magnússon, síðar biskup á Hólum, [2]) er hönum þarí mest andtignað fyrir framför í guðfræði, sem hann sjálfr þakkar næmi sínu og æfíngu í lestri Biblíunnar, fremr enn verulegri ástundunarsemi, hvör hann segir miklu hafi meiri

---

[1]) Hèrum kveðr sál. Érichsen svo að orði, á gr. st. „Orð „eintóm — þótt aldrei þættist eg fullmörgum þar-„til verja — næðu helzt ofskamt til inningar þeirrar „þakklátsemi, sem eg er hans háæruverðugheitum „umskyldugr! Það skal nóg sagt, að hann þá tók „mig að sèr, einsog eg væri hans eigið barn, og hefir „siðan alla tíð verið mèr sem faðir. Allt um það „olli mèr þó þessi hans hylli, bæði að láta mig svo „hefjast í skólaröðinni, og siðan taka mig til fulls að sèr, það eptir var vetrar, skuli satt segja, geystrar „öfundar og tilfinnanligrar áleitni í fleiru enn einu. „Þó — þetta var bernska, sem á að vera gleymd!"

[2]) Þennan vitnisburð má lesa meðal fylgiskjalanna, nr. 3.

verið hjá mörgum hans skólabræðra, er þó náðu minna lofi. Ekki finnst umgetið, hvört Jón fundið hafi foreldra sína, áðr hann af landi fór, en líkur eru til, hann verið hafi í fylgð biskups Harbóes snögga ferð norðr að Hólum, um sumarið áðr þeir lètu í haf; fóru þeir með Hólms skipi frá Reykjavík, og náðu Kaupmannahöfn á öndverðu hausti. Nokkru síðar fylgðist Jón með biskupi landveg suðr til Brúarakrs í Slesvík, fór biskup að hitta foreldra sína þar; tóku þau, sem nærri má geta, fagnandi við syni sínum, og naut Jón þaraf á margan hátt, meðal annars í því, að hönum gafst tækifæri, meðan þeir þar dvöldu, að lesa á ný, og rifja upp fyrir sèr, undir hliðsjón Kristófers Wöldikes, er í þessu húsi var um þær mundir barnafræðari, og varð þar eptir prestr á Amakri við Kaupmannahöfn, það hann áðr numið hafði. Um vetrinn eptir nýár 1746, ferðaðist Jón med biskupi heimleiðis aptr til Kaupmannahafnar, og nærsta sumar landveg norðr til Niðaróss, er nú kallast þrándheimr, hvar Harbóe fyrir 2 árum var biskupsdæmi ætlað, að starfi hans í Íslandi vel afloknu; stýrði Harbóe þessu biskupsdæmi í 2 ár, og var að þeim liðnum kallaðr til Sjálands biskupsdæmis 1748. Jón var settr í þrándheims skóla, og kom strax í efstu eðr meistara-

leksíu, undir Rektor Dass, hálærðum manni [1]), hvað Jón ei heldr sparaði að nota, sèr til framfarar; náði hann bráðum, vegna kostgæfni sinnar, einkum í hinni grísku túngu, sèrligri hylli þessa síns lærifööurs, og dvaldi hann þar í skóla nærstu 2 ár; loksins var hann dímittèraðr til háskólans sumarið 1748, með ágætasta vitnisburði [2]) af áðrnefndum lærimeistara sínum og upp þaðan trúfasta vini.

Strax eptir dímissíón sína úr Niðaróss skóla, fór Jón sjáleiðis niðr til Kaupmannahafnar, tók með sama hið svonefnda *Depósiz*, eðr fyrsta lærdómspróf við háskólann þar, og var síðan þann 29da júlíi mánaðar ár 1748, skrifaðr inní stúdentatalið undir *Rector magnificus* Dr. og Prófessor Reuſs, og *Decanus úniversitatis* Dr. og Próf. Anchersen, er laungu þar á eptir varð Konferenzráð; nokkru síðar fèkk Jón, sem Íslendíngr, það

---

[1]) Einsog Dass var meðal hálærðustu manna, var hann líka, að allra kunnugra dómi, heppnasti kennari; Schjönning var einn af lærisveinum hans. Dass var og í mesta vinfeingi við Kammerherra Súhm, er sjá má af þessa *Samlede Skrifter*, hvar nokkur brèf frá Dass finnast innfærð. Samanb. Viðbætirinn, nr. 5. undir bókst. *f. g. h. k.*

[2]) Þessi vitnisburðr er meðal fylgiskjalanna nr. 4.

svokallaða *Regènz*[1]) og *klaustr;* er þess þá getið meðal annars, að hann hafi náliga verið búinn að týna niðr að tala móðurmál sitt, *íslenzkuna,* og mætt fyrir það töluverðu álasi landa sinna, er samtíða voru þar að bóknámi. þetta þoldi hann miðr, og tók sèr strax fyrir hendr, í öllum frístundum sínum, að lesa allt hvað hann yfirkomst af íslenzkum fræðum. þetta í fyrstu lítilsverða atvik dró þó síðan til annars, er meira var ívarið: því í öndverðu var tilgángr hans einúngis, að firra sig vítum landsmanna, og ná aptr liðugleik og æfingu í tali og ritun íslenzkrar túngu, og til þess hann því betr fengi því í verk komið, náði hann, þó með töluverðum eptirgángsmunum, fríum aðgángi til fornritasafns Árna sál. Magnússonar, á bókasal háskólans, hvört safn þá mátti segja var fólginn fjársjóðr, hvörs notum ekki væra heiglum hent að ná; við þetta tækifæri varð það, að bæði kviknaði laungun hjá Jóni sjálfum, til

[1]) Hvörttveggja þetta eru konúngligar stiptanir: hin síðari af Kristjáni enum 3ja stiptuð 1555, hvar í fyrstu 20, en 5 árum síðar 100 fátækustu stúdentar fengu ókeypis mat tvisvar á dag. og hèt þá stiptunin *Convictórium* eðr *Samneyzlustofa.* Regènzið eðr *Collegium regium,* stiptaði Kristján kóngr 4ði ár 1619 fyrir 120 fátæka stúdenta, er þar síðan njóta gefins húsnæðis og brenniviðar til kakalofna sinna.

að dýrka þessi fornfræði, hvað hann síðar lèt merkja, að gjört hefði sèr marga ánægjustund; líka gjörðist hann við þetta litla atvik, frumkvöðull til, að síðan hafa hvör tildrögin öðrum af stað komið, til þess æ betr og betr að uppfylla tilgáng stiptarans, með bókasafn þetta, sem án efa var: sæmd og víðfræging forfeðra vorra, föðurlands og túngu; vita það allir, að Jón í einu og öllu varði þartil alefli, svo lengi hann lifði.

Þann akademiska lærdóm lèt Jón samt sem áðr, hafa fyrirsæti um sinn, og í 2 árin fyrstu yðkaði öðru fremr lærdóm í griskri túngu [1]), heimsspeki og þarmeð samteingðum vísindum. Í grísku heyrði hann Prófessor Mûnthe, og nâði hjá hönum áliti svo miklu, að fá eru dæmi til [2]), hvörju þessi

[1]) Það er sagt af kunnugum, að þegar Jón útstóð það filósófiska próf, hafi Prófessor Mûnthe, sem var lærisveinn og eptirmaðr ens ódauðliga Grams, ekki haft Hómers bók við höndina, ekki heldr getað lesið þær skræður af henni, sem Jón ætíð hafði í vasa sínum, hafi hinn þá byrjað hvar hönum datt í hug, en Jón þegar tekið við og lesið, svo lengi hinn vildi; en lika frásögn þessari framfærir Sûhm um Gram.

[2]) Árið 1752, þegar Mûnthe opinberliga framfærði *keppirit* sitt, er hann nefndi *historia lingvæ græcæ, partic.* 2., brúkaði hann Jón fyrir *mótsagnara* (*opponens*), en 1757 fyrir *forsvarsmann* (*defendens*) við fyrsta part af sínum *Observationes ad Hesiodi* ἔργα.

hans lærifaðir framhèlt, og var hans vinr meðan þeir báðir lifðu. Í heimsspekinni *(philosophía)* er líkast, að á þeirri tíð ekki hafi verið um mjög auðugan garð að gresja við háskólann, og að Jón hafi mestan part í henni spilað uppá eigin spítur [1]; hann heyrði að sönnu Prófess. Ziegenbalg yfir flestar greinir mælifræðinnar, en fannst yfir allt farið á skemsta vaði; Prófessor og Etazráð Horrebow heyrði hann með meiri ánægju yfir stjörnufræði; Etazráð Thestrûps fyrirlestrar yfir lógík og metafysík fèllust hönum miðr í geð, og valdi því í hans stað biskups meðhjálparann, Mag. Gûðme, sem opinberliga las yfir sömu greinir heimsspekinnar, og þareptir varð stiptprófastr í Álaborg á Jótlandi [2]; yfir náttúrufræði *(Physíca)* var þá ekkèrt lesið við háskólann, sem verdt

---

[1]) Svo ritar eptir hönum einn merkasti kunníngi hans og vinur: „Hann kvaðst í 2 ár ekkèrt hafa annað lesið enn *philósóphíam*, og varla um annað þeinkt; það hefði og töluverdt veikt minni sitt; þó hefði eingi vísindagrein orðið sèr að slíkum notum sem sú, í öllum sínum mörgu embættisstörfum síðan; óskaði hann og laungum, að vísindi þessi mættu æ meir og meir blómgast við háskólann, og hvervetna þar mentanir yðkuðust."

[2]) Gûðme valdi síðan Jón fyrir *forsvarsmann*, þegar hann 1752 hèllt sína dispútaziu: *Protheria Theologiæ polemicæ*, fyrir doktors titli í guðvísi.

þækti að heyra, og var það haft í heimaverkum, einsog við varð komið; eingu að síðr undirkastaði Jón sig enu filósófiska lærdómsprófi, þann 20ta sept. 1749, og náði bezta lærdómstitli í þeim fræðum; hætti samt ekki frekari æfingu í þessum vísindum, helzt heimsspeki, hvarí hann einkum fèllst á Wolffs meiníngar, fyrri enn hann þóktist nokkurnveginn hafa náð hennar takmörkum, og skilið hvörsu hennar mætti viðneyta, í öðrum greinum lærdómanna; lèt hann þá þar við standa, en tók þó þann svonefnda lárviðartitil *(gradum baccalaurei)* í heimsspeki, einsog þá var tídt, árið 1750, svo að hann þeim mun leingr njóta mætti klaustrs- og regènz-hlunninda, vildi samt ekki þiggja magisters titilinn síðar, þegar Próf. Horrebow tilbauð hann, og jafnvel taldi hann þar á.

Til þess er einkum tekið, hvörja alúð Jón hafi lagt á þær svokölluðu *klaustræfíngar* [1]), er á þeirri tíð helzt voru innifaldar

---

[1]) Klaustr-máltíðunum var, þegar framliðu tímar, breytt til lærdómsæfinga, þannig: á klaustrsalnum, hvar þessar æfingar skyldu framfara, 1 klukkustund dags í senn, frá 11 til 12 fyrir middag, voru mörg borð með bekkjum sett, viðlikt og nú er tídt í skólunum, sátu við hvört borð 12 stúdentar, og 1 að auk, sem *vera átti* bezt að sèr, og að því leiti þeirra

í munnligu samtali og keppiræðum útaf sèrligum fyrirlögðum lærdómsefnum, optast á latínska túngu; er svo sagt, að Jón, sem vel skildi not þvílikra æfínga fyrir gáfumann í mörgu falli, hafi jafnvel í einrúmi, þegar hönum gáfust stundir til, dispúterað tímum saman við einhvörn dauðan eðr fráverandi rithöfund, ýmist með eðr mót, altíð á latínu og með heyranda málfæri, einsog hlýddi efni og kríngumstæðum, í hvört sinn; öðlaðist hann við þetta hinn mesta ferðugleik í að dispútèra og tala latínumál; var ekki trútt um, að hann ræki stundum borðnauta sína á klaustri, jafnvel sjálfan dekanus með, í vörðuna, er þreyta skyldi; sýndi hann þarí hugmóð nokkurn, en gaf sig þó ei í opinberar keppiræður, utan

---

yfirmaðr með Dekanuss titli, að hann átti að halda þeim til siðsemi og kostgæfni í æfíngunum, skera úr og semja niðr þeirra lærdóms kappræður; fyrirleggja hvörjum heima víst tiltekið umtalsefni, í vissri lærdómsgrein hvörn dag, og hètu það *partes*, voru optast 4 hvörn dag, sem hlutdeild tóku við sama borð í æfíngunum, eða höfðu partes, sinn í hvörri lærdómsgrein, þó voru nokkur borð ætluð að öllu leiti tilteknum brauðvísindum, guðvísi, læknislist og lögspeki, og s. frv. Þegar hvörs eins æfíngartið var úti í hvört sinn, ritaði dekanus vitnisburð hans í læstan prótókol, og munu þar dómar ýmsir og skritnir, sem engu siðr lýsa þeim er dæmdu, enn hinum sem um var dæmt.

klaustrs, nema þartil kvaddr væri, sem áðr er ávikið [1]). Framar öðru kveiktu þó þessar, Jóni svo lögnu, æfíngar í fyrstu orðstýr hans nokkurn við háskólann, og komu hönum í hylli ýmissra prófessóra, svo að hann var inntekinn á *Borchs Kollegíum* [2]) þ. 16da sept. 1754, og varð í nóvember mánuði nærsteptir dekanus á klaustri.

---

[1]) Kunnugr merkismaðr hefir ritað, að meðan Jón var að lesa til attestaz í lagavísi, hafi hann fyrir stúdenta, sem miðr sóktu sjóinn, tekið saman fjölda mikinn af ræðum og dispútazium, í ýmsu visinda efni, og áunnið sèr þarmeð töluverdt af peníngum, er hann keypti fyrir klæði og bækr.

[2]) Þetta er ein af þeim ágætu höfðíngja-stiptunum þremr við Kaupmannahafnar háskóla, til uppheldis vísindadýrkurum. Sá viðfrægi Dr. Ólafr Borch stiptaði þetta svokallaða *Coll. Borrichianum* ár 1689, gaf til þess hús sitt, og þaraðauki höfuðstól af 24000 rdm., áttu rentur af 16000 rdm. að deilast meðal 16 stúdenta, sem vel hefðu afstaðið það filósófiska og filólógiska lærdómspróf, og þeir að njóta þess í 5 ár; rentur af 5000 rdm. áttu hvört 10da ár að leggjast til aukníngar höfuðstólnum; rentur af 1000 rdm. til húsabótar; af 500 rdm. til bókakaupa; af öðrum 500 rdm. til umsjónarmanns (*ephorus*); og af 1000 rdm. skiptast milli háskólans prófessóra. Hèraðauki gaf þessi mikli maðr 600 rd. til Ripa skóla á Jótlandi, hvar hann áðr hafði lært; 500 rd. til sjúkra stúdenta umhirðíngar, og enn 500 rd. til 6 húsviltra fátæklinga. — *Annað* er *Coll. Elersianum*, stiptað af Etazráði Jørgen Ehlers ár 1691, af

þegar Jón kom fyrst til háskólans var ætlun hans að gefa sig allan við guðfræði, verða síðan annaðtveggja prestr eðr skólameistari; tók því strax fyrir sig á öðru ári háskólamentunar sinnar, að heyra öðruhvörju fyrilestra enna teólógisku doktóra Hólms og Wöldikes, einkum þeirra *Collegía examínatóría:* en eptir hönum er það haft, að þánki sá, hann gjörði sèr um með sjálfum sèr, hvörsu mikill vandi og ábyrgð hvíldi á prestum og kennendum, hafi bráðum veikt lyst hans til klerkdóms; einsog þessi ætlun síðr jókst enn dofnaði við kennslu tilsögn úngra stúdenta, undir hið *fílósófiska lærdómspróf,* er hann í heldri manna húsum, þess ímilli að sèr tók, hvörsvegna hann og nokkru síðar þáði sig undan tilboði eins af enum arðsamari skólakennsluembættum; en eptirfylgjandi atburðr gjörði þó allt um eitt, til

41200 rda. höfuðstól; rentur af 8000 rdm. voru ætlaðar til húsbyggíngar; af 16000 rdm. til deilíngar milli 16 stúdenta; af 4000 rdm. til aukníngar höfuðstólsins; af 1300 rdm. til prófessóranna; af 700 rdm. til ephórus; af 200 rdm. til portvarðar, og af 3000 rdm. til erlendis reisuhjálpar 1 stúdenti. — Hið *þriðja* og elzta er *Walkendorphs Kollegíum,* stiptað 1596 af Ríkisráði og Riddara Kristófer Walkendorph fyrir 16 stúdenta, af 61000 rda. höfuðstóli, ærinni summu á þeim tímum. Samanb. Pontoppid. d. Kyrkjusögu.

að breyta allri Jóns fyrirhyggju, viðvíkjandi aðal-lærdómi hans.

Árið 1750 bar svo til, að Jústizráð Bolle Willûm Luxdorph, er síðar varð Riddari og Geheimeráð, stórhöfðíngi alþekktr að lærdómi og göfugleik, mæltist til að biskup Harbóe veldi sèr og útvegaði íslenzkan stúdent, er bæði gæti komið sèr niðr í enni gömlu Norðrlanda túngu[1]), líka umgengið sitt ágæta bókasafn; bendti biskup hönum strax, sem líkligt var, á Jón, er að vonum mat það sem nýan föðurvelgjörníng af biskupi og lukku sína engu síðr; tók því allshugar feginn, og virðist ekki miðr hlýða, að Jón segi nú um hríð sjálfr frá: „það var ekki þarmeð búið, að Lux„dorph við mèr tók, til áðrsagðra starfa,

[1]) Á þeim tíma — kveðr Prof. Ólavsen að orði — var ákvarðað: að Jón með öðrum stúdenti skyldi, undir tilsjón Luxdorphs, safna, samanbera, gegnumgánga og afskrifa öll en fornu lög, á íslenzka túngu, velja úr allt, er þá var gildandi, hvað síðan skyldi á prent útgánga, og nefnast *Friðriksbók* (*Codex Fridericianus*); átti þarí inn að færa Magnúsar kóngs ísl. lög, með öllum þartil hlýðandi rèttarbótum og skipunum; en vegna þess, að ekki urðu verðlaun fengin fyrir störf þessi, komst þetta fyrirtæki ekki lengra. Til er brèf Luxdorphs til Sûhms, hvarí hinn gjörir sèr að gamni, að hann haldi Islending til að kenna sèr íslenzku, og er líkast Jón hafi það verið.

„heldr lèt hann mig matast við sitt eigið
„borð [1]), og hèlt því fram við mig, frá því
„um haustið 1750, þángaðtil eg var kallaðr
„burt frá Höfn, á 9da ár. Það væri skylda
„mín að halda á lopt þeim margföldu vel-
„gjörníngum, hvörja eg á þessum manni
„að þakka, ekki einúngis um tiltekna tíð,
„heldr æ síðan, en þeir eru fleiri enn svo,
„að í fám orðum verði taldir! mèr verðr —
„því getr hvörr og einn nærri, sem veit
„hvað ágætum kostum hann er búinn, og
„hvörr er sá, sem það ekki veit! — að
„nægja, að geta þess, að hans víðfrægi
„lærdómr og útvalda bókasafn, gáfu mèr dag
„hvörn tækifæri til vísinda auka, og dæmi
„hans, til lögunar mínu þánkafari. Um-
„gengni með hönum bjó mèr veg til æskjan-
„ligustu kunnugleika í heldri húsum, meðal

[1]) Það er sagt af þeim, þá tilþekktu, að Luxdorph hafi látið Jón hjá sèr matast hvörn laugardag, meðan þeir lifðu báðir, og Jón var í Kaupmannahöfn. Má vera þetta sè rètt hermt, og Luxdorph hafi haldið gömlum vana, gjört Jóni heimboð á laugardögum, eins eptir það hann kom aptr frá Sórey, og til æðri embætta og metorða, báðum þeim til ánægju og vináttu framhalds. Fyrir satt er það haft, að *Ertur* hafi verið tilsettr vanakostr í Luxdorphs húsi á laugardögum; má þaraf ráða, að einsog Jóni var eigi þángað boðið í sællifis skyni, svo hafi hann ei heldr í slikum tilgángi þángað komið.

„vina hans og ættmanna; helztan þeirra „nefni eg Konferenzráð (síðan Geheimeráð) „Hjelmstjerne, hvörs makalausa safn, af „dönskum fróðleiksefnum, mèr við þau til„drög var í hendr fengið til uppskriftar [1]) „og stóð mèr upp þaðan opið, þegar eg „vildi. Framar get eg þess, að velgjörðir „þær, hvörra eg naut í Luxdorphs húsi, „gjörðu mer þess lèttara við háskólann, að „bíða eptir forlaganna mèr ætluðu ákvarðan, „sem hann ljúfar eptirlèt mèr hjáverka tíma, „til að taka kondiziónir einsog eg sjálfr vildi, „og meðal annars stakk uppá mèr, til að „undirbúa son Konferenzráðs Schoubóes, til „ens filósófiska examens" [2]).

Að ráði og áeggjan þessa síns velgjörðaföðurs, lèt Jón síðan leiðast til að velja sèr þau júríðisku vísindi fyrir aðallærdóm; hóf því strax á öðru ári veru sinnar með Luxdorph, að heyra þá tvo nafntoguðustu lögvitrínga á þeirri tíð, Stampe og Kófóð Ancher; en tækifærið til fullra nota, af fræðíngu þessara miklu manna, varð Jóni endasleppara enn hann kaus, þar hinn fyrri,

---

[1]) Samanb. Viðbætir, nr. 5, bókst. g.

[2]) Svo segir Sûhm í Luxdorphs stuttu æfisögu, að hann hafi framhaldið vinfengi og velgjörðum við Jón, til dauðadags. Samanb. Viðb. nr. 5, bst. d.

sökum annara embættisanna, hlaut að fella niðr kennníngar sínar við háskólann, og hinn síðari varð að hætta fyrilestrum sínum, veikinda vegna, síðla árs 1756, svo Jóni auðnaðist hvörigan þeirra að heyra til lokins, yfir allar greinir lögspekinnar. „þó ber mèr" — segir Jón sjálfr — „alla daga þakklát-„um að minnast þess, bæði hvað mikið eg „af þeim lærði, líka hvörrar hylli eg af þeim „naut, einkum þeim síðarnefnda; það get „eg með sanni sagt, að af hönum lærða eg „mest allra, er við háskólann kenndu á þeirri „tíð, og þareptir fór gæzka hans við mig „í öllu." þegar Jón þ. 1ta apríl 1756 hafði opinberliga forsvarað dispútazíu þessa mikla manns: *De indole juris privati*, tilbauð þessi hönum þá svokölluðu *licentiati* nafnbót í lögvísi, hvörja Jón og mundi tekið hafa, nema óvissa um embættis-frama í það mund hafði skotið hönum þeim skelki í brjóst, að bágborin kjör hans kynnu, þegar frammí sækti, varpa óvirðíngu á tèða nafnbót. Tveim árum síðar kaus Kófóð Ancher Jón fyrir meðhjálpara sinn, til að halda opinberliga fyrilestra við háskólann [1]), og var svo lángt komið, að Jón hafði á kennslulista þess árs teiknað þær lærdómsgreinir, hann

[1]) sbr. Viðbæt. nr. 5, bst. p.

hugðist yfir að lesa, en þegar hönum ekki útveguð urðu laun frá neinum opinberum sjóði fyrir starf hans, kom þeim saman, að sleppa því fyritæki. Samt herdti þetta svo á togum, að Jón þann 22an ágúst 1758 tók opinbert attestaz í lögvísi, voru þeir K. Ancher og Stampe hans yfirheyrendr, enn þótt hinn fyrri, sökum veikinda; vart væri fær þartil, og sá síðari, um nokkur ár, ekki komizt hefði til þvílíkra starfa; þannig lögðu þeir samt smiðshöggið á velvild þá, þeir báru til Jóns.

Hvörr rómr um þessar mundir og laungu fyrr, leikið hafi bæði utan- og sèrilagi hèr innan-lands, á lærdómi Jóns og öðrum mannkostum, má nokkuð ráða af því nú er talið, og jafnframt því af einstöku brèfum, sem yfir hefir orðið komizt, og farið hafa fyrr og síðar millum hans og ýmsra lærðra höfðingja, þaráméðal ens hálærða biskups Dr. Finns Jónssonar í Skálholti, og þeirra feðga[1]); sèst af þeim, að biskup Finnr

[1]) Brèf þessi, sem Érichsen sál. hefir ritað biskupunum Drr. Finni og Hannesi, allt frá 1756, má í útdrætti, hvar allt heimugligt og óviðkomandi efni snertandi er úrfellt, lesa í Viðb. undir nr. 6, bst. A. og B. Eigu þessir útdrættir að sýna, hve hátt hvör þessara höfðingja hefir annan metið, í lærðum efnum; hvað rótgrónir vinir þeir verið hafa; hvörja

hefir ekki vílað fyrir sèr, að velja Jón, ekki eiñúngis syni sínum Hannesi til leiðtoga við háskólann, heldr jafnframt því falið hönum á hendr mest alla umsjón og yfirferð síns þá á prjónum hafða ágæta og fræga verks: *Íslands kyrkjusögu.*

þann veg framliðu nú, sem fyrri segir, og enduðu lærdómsár Jóns, og stóð hann nú á þrítugu; í sama hlutfalli jókst óvissa hans og von um viðværiligt embætti í framtíðinni. Móti tilboðnu arðsömu jústiz-embætti á vestindisku eyunum, þorði hann ekki að taka, heilsu sinnar vegna, hvör ætíð var lingerð; að komast sem talsmaðr eða aðvókat inn í Hærsta-rètt, hvartil velunnarar hans endr og sinnum hvöttu hann, leizt hönum ísjárverdt, auk annars — sem hann sagði — af því að svo þykir sem talsmenn eigi sinn þátt í ábyrgðinni með dómarанum, þegar málefnið einsog tíðum viðber, snýst á annan hátt, en mörgum sýnist vera ætti. Hugr hans var allr til kyrrlátra lærdómsyðna, og laungunin umframm allt annað, að ná embætti við háskólann, hvartil þó áðr ádrepnir viðburðir gáfu hönum litla von.

rækt Jón fyrr og síðar bar til bræðra sinna; hvörsu útbreiddr hans lærdómr og grannskygn hans greindarkraptr var; og umframm allt, hve annt hönum var um velferð lands vors, m. fl.

það leið samt ekki lángt þángaðtil lukkan, framar allri von, gekk hönum í greipr: Geheimeráð Júel, er þann tíma var yfirhofmeistari í Sóreyu, Jóni að öllu óþekktr, nema nafninu einu, fèll uppá að velja hann til prófessors í lögspekinni, við riddaraháskólann, sem þar var, í stað Etazráðs J. Colds, svoframt Jón það þiggja vildi; eggjuðu þessa sumir hinna prófessóranna þar, sem bæði kynnzt höfðu við Jón, inni í Kaupmannahöfn, líka heyrt af hönum sagt. Jóni var þetta samt í fyrstu hálfnauðugt; setti hann fyrir sig ýmsar leiðinda-frèttir, er um þær mundir bárust frá Sóreyu, en fyrir því hann þóttist vita, að sèr mundi ekki bjóðast tvisvar annað eins, ef ei þægi hann þetta, líka hinns, að Harbóe biskup, móti hvörs ráði Jón aldrei vildi fara, áfýsti hann að þiggja, gjörðist hann ljúfr þartil, og þág af konúngi veitíngarbrèf, dateráð 20ta apríl 1759, fyrir áðrnefndu prófessorsdæmi í Sóreyu [1]).

Nú er sá hluti af æfi þessa göfugmennis farinn, sem greiðastr er, og ljósastr þeim,

---

[1]) Sagt er, að þegar Prófessor Kófóð Ancher var aðspurðr, hvörnin hönum litist Jón til þessa hæfr; hafi hann skorið skirt úr, og talið hann öllum fremr þartil hentan, af þeim hann þekkti i Kaupmannahöfn.

er hvörki voru samverar hans erlendis, nè heldr náð geta, sem vildu, til hjálparmeðala þeirra, sem hlutdeilnislaust sýna manninn, í hans mörgu og vandhæfu embættasporum og í hans hvörsdagligu líferni.

En því verðr þó að tjalda sem til er, og geta þess, að Jón Eyríksson fluttist einhleypr sem prófessor í lögvísinni til Sóreyar háskóla, sumarið 1759, og hèlt því embætti með heiðri og sæmd í 12 ár. Að segja frá ýmsu óþægiligu, sem hönum mætti þar í fyrstu, og gjörði hönum, við 2 ára tíma, nærsta leiðan, heyrir ekki híngað; því hann sneiddi sig með skynsamri vareygð frá allri hlutdeild þarí, en stundaði þess heldr að umgángast og koma sèr vel við alla, einsog fremst var fært, og að reka embætti sitt með vöndunarsemi og kostgæfni, eptir verðugri skyldutilfinníngu við konúng sinn, sem æ síðan er ljóst að fylgði hönum. — það var á þeim tíma almanna mál, að meðan Érichsen var prófessor í Sóreyu, hefði háskólinn þar staðið með mestum blóma, í tilliti til lærdóms og vísinda framgángs og aukníngar, sem jafnt var eignað hönum og Prófessor (síðan riddara og Geheimeráði) Gûldberg, enda voru þeir nærsta samrýndir og enir fölskvalausustu vinir upp þaðan.

Árið eptir, þ. 21[ta] mají, var Érichsen

frá því júríðiska fakûlteti, gegnum þess dekanus, Etazráð K. Ancher, tilboðin doktors nafnbót í lögspekinni, við þá ásetta fagnaðar-hátíð, en þar undan þág hann sig í brèfi af 12 júníí, sökum naums tíma og fleiri atvika. [1])

Nærsta ár 1761, þann 11ta ágúst, giptist hann jómfrú Kristínu María Lûndgaarð frá Kaupmannahöfn; höfðu þau þar lengi áðr viðkynnzt, og til hlítar þekkt hvört annað; eptir leyfisbrèfi frá konúngi, af 25ta júlíí, voru þau samanvígð á Bûchendrûp prestssetri, af sóknarherra Niels Birni Todslauf; en mælt er, að Érichsen, hvað þennan ráðahag snertir, hafi ei öldúngis fylgt bendíng velgjörara síns, biskups Harbóes. Þau áttu saman alls 10 börn, hvörra 7 komust til aldrs, og lifðu föðurinn, 5 piltar og 2 stúlkur. [2])

---

[1]) Í *Nyerups og Krafts almindelige Forfatter-Lexicon* er þó sagt, að hann hafi orðið Dr. júris 1760, hvað svo mun ega að skiljast, að þessi heiðrstitill hafi hönum þá boðinn verið.

[2]) Af þessum börnum hans lifa ennþá 3, en 7 eru dáin; þau voru: 1) *Jens,* fæddr í Sóreyu 26. júní 1762, varð sekretèri og kontórforíngi undir því konúngl. Rentukammeri, dó 1824 og eptirlèt sèr 3 börn: Jóhanne, Marie, Jóhn og Wilhelm. 2) *Érich,* heitinn eptir föður Érichsens, fæddr í Sóreyu 26. dec. 1763, varð einnig sekretèri og kontórforíngi undir Rentukammerinu, dó 1821 barnlaus. 3) *Anna Margrèt,* fædd í Sóreyu 8. dec. 1764, var fyrst trúlofuð sjóofficèra, Tychó Jessen að nafni, en hann dó úngr á ferðum í

Þegar Érichsen hafði í 5 ár verið prófessor í Sóreyu, fèkk hann bréf af 16[da] júníí 1764 frá yfirhofmarskal greifa A. G. Moltke með ávísun um, að konúnglig hátign allranáðugast hafi útvalið hann fyrir lærimeistara hjá arfaprinsi Friðriki, í staðinn fyrir þann góða og margfróða Prófessor Sneedorff (hinn eldri) þá nýsálaðan; Érichsen áleit þetta að sönnu, sem vera bar, fyrir eins mikla náð og hún var óvænt, enn sökum þess kjör hans, að inntektinni til, fremr virdtust

---

Einglandi, giptist síðan 1794 bróður hans, þeirri í Danmerkr síðasta stríði nafnfrægu sjóhetju, Kontreaðmiráli og Riddara Karl Wilhelm Jessen, er sálaðist 31. marzí 1823, sem yfirstjórnari (*Gouverneur*) á eyunni St. Tómas í Vestindíunum, og eptirlèt sèr 6 börn: Marie Kristine, Nikólaï Jakob, Tychó, Sofie, Jóhn Érichsen og Karóline. 4) ***Lúðvíg,*** heitinn eptir biskupi Lúðvíg Harbóe, fæddr í Sóreyu 22. febr. 1766, varð kammerráð og meðlimr af Matrikúleringsnefndinni á Íslandi, síðan amtmaðr og konstitúeraðr stiptamtmaðr samastaðar; var velgáfaðr og æfðr í embættisstörfum; giptist elztu dóttur amtmanns Vibes, og sálaðist barnlaus á Bessastödum árið 1804. 5) ***Steinun,*** heitinn eptir móður Érichsens, fædd í Sóreyu 23. febr. 1767, giptist 19. júlíí 1793 sjóofficèra, að nafni Posth, er dó 1822 sem kommandör. Eins og hún er munstr kyns síns, var líka dóttir hennar Nikólína, er sálaðist 13. dec. 1825. 6) ***Skúli,*** heitinn eptir landfógèta Skúla Magnússyni, fæddr í Sóreyu 8. febr. 1768, dó 8 ára gamall. 7) ***Katrín,*** fædd í Sóreyu 1769, dó 5 ára gömul. 8) ***Hans,*** fæddr í Sóreyu 6. marzí 1770, er Regimentskirúrgus og læknir í Kaupmannahöfn, ógiptr. 9) ***Mattías,*** fæddr í Kmh. 1772, dó sama ár. 10) ***Bolli Willûm,*** heitinn eptir Bolle Willûm Luxdorph, fæddr í Kmh. 20. dec. 1773, varð fyrst sjóofficèri, síðan tollforvaltari í Marstall á Ærey samt kammerráð, dó 1819, og eptirlèt sèr 4 börn: Jóhn, Sofie, Karl og Jakob.

þarvið að rírna en batna, hugr hans heldr ekki stóð til hofglaums, og hann því síðr var á það talinn, af þeim hann mátti mest uppá ætla [1]), frábað hann sèr þessa tign, og fèkk lausn frá henni, í brèfi frá áðrnefndum greifa af 26^ta^ júníí.

þann 9^da^ nóvember á sama ári var hann, ásamt hinum prófessórunum, settr yfirhofmeistari eðr ráðsmaðr Sóreyar háskóla, áeptir greifa Danneskjold Samsøe; og þann 11^ta^ december uppálagt, að inngefa tillögur og þánka sína, um lagfæríng og endrbót þessarar stiptunar. Má með sanni segja, að þetta starf, sem yfirstóð nærþví 2 ár, var til lítils annars, enn til að auka óþægðir og ærinn tímaspillir. [2]) þessi prófessóra ráðsmennska var 3 árum síðar upphafin, en Érichsen þá, ásamt Jústizráði Willúmsen, og, að hönum önduðum, Majóri West allranáðugast á hendr falið, þ. 13^da^ marzí 1767, útsyar háskólans eigna og alls þess er þartil heyrði, til þá setts yfirráðamanns háskólans, Geheimeráðs Reitzenstein, hvað og framfór, hönum til ánægju. [3])

---

[1]) Brèf 2 frá Luxdorph til Érichsen, um þetta efni sjá Viðb. nr. 6.

[2]) Samanb. Viðb. nr. 6, bókst. a. ár 1766.

[3]) Af brèfi til Hannesar biskups 1769 og 70 — sjá Viðb. nr. 6, bst. b. — sèst hvað Érichsen um þessar

Með brèfi af 22^m december 1769 frá forseta ens konúngliga norska vísindafèlags, biskupi Gûnnerus í þrándheimi, var Prófessor Érichsen kunngjört, að hann þ. 3^ja s. m. væri sem meðlimr tekinn inní tèð fèlag, og árið eptir var hann með brèfi 9^da febr. gjörðr meðlimr ens konúngl. danska vísindafèlags, hvorttveggja hönum að öllu leiti óvænt. Sama ár 1770 lá við, hann yrði stiptamtmaðr yfir Íslandi, þó ekki fengi það framgáng, en tilboðið var hönum að ferðast sama ár til Íslands sem kommissaríus í þeirri þá híngað sendu svokölluðu *landkommissíón*[1]); hvað þó bæði húshagir hans og heilsulasleikr, gjörðu hönum ómöguligt að þiggja, hvörsu sem hann að öðru leiti, af alhuga vildi þènað geta föðurlandi sínu. Hèraf leiddi samt, að frumvarp til þess instrúxs, er þeirri kommissíón var gefið, — að fráteknu því, er viðkom *fiskiveiðum*, og ekki var strax tilbúið — var sendt Próf. Érichsen til yfirlestrs og lagfæríngar frá kammerinu; lèt kammerið sèr allar hans athugasemdir vel líka, og fylgði þeim ad mestu.

mundir, viðvíkjandi lærðum störfum, hafði fyrir stafni, þó það því miðr! einsog margt nytsamt dæi í fæðingu.

[1]) Samanb. Viðb. nr. 6, bst. b. ár 1770, í april og nóvember.

Árið 1771 var Próf. Érichsen með konúngs úrskurði af 4ða júníí, í brèfi frá finanzstjórninni af 5ta s. m., kallaðr frá Sóreyar háskóla prófessorsdæmi [1]), og uppálagt að taka sæti sem kommittèraðr í hinu þá nýstiptaða norska kammeri; fór hann þá þegar til Kaupmannahafnar, og tók móti embætti þessu þann 10da í sama mánaði, en konúngligt veitíngarbrèf þarfyrir var úfgefið 8da júlíí nærst þareptir. Svo óvænt hönum voru og að nokkru leiti örðug þessi embættaskipti, og svo óðfluga þau aðbáru, gat hann þó ekki annað, einsog þá ástóð í öllu, en þakklátr tekið ímóti, já álitið þau sem sèrliga konúngliga náðarveitíng; er ei ólíkligt, að þetta skèð hafi nokkurnpart að undirlagi greifa J. G. Moltkes; einsog fullyrða má að þessi stórhöfðíngi síðan átt hafi mikinn þátt í uppgángi Érichsens; með hönum fluttist hann og inní Tollkammerið, og erviðuðu þeir þannveg saman í báðum þeim stjórnarráðum. [2])

---

[1]) Hvört ágæti hann, sem Prófessor í Sórey, innvann sèr, einsog að framan bls. 22 er ádrepið, má líka sjá Viðb. nr. 6, bst. m. sbr. *For Historie og Statistik af Collin*, 1. b. bls. 24.

[2]) Þannig kemst einhvör af vorum merku og tignuðu lands- og embættismönnum að orði, um þenna mikla höfðingja: „Þegar eg eittsinn var hjá greifa Moltke árið 1816, og óforvarandis nefndi Érichsens nafn, braut sá gamli öldúngr úti viðkvæma lofræðu um

Árið 1772 var hönum með konúngligum úrskurði af 24$^{\text{ða}}$ september skipað að vera meðlimr í *árnamagnæanisku Fornfræðanefndinni*, og verðr ekki ofhermt, hvörsu innan handar hann var nefnd þessari, með ráðum sínum og hugvekjum, lagði líka hönd á verkið mörgum sinnum sjálfr, þegar hans fjölbreyttu embættisannir það leyfðu.

Þegar þeim stiptunum, er í greifa Strúenses tíð voru gjörðar í stjórnarráðunum, var aptr að mestu leiti umsteypt í sitt fyrra form, árið 1773, var Érichsen að boði kon-

---

hann, kallaði hann sinn trúfasta vin, og kvaðst ekki hafa þekkt hans maka að yðni og dugnaði. Töluðum við síðan um eitt og annað Íslands högum viðvíkjandi: sagði hann það hefði verið sitt og Érichsens undirlag, *að hjálpa landinu upp, ekki með stórgjöfum eða kostnaðarsömum fyritækjum, heldr uppvakníngu: að landið fyndi sína eigin krapta.* Um allt þetta talaði hann svo greiniliga og skarpvitrliga, tilgreindi og dæmdi um ýmsar ráðagerðir og fyritæki á síðari tímum, nefndi einstöku menn og jarðir hèr með þvílíkum kunnugleik, að mig rak í furðu. Eingvan inn- nè útlendan, hefir eg heyrt skjalligar dæma um eitt og annað í vorum stjórnar- og búskapar-efnum, um jarðabók, kúgildi m. fl. enn Moltke, en — hann var ogsvo fárra maki að dugnaði sem stjórnarherra og búmaðr. — Eg held fyrir satt, að einsog hann árið 1816 var sá *fyrsti* að tign í Danmörku, svo hafi hann og verið sá *fyrsti* að allri ríkisstjórnardáð."

úngs af 4[ða] janúarií, innsettr sem depúteraðr [1]) í það vestindisk-gíneïska Rentu- og general-tollkammer, sem og Økonomí- og kommers-kollegíum, (stjórnarráðið fyrir búnaði og kaupverzlun), þó svo, að hann í enu fyrra skyldi vera bæði kommitteraðr og depúteraðr fyrir þeim norsku tollsökum. [2]) Í sama mánuði, voru Færeya og Íslands sakir, og enn nokkru síðar þær finnmerksku verzlunar- og fiskiveiða-sakir, allranáðugast lagðar undir hans stjórnar umsjón í General-toll-kammerinu. Í laungu riti, dagsettu þ. 21[sta] sept. s. á., hefir Erichsen með rökum sýnt, að ei væri lögum öldúngis samkvæm meiníng og ályktun Rentukammersins, í brèfi til amtmanns Ól. Steffánssonar, þann 7[da] nóvember 1767: *að konúngligir embættismenn beggja stètta ásamt ekkjum þeirra, að meðtöldum lögrèttumönnum, skyldu frá byrjun ársins 1769 og þaðanaf, svara skatti sem bændr, af sínu tíundar-fè, þegar það væri yfir 4 hdr.*

---

[1]) *Kommitteraðir* kallast í lægri röð stjórnarráðanna þeir sem stinga uppá einu og öðru til nytsemda, eðr fyrstir eiga að segja sína meiníng um þau efni, sem framberast í stjórnarráðum; en *Depúteraðir* heita þeir í efri röð, sem úrskurða og gefa því gyldi, sem hinir hafa frammá farið, optar þó sameiginliga með þeim fyrri, einum eðr fleirum, einsog á málefnum stendr.

[2]) Samanb. Viðb. nr. 6, bst. a. 1773.

Leiddi hèraf ærið strit í nokkur ár, og mótróðr, sem vonligt var, frá embættismönnum hèr í landi; sèst og af þessu riti Érichsens, að stiptamtmaðr Thódal var heldr á móti enn með þeirra fríheitum, en leit svo á, að heldr mundu fátækt og hallæri fría þá frá sköttum, enn lög eðr siðvenjur. Áminnzt rentukammerbrèf til amtmanns lá þannig í fjörbrotum, þángaðtil enir andligu, líkliga mest að tilstilli biskups Finns (eptir hvörn fróðligr og snotr ritlíngr er til, um *frelsi embættismanna frá skatti)*, fengu endrlausn frá skattsvari (gjaftolli ónefndum) í nýu kammerbrèfi til fógètans af 9[da] febr. 1771; en í veraldligra kom þetta efni fyrst rètt í gáng ár 1773, þegar landfógèta-reikníngarnir fyrir 1769 komu undir álit og úrskurð í rentukammerinu; tók þá Érichsen blaðið frá munninum fyrir alvöru, og mun því eins vel ega hrós skilið fyrir kóngsbrèfið af 7[da] marzí 1774, er skattfríar ena veraldligu[1]), sem biskup Dr.

---

[1]) Svo hljóðar póstr úr brèfi ens dugliga sýslumanns Brynjúlfs Sigurðssonar í Hjálmholti til Érichsens, dags. 8da ágústi 1769: „Íslands vesæld vex með pragt, „hofferðugheitum og yfirdáð í klæðaburði og lifnað-„armáta! *skattar fjölga*, og það rèttiliga, til „straffs fyrir vora fásinnu, en því miðr það leið-„rèttir oss litið — — Eptir beiðni hefir góðr vinr „skrifað litið saman um vor fríheit, það sama sendi

Finnr, fyrir rentukammerbrèf af 9[da] febr. 1771, er frelsaði þá andligu, þótt líkindi sèu til, að báðir þeir lærðu og miklu menn hafi byggt á sama grundvelli. [1])

Eptir það konúngr ár 1774 að sèr tók þá íslenzku, grænlenzku og Finnmerkr kauphöndlun, var Érichsen af Yfirskattastjórnarráðinu uppálagt að vera meðlimr þess stjórnarráðs, er sett var yfir nefndar kauphöndlanir. Árið þar nærst eptir fèkk hann veitíngarbrèf af 6[ta] apríl fyrir Etazráðs nafnbót. Um þær mundir var stofnsett aukastjórn eða díreksíón nokkur yfir *útreiðslu til hvalaveiða undir Grænlandi og kaupverzlun þar*, samt yfir duggna fiskiveiðum umkríng Ísland. Eptir konúngsboði 13[da] apríl 1775 var hönum tilsagt af Yfirskattastjórninni, undir 18[da] s. m.,

---

„eg mínum kommissíónêr og bið hann 1. senda „yðr, og 2. að *translatèra* altsaman, ásamt yðar við- „bætir og biskups Harbóe, hvörjum eg og þarum „skrifa. Landfógètinn (þótt útkomist með Austfjarða „skipum) mun ei hafa í fullu trè að frambera það á „tilhlýðiligum stöðum, en hann kynni hafa það sem „í kommissíón, einsog einhvörr skattabetjent hefði „afhendt það í sinn bóndaskatt. Eg er viss um „einginn heiðvirðr maðr misvirðir, þótt vèr Íslend- „íngar stöndum uppá vor fríheit, það er þó betra, „enn með þögn tregðast við að betala!"

[1]) Viðvíkjandi hèr innleiðanda *extra-skatti* sjá Viðbætir, nr. 6, bst. a. 1775.

að vera meðlimr nýnefndrar díreksíónar frá inngaungu nærstkomanda árs.

Í december mánuði 1776 varð Etazráð Érichsen sá 5[ti] í röð þeirra depúteruðu í Rentukammerinu, er þó ekki skyldi byrja fyrr enn með nýári; og þann 18[da] s. m. 2[ar] depúteraðr í General-tollkammerinu, yfir þeim efnum, sem Íslandi, Grænlandi, Finnmörku og Færeyum viðkomu, en jafnframt þessu fèkk hann lausn frá afskiptum stjórnarráðsins yfir bústjórn og kaupverzlan *(Økonomí- og Kommers-Kollegíum)*. Virkiligt Etazráð varð hann 1777, og árið eptir meðlimr af Skóla-kommissíóninni, að því leiti viðkom Íslands latínuskólum.

Árið 1779 varð hann meðdómsmaðr eðr assessor í Hærsta-rètti; og sama árið gjörðist hann forseti ens *íslenzka Lærdómslistafèlags,* hvört hann endrskapaði strax eptir það var stiptað, gaf því líf og viðgáng, eyddi allri misklíð, enn hvatti til yðni, samlyndis og allrar-siðsemi, með svo undrunarverðu þolgæði, að valla er trúligt af manni í hans tign og sporum, nema sá gamli fèlagsins ráðslögunar *(deliberazións)* prótókoll bæri það með sèr, einsog hve róstusamir ýmsir landa vorra á þeim tímum voru, fremr enn síðan. [1]) Í einu

[1]) Í Viðb. undir nr. 8 má lesa nokkuð um stofnsetning fèlags þessa.

orði stjórnaði hann fèlagi þessu með vizku, vandlæti og spekt, meðan hann tilendtist, af því hönum þótti mikils umvarða, það byrjaði vel, og áynni sèr þokka konúngsins og annara tíginna og lærðra manna; en — kalla má að fèlag þetta hafi með hönum bæði fæðst og dáið, því forseta þess á eptir hann skorti nærsta mjög bæði lærdóm, vilja og álit við Érichsen, fór og strax að hönum viðskildum margt að tvístrast í fèlaginu, þángaðtil allt að lokunum komst á ríngulreið, sem alkunnugt er. [1])

Konferenzráðs nafnbót öðlaðist Érichsen af konúngi árið 1781, varð og um sömu mundir, eptir andlát Jústizráðs Schlegels, hirðir eða vörðr hins stóra konúngliga bókasafns í Kaupmannahöfn, með veitíngarbrèfi af 18[da] apríl. Þetta sitt bókahirðis embætti stundaði hann með þeirri alúð, er allir, sem þá tilþekktu, dáðust að og víðfrægðu. Jafnvel nú, eptir liðinn 40 ára tíma, er hans dugnaði þarí af lærðum mönnum með ágætasta lofi á lopt haldið. [2]) Af innsendri skírslu hans þarum fyrir árið 1784, sèst meðal ann-

---

[1]) Að eitthvað meir enn minna hafi um þessar mundir bitið eðr lagzt á Érichsen, má ráða af Viðb. nr. 6, bst. b. 1780—81.

[2]) Viðb. nr. 9. Samanb. Viðb. nr. 5, bst. m. og *Werlauffs Bibliotheks Historie* bls. 225 og fl.

ars: að hann nefnt ár (líkliga alltaf) þángaðtil um vetrnætr hefir, auk 2 klukkustunda hvörn formiddag, verið 3 og 4 kvöldtíma, í viku hvörri, stundum frammá nótt, á bóksalnum, til að fá samið nýtt registr eða lista, einúngis yfir *handrit (manuscripta)* bókasafnsins [1]; og að 3 hans fyrstu ár við bibliótekið gengu 3400 rd. árliga þarvið í útgiptir, er seinast var af konúngi niðrsett til 3000 rd. [2])

[1]) Af nefndri skírslu má og merkja, að hann strax þá með varma hefir haldið framm og meðmæltr verið þeim lærða prófessóri og riddara þá stúdenti R. Nýerûp; og gefið sál. stúdenti Þórarni Lilliendal bezta vitnisburð fyrir trúleik hans í verkum og aðgætni.

[2]) Í brèfi til Geheimeráðs greifa Moltke af 30ta ágúst 1781, kvartar Érichsen um, hvað sárt sig taki, skyldi greifinn (við hvörs umsýslun auðráðið er, að konúngr tók hann fyrir bókahirðir) fá orsök til að iðrast sinnar, hönum sýndu, velvildar, þar hann efist um megn sitt, til að koma bókasafni þessu'i tilhlýðiliga orðu, allrasízt þeim dönsku bókum, er safnazt hefði til í 30 til 40 ár, og mikinnpart væru af líttvægu verði, í tilliti til stundar og efnis, en útheimtu því meiri athugasemi og yfirlegu, sem minna væri í þær varið, og fyrr enn þessu sè lokið, fái menn þó ekki þeinkt uppá bókanna innbindíng, nè hvað gjöra egi við þeirra mikla úrkast defektur og duplettur. Þann 29 marzí 1784 var biblióteksins fullkomin og regluglig upp- eða út-tekt í Érichsens hendr ekki að fullu skeð, því undir 26 s. m. frí-

Á sama ári 1781 varð Konferenzráð Erichsen meðlimr í þá stiptuðu lægra stjórnarráði fyrir Ísland, Grænland, Finnmörk og Færeyar; líka depúteraðr fyri þessara landa málefni í Rentukammerinu, hvört þá voru flutt frá General-tollkammerinu. Árið eptir var hönum uppálagt, að vera meðlimr af þeirri, þ. 9 október s. á. konúngliga stiptuðu, *viðvarandi kommissión* fyrir Sóreyar akademí, ásamt greifa J. G. Moltke og Geheimeráði Gûldberg; má það fullyrða, að hann hafi, sem meðlimr af hèr nefndri kommissión, samantekið uppkastið til fûndazíu Sóreyar háskóla af 29da janúar 1782. [1]) Þá voru hönum og á hendr falin umráð og tilsjón yfir því höfuð-landkorti, sem yfir Norveg var samið af hönum og informator Pontoppídan. Árið 1783 varð hann 3ði depúteraðr í Rentukammerinu, og nærsta ár þareptir var hönum að svostöddu uppálagt að ráða fyrir og gjöra allt það eingaungu, sem hann áðr í fèlagi með fyrrverandi stjórnurum Sóreyar háskóla gjört hafði, en þeir settir til annara embætta.

---

tekr konúngr hann frá öllu andsvari fyrri tíða, til bókasafnsins, þángaðtil nefnd úttekt, hvartil leigja megi fleiri meðhjálpendr, útgjörð verði; sbcr. *Werlauffs Biblioth. Historie*, bls. 226.

1) sjá Viðb. nr. 5; bst. p.

Ár 1785 var hann af kóngi settr meðlimr þeirrar nefndar, er bôt skyldi ráða á bæði háskólans og annara lærðra skóla vandkvæðum; líka þeirrar kommissíónar, er þá var útnefnd til að yfirvega Íslands almenna ásigkomulag, og til að uppástínga forbetrun þarí, svosem með frígefinni kauphöndlun, með sölu á Skálholts-stóls og -skóla gózi, m. m. Hvörsu þúngliga hafi á hann lagzt Skálholts biskupssetrs og skóla afleiðíngaríki flutníngr til Reykjavíkr, og þarvið teingð stólsjarða sala, má ráða bæði af brèfum hans til biskupanna [1]) hèr, og ekki síðr af hans djúpsæra og forsjála þarum gefna *undirbúníngs áliti* (*præliminær voto* [2]). En hvörja áheyrn þetta álit hafi fèngið í kommissíóninni, sèst bezt þaraf, að hèrum 8 vikum síðar staðfestist med konúngs úrskurði af 20 apríl s. á., að Skålholts biskupsstóll og skóli skyldi flytjast til Reykjavíkr, en það góz, er tilheyrði þessum stiptunum, við áksíónir burtseljast. Þannig rættist þá spádómr Sveins biskups spaka [3]), að þessi forfeðranna margra hundrað ára stiptun skyldi

---

[1]) Sjá Viðb. nr. 6, bst. a. og b. 1784, 85 og 86.

[2]) Sjá Viðb. nr. 10.

[3]) Hann var biskup í Skálholts stipti frá 1467 til 1475. *Hist eccl.* 2. *Tom.* bls. 485—87.

kollsteypast, og verða svosem á vergángi, líkt þurrabúðarfólki, um þau grýttu, graslitlu, svokölluðu *Inn-nes*, hvar hún, hvað latínuskólann snertir, ei ennþá sýnist að hafa náð algjörligri staðfestu.

Næsta ár hèreptir, eðr 1786, var Konferenzráði Érichsen allranáðugast skipað að vera meðlimr af þeirri vigtugu kommissíón, er þá var útnefnd til að yfirvega kjör bændastandsins í Danmerkr ríki, og til að ráða bót á þeim. Þetta sama ár, þann 15[da] dec., hefir hið svokallaða *norðiska fèlag* í Lundúnum á Englandi, valið hann fyrir *heiðrsmeðlim*, enn hvört kosníngarbrèf [1]) fèlagsins hefir náð hönum á lífi, vita menn ógjörla.

Alla hèr að framan talda tignartitla og embætti gaf konúngr hönum að öllu óbeðið [2]), sökum reyndrar dygðar hans og alkunna dugnaðar; stóð hann og í öllum sínum mörgu og mæðufullu embættum sèr til æru, föðurlandinu til gagns og konúngi til ánægju, og það svo, að allir, bæði æðri og lægri, og sèrilagi meðstjórnendr hans, eins

---

[1]) Brèf þetta má lesa í Viðbæt. undir nr. 11.

[2]) Sumir meina, þó ekki sè það að ráða af áðrnefndu sögubroti Érichsens sjálfs, að prófessors embættið við Sóreyar háskóla, hafi verið það eina, sem hann að boði og ráði vinföður síns, Luxdorphs, umsókti.

í Rentukammerinu, sem í ýmsum þeim kommissiónum, hann var viðriðinn, hnigu til hans, unnu hönum sèrliga, og fylgðu sem optarst hans tillögum, allt þángaðtil máske á hans allrasíðustu árum, þá kraptar fóru að bila, og aðrir ýngri, sem vildu sinn uppgáng, fóru að leitast við, helzt í því er viðkom Íslandi, og hönum var sárast, að veikja hans álit. Eingu að síðr sáu þó flestir, að tillögur hans voru hvervetna bygðar á rèttum grundvelli og sèrplægnislausar að öllu, einsog seinni tíma reynsla líka hefr staðfest, að ei mundi miðr hafa farið, þó öllum ráðum hans hefði fylgt verið um Íslands efni. Það gat ei heldr hjá því farið, að tillögur hans og ráð fengi mikið álit, því fáir munu í þær mundir hafa verið hans jafníngjar að gáfum, lærdómi, ástundun og margfaldri reynslu í allskonar embættisstörfum; segja þeir það, er sèð hafa ýmsa hans úrskurði, sem kommittèraðs og stundum sem depútèraðs í Rentukammerinu, að þeir allir sèu svo greinilligir og orðgnógir, að ekki hafi sá, er stýlfæra skyldi síðan, þurft annað, enn setja upphaf og endir brèfsins í þann venjuliga ráðhús-*(kúríal)* stýl.[1]) Meðal stórmenna þeirra, sem

[1]) Haft er eptir manni, er tilþekkti: að velgjörari og aldavinr hans Luxdorph, hvör á sinum eldri árum

Érichsen átti mest saman við að sælda, og einkanligast til hans hnigu, og hann mest virdti og elskaði, má af sögu þessari víða ráða, að voru þessir enir helztu: biskup Harbóe og Geheimeráð Luxdorph, hvar sonarlig þakklætis skyldurækt líka mun hafa átt hlut í með; Geheimeráð Hjelmstjerne, Geheimeráð J. G. Moltke og Geheimeráð Gûldberg; biskuparnir Dr. Finnr og Dr. Hannes; landfógèti Skúli Magnússon og fleiri hèr; hèlzt stöðug vinátta, meðan Érichsen lifði, milli hans og þeirra þriggja síðarstnefndu, sem sjá má af þeim brèfum hans, sem yfir hefir orðið komizt, meðal hvörra menn þó verða að sakna þeirra mörgu, sem líkliga hafa gengið milli hans og landfógèta Skúla, hvör, því miðr! munu glötuð. [1])

---

gjörðist í seinfærara lagi, sem embættismaðr (sbr. *Sûhms saml. Skrifter*, 6. b. bls. 60), opt hafi sendt Érichsen, jafnvel eptir að hann var kominn á sín efstu stig, *fullar* skjóður brèfa til gegnumlestrar og úrskurðar, svo hefði Érichsen ekki annars góðs notið hjá þessum höfðingja, enn máltíðar á laugardögum, eptir viðtekinni og fastri venju Luxdorphs, þá mætti segja, hann hefði vel svo fyrir því unnið.

[1]) Landfógèti Skúli Magnússon var óneitanliga einn af Íslands mestu dugandismönnum á 18du öld, og vantar hann ennþá óhlutdráttula æfisögu. Á Érichsens sál. barnsaldrsárum var hann 3 ár valdsmaðr í eystri Skaptafells sýslu, hefir þekkt ætt hans og

Hvað viðvíkr hraustleik eða heilsufari þessa merkismanns, þá verðr ekki annað sannara sagt, einsog sumstaðar hèr að framan er ádrepið, enn að hann frá úngdómi hafi optar nærsta heilsutæpr verið, þó ekki sè getið neins sèrligs veikleika hans; eru öll líkindi til þess, að sterkar, ennþó með aldri og reynslu veltamdar og lagaðar, geðshræríngar, skarpar sálargáfur, óseðjandi lærdóms laungun, mátalaus yðni og lestralyst, og þará-

---

foreldra, og líkliga heyrt getið um piltsins frábæru námsgáfur; aptr í sínum mörgu ferðum til Kaupmannahafnar, eptir það hinn var þángað kominn, hefir Skúli líkliga kynnt sèr Érichsen persónuliga, urðu þeir bráðum nærsta samrýndir, og að lokunum alda vinir (sbr. Viðb. nr. 6, bst. b. 1769). Skúli var inni hèr þegar Ér. fèll frá, og brá mjög við fregnina um lát hans, þókti þeim er hönum voru kunnugir, sem hann tæki sig aldrei aptr, meðan hann lifði, að glaðværð nè sinnis lèttleik; sagði hann, að litilli stundu liðinni frá þessari náfregn, og stundi við: *Þar gátu þeir farið með hann! það verðr nú hèðanaf útgjört um Ísland!* Fylgjandi stuttan en gagnorðan vitnisburð um Skúla, gefinn af merkum manni og kunnugum því, er hinn vildi hafa framkvæmt, geta menn ekki neitað sèr um hèr við að tengja: „Það eru sannmæli, að landfógèti Skúli er þess verðr, „að minníngu hans væri uppihaldið í snotri æfisögu; „hann var mikill gáfumaðr, lærðr vel í þeim vísindum, hann hafði sèr valið, stórmenni í lunderni og „allri framkvæmd; en — hann var ekki lagaðr til „að fara lagliga með litið."

ofan á efri árum, nær því óbæriligar annir, áhugi, þánkabrot, en jafnframt öllu þessu, einkum á öndverðri æfi hans, lítilsiglt lunderni og síðan geigr að eitthvað mistakast kunni, hvörju stundum er samfara hjá gáfnamönnum, er sig þvínga verða og spekja, nokkurskonar kvíði við að hafa sig mjög framm: að allt þetta hafi, þegar frammí sókti, og margt vildi snúast öðruvísi enn ætlað var[1]), smámsaman veikt líkama hans, ofreynt lífstaugarnar, og þannig lagt drög til allsherjar tæríngar. Þess er getið á hans efstu árum, jafnvel síðarsta haustið hann lifði, að þegar *fornprentsbækr* þær, eðr *Palæotypa*[2]), sem Geheimeráð Thott hafði testamentèrað konúngs stóra biblióteki, voru þángað uppfærðar, hafi Érichsen, sem bókahirðir, sjálfr ímóti tekið, og borið fjölda þeirra um bókasalinn, þángað sem þeim var rúm ætlað; gekk hann þá svo nærri sèr, að hann reyndist um lífið, og sama kvöldið pissaði blóði: tók þetta svo uppá hann, af sífeldum önnum lasburða og úttærðan orðinn, að hann nærsta var talinn af á hvörju augnabliki, hálfan mánuð eptir; rètti samt við aptr, að 5 vikum liðnum

---

[1]) Samanb. blaðs. 72 hèr á eptir, athgr.

[2]) Allar prentaðar fyrir ár 1530, og að tölu 6,159. *Werlauffs Biblioth. Historie* bls. 243.

eða 6, en þá var því líkast sem hönùm segði fyrir, því strax er hönum fannst sèr skána, var þó nærsta kraptlítill, og gat ekki sofið, tók hann sèr fyrir hendr að skrifa og lesa med slíkum ákafa, að hann á tveim dægrum ekki svaf meir enn 2 hærst 4 klukkustundir; gjörði ráð fyrir að semja nýar útgáfur af sínum fyrri letrgjörðum, nýar bækr, og menn vissu ekki hvað mikil ofætlunarverk; náði það og til ennar árnamagneanisku fornfræðanefndar og fleiri átta, hvar hann hafði eitthvað saman við að sælda. Dæmi eru til, að þvílík ráðleysa hefir sókt þá heim, sem ekki hafa átt lángt eptir.

Þegar nokkuð fráleið, komst Konferenzráð Érichsen þó aptr til ferlivistar, sókti kammerið velflesta daga, þó með veikum burðum væri, og hann rúmfastr þess á milli; leið svo frammeptir vetri, en um þær mundir var, í áðrnefndri Íslands kommissión, *ályktuð fríhöndlun á Íslandi,* sem áðr er ádrepið, og til að framkvæma þær ályktanir og annað fleira, tilskipuð sú svonefnda *höndlunar realísazións-kommissión,* hvar ætla má að meiníngum ósjaldan töluverdt hafi skipt verið um mátann, hve allt þaraðlútandi skyldi í frammkvæmd færast og setjast í lag. Konferenzráð Érichsen var ekki fráhverfr *takmarkaðri fríhöndlun,* er sèst af riti hans þarum; en

hans lánga reynsla og mikla þekkíng á landsins ásigkomulagi, mun hafa viljað stuðla til, að frammí þetta fyrirtæki væri gengið með allri varúð og aðgætni, hvað af öðrum ýngri og miðr reyndum máske kann hafa verið upptekið svo, að hann vildi draga allt í hömlu eðr gjöra fyrirtækið að eingvu, sem þó alls ekki var meiníng hans.[1]) Er þá auðráðið, að hann, hvörs sálar og líkama fjör var svo

---

[1]) Maðr að nafni Eggers, fæddr í Itzehó, varð strax (þó hann að öllu væri Íslands högum ókunnugr) skrifari í oftnefndri kommissión, og réði að líkindum miklu, því bæði var hann velgáfaðr, lærðr og hinn fljótasti erfiðismaðr; þarhjá ódeigr í, að uppástinga nýúngar og umbreytingar, er eptir tíðarinnar ásigkomulagi þá féllust mörgum vel í geð, og sýndust að vera all-líkligar. Hann var í þær mundir í mikillri náð hjá Geheimestatsministrunum Schimmelmann og Reventlow, dó árið 1813 sem þýzkr ríkisbarón og president í Kíel, með Konferenzráðs nafnbót. — Ei er ólíkligt, að hann að mestum parti hafi samantekið fríhöndlunar-fórorðnínguna af 13da júníi 1787, með öllu því uppgángsveðri hún inniheldr; Érichsen mun þá hafa skipt sèr litið af því efni, sumpart sökum veikinda sinna, sumpart af því hann mun hafa fyrirséð, að allt þaraðlútandi skyldi gánga áðr ákvarðaðan veg; þó leiðrètti hann þær stórgerðustu málvillur, og ritaði við frumvarp fororðníngarinnar nokkrar athugasemdir. Að öðruleiti varð Eggerss fljóti uppgángr og frami í ýmsum embættum, helzt við háskólann í Kaupmannahöfn, ei velþokkaðr meðal lærðra manna. Líka fèkk

veiklað orðið, sem áðr er ádrepið, gat nú ekki leingr þolað öfugstreymi og miðr stýrt skapsmunum sínum enn áðr, meðan hann var heilbrigðr að kalla. En þótt hann nú fyrr og síðar hefði svo margskonar og mjög umvarðandi störf á hendi, sem áðr er talið, var hann þó að jafnaði hress í orði, og glaðvær við að ræða, allt fram að kveldi lífdaga sinna, þá að hönum færðist þúng og óvenjulig hugarveiki [1]), sem að lyktum olli dauða hans; samt sem áðr var hann uppi í Rentukammeri þann síðasta dag, hann lifði, hlýddi á það, þá var frammfært, einsog hann var vanr,

hann megnt álas fyrir misgrunaða viðleitni með nokkrum öðrum, að hafa viljað steypa Érichsen, (af hvörs ritum og öðrum verkum hann hafði þó mikið lært), og að mótspyrna öllum hans meiníngum, um umbreyting á Skálholts stól og höndluninni. Um eitt og annað hèraðlútandi er ritlingr útgefinn í Kaupmannahöfn 1792, með titli: *Et Par Ord til Professor Eggers*, hvari sá huldi höfundr segir hönum margan beiskan sannleika.

[1]) Þannig kveðr Prófessor Ólavsen að orði: „Kona „hans ritaði mèr, að seinustu vikuna, hann lifði, hafi „slíkt svefnleysi að hönum sókt, að frammúr skar„aði, lá hann þá og velti sèr á ýmsar hliðar í rúm„inu, og svitnaði úr hófi; ofan á það bættist hræðsla „svo mikil við allt, að — til dæmis — væri klapp„að á dyrnar, var því líkarst sem hann ekki vissi „hvað hann ætti af sèr að gjöra, fèllu hönum þá „tiðum orð, sem ekkèrt ráð var í."

en þó nokkrum mun áhyggjufyllri, enn venja var til, keyrði svo að lokinni samkomunni í vagni sínum heim á leið, yfir *Laungu-brú* svokallaða, á hvörri hann, nær vestra landinu, bauð að vagninn stæði við; en áðr enn vagnmaðr leit við, var Érichsen fallinn út af brúnni í vatnið; það orð lèk á, að yfirhöfn hans og jafnvel vasaúr, samt hattr hefði í vagninum eptir legið. Ekki leið lángt um, áðr hann náðist úr vatninu, og var sagt, að læknar þeir, 1 eðr 2, sem þá voru tilkallaðir, mundu máske hafa fengið hann lífgaðan, ef meizli á höfði hans hefðu ekki hamlað; en skilizt hafi, að hann með handsali bað guð að launa við hann framda lífgunarviðleitni.

*Mors terribilis est iis, qvorum cum vita omnia exstingvuntur, non qvorum laus emori non potest!* (*Cicero.*)

þ. e. Dauðinn er þeim óttaligr, er með lífinu burttekr *allt*, en ekki þeim, hvörra *lof* aldrei getr útsloknað.)

þannveg gekk þá þessi merkismaðr — að kalla má — sjálfviljugliga burtu frá heimi þessum, kraptvana af erfiði, sem allt studdlaði hans konúngi, ríkinu og fóstrjörðu hans til gagnsemda, þann 29da marzí mánaðar árið 1787, þá hann lifað hafði hart nær 7 mánuði á 59da aldrs ár; öllum sló í forundrun og hrygð í stjórnarráði því, hann

í sat og samstundis viðskildi; velfleirstir útífrá er nokkuð til hans þekktu, syrgðu lát hans, og í hönum mistan þann margfróðasta, yðjusamasta og rèttsýnasta embættismann; en hvað kona hans og börn, hvað vort föðurland liðið hafi við lát hans, verðr ekki frásagt.[1])

---

[1]) Vors heiðraða landsmanns, Prófess. Ólavsens klökkva ávarp til sinnar elskuðu fóstrjarðar og vor, útaf láti þessa göfugmennis, er þess verðugt, að hèr sè orðrètt innfært: „*Elskuliga fóstrjörð!* Þèr samsyrgi „eg af hjarta yfir missir þessa þins sonar, á þeim „tímapúnkti, hann, eptir mannligu áliti, sýnist þèr „ómissanligastr! Þin einasta huggun er sú: að guð „muni af sonum þinum uppvekja einhvörn líkan „hönum; og eins hitt: að þú til síðustu niðja nýtr „æru af, að hafa átt slíkan son, fróðan, flestu vax-„inn, og þèr svo hollan, að þess líki valla fæðist „á heillri öld, nè þèr til gleði og gagns sem hann, „sem meðstjórnari og talsmaðr þinna nauðsynja, „einsog hann."

„*Kæru landsmenn!* oss hefir hann hvatt, ekki „einúngis með ritum sínum, heldr eigin eptirdæmi „sínu, bæði úngr og gamall að útgrunda, læra og „ástunda allt, hvað föðurlandi voru má gagna, með-„an vèr erum meðal þeirra, er það má afnema; „sömuleiðis og til elsku og umönnunar fyrir því. „Eg er þess fulltrúa, að hvöt hans og dæmi muni „vorða yðr hin öflugarsta uppörfan, til að leggja „allt það framm, sem hvör einn eptir mætti sínum „orkar, til að ná hans augnamiði: landsins farsæld, „fyrir hvað hann alltaf lifði og offraði öllu. Eg „fyrir mitt leiti álít mína mestu lukku, að eg per-

Um yðjusemd, fölskvalausa umvöndunarsemi og framkvæmd Konferenzráðs *Jóns Eyríkssonar* í embættisfærslu, þarf hèr ekki fremr orðum að fara, þar það er allvíða í ljós leidt hèr að framan; líka segir það sig sjálft, að konúngrinn ei mundi hafa lagt hönum á herðar svo mörg og vandasöm embætti, og varla mundi hann hafa getið af sèr hrundið einu og öðru mótdrægu framm að rökkri æfi sinnar, nema hann verið hefði mesta hetja af embættismanni, haft hreina samvizku, og öllum hefði verið kunnugt hans vandaða siðferði, einsog að allt hans líf var, svo að tala, einlæg keðja af óþreitanligri lærdómsyðn, samfara öllum hans margbreyttu embættissýslunum. Nú skal fátt eitt minnast á hans líkamliga skapnað, sinniseðli, lærdóm og annað þesskonar. Meðalmaðr var hann á hæð, beinn og nokkuð

„sonuliga þekkti svo góðan mann og fullkominn, hans „þeinkingarhátt og athafnir. Fyrirgefið mèr, *elskuligu landar mínir!* og allir sem þetta lesið! að eg „um þetta efni er nokkuð símálugr! hefðuð þèr „þekkt hann svo grant sem eg, mundi yðr ekki „þykja eg oflierma i neinu; þèr munduð öllu heldr „óska mèr tvöfaldrar málsnilli til, enn verðugar að „geta lýst þessum öldúngi, hvörs hrós hjá oss ætti „aldrei að deya. Þèr! sem faung á hafið, gjörið „það með snotru lofkvæði, eðr verðugri ræðu, ódauð„ligt!"

flatvaxinn, grannlimaðr að öllum vexti, þunnleitr og holdlítill hvervetna, og á efri árum mjög úttærðr að sjá; alla tíð glað- og skarpeygðr. Rómr hans var nokkuð mjóraddaðr, þó skír, ei mjög hár, og glaumlaus, þó hann talaði nokkuð fljótt. Málfæri og túngutak var sèrliga liðugt, bæði af náttúru og sífeldri yðkun; þegar hann í samfellu fór að tala um eitthvað, bar hann sjaldan óðan á, stansaði þó aldrei, nè stamaði í orði; ræða hans var áheyrilig og þægilig, lærdómsrík, skemtilig og frammfljótandi sem jafn og lifandi vatnsstraumr. Viðmót hans var hið alúðligasta, þýðasta og einlægasta, móti æðri og lægri, og alltíð eins, jók það, ásamt með öðrum fullkomligleikum, hans virðíng, vinsæld, og þann ylþokka, sem fleirstir til hans báru, meiri hattar og minni, og jafnvel hans mótstöðumenn [1]); enda munu fáir hafa notið

---

[1]) Trúverðugr maðr hefir getið þess: að greifi Reventlow, president í Rentukammerinu, hafi eitthvört sinn, á fyrstu árum samveru þeirra Érichsens, hönum til glaðníngar og óvæntrar ánægju auka, óforvarandis að hönum rètt dókúment, með konúngligu fyrirheiti, um 500 rda. pensión handa konu hans, yrði hún ekkja. Þessi sögn er engu að síðr óviss, en brèf frá Finanz-kollegió, af 5 júníí 1787, til ekkjufrúr Érichsen, upplýsir hinsvegar, að konúngr eptir tillögum áðrnefnds herra, og Rentukammersins þaruppá gefnu meðmælum, undir 30ta mají s. á., hefir

prýðiligri orðróms enn hann, ekki þó um skör fram. Látæði hans og framgánga var hin siðsamligasta og takta laus, þeirra er á nokkurn hátt væru til orða takandi. Í klæðaburði skartaði hann sem minnst mátti vera, valdi hann jafnan ena skrautlausustu liti, og sniðin midt ámilli eldri og nýrri móðs; aldrei bar hann gull á hatti nè klæðum, er á þeim tíðum stundum var þó tídt, jafnvel stúdentum og handverkssveinum; sparsemdarmaðr var hann alla æfi, og sýndi það sig strax er hann kom í skóla, einsog síðar;

---

allranáðugast tillagt henni, frá 1sta april s. á., 200 rd. árliga pensión, þaraðauk hvörjum sonanna 120 rd. á ári, þeim elzta í 3 ár, þeim 2mr þar nærstu að aldri í 2 eða 3 ár, þeim 4ða þángaðtil hann sem stúdent yrði við háskólann, og enum yngsta, þángaðtil hann yrði virkiligr sjókadett; umfram þetta hèt konúngr hvörri dætranna, ef þær óráðstafaðar lifðu móður þeirra, 100 rd. árliga. Eptir viðskilnað Érichsens veitti greifi Reventlow líka og yfirhöfuð hið heila Rentukammer-kollegíum, sonum hans einn föðurligan velgjörníng eptir annan, ekki einúngis peningastyrk, þó stundum máske töluverðan, heldr og leitaðist við, að koma þeim til metorða og embætta, þó það ei algjörliga lukkaðist, nema með amtmanninn (sjá bls. 40 athgr. 2). Það var og af virðíngu og rækt fyrir Érichsens nafni og moldum, að bróðursyni hans Vigfúsi, er hèðan sigldi fyrir nokkrum tíma til mentunar, var, að tilstilli Rentukammersins, veittr árligr peningastyrkr til þess tíma að hann yrði stúdent.

meðan hann stúdèraði við háskólann; er það sagt, hann hafi eingrar aðstoðar getað notið frá náúngum sínum í Íslandi, þó hafi hann svo þarfliga lifað, að klaustrdalr hans, eðr ölmusa sú, er stúdentar nutu af klaustri, og í þá daga mun verið hafa 64 sk. um viku hvörja, hrökk hönum til fæðis og klæðnaðar, en regènz- eðr svonefnda líkburðar-penínga sína — sjaldan yfir, optar undir 3 rd. um mánuðinn — hafi hann brúkað til bókakaupa, er hann ei mátti án vera; má því nærri geta, at hvörki hefir matnaðr hans nè klæðaburðr þá verið hið ríkmannligasta. Með sparsemi sinni græddi hann þó aldrei, nè safnaði auðæfum, ennþótt hann síðar fengi álitlig embættislaun [1]); enda kostaði hann stórmiklu til menníngar og uppfræðíngar barna sinna, klæðnaðar þeirra og húsbúnaðar síns yfirhöfuð, er hann leyfði hvörttveggja mætti vera, einsog þá var siðr til. Á fyrstu embættisárum sínum í Kaupmannahöfn keypti hann sèr og grundmúrað hús, minnalagi stórt, hvört hann töluverdt

[1]) Af brèfi til hans, undir 31ta dec. 1773, frá Skatkammer-direksióninni, undirskrifað Guldberg og Stemann, sèst: að laun hans þá, einúngis sem depútèraðs i Rentukammerinu, voru 1800 rd. Sem bókahirðir konúngs fèkk hann 600 rd., eptir kóngsbrèfi 9da apríl 1781, hvört fyrir sig afdráttarlaust.

lèt hækka, umbæta stórum og laga sèr og sínum til hagnaðar, og bjó í því til dauðadags. Með öllum jafnaði fór hann fótgángandi út til sinna embættissýslana, keyrði þó þángað í luktum vagni, þegar misjafnt var veðr. Einsog náttúrufar hans var í fleirstu kyrrlátt, og meir hneigt til að vera enn að sýnast, svo er það ekki að marka, þó lítið væri á lopt haldið örlæti hans í dagligu lífi, við aðra útífrá. Öllum, er tilvissu, mun þó samanbera um það, að hann bæði með ráðleggíngum, aðvörunum, fulltýngi og jafnvel útlátum, hafi hjálpað mörgum sèrilagi löndum sínum, ríkum sem fátækum, er til hans leituðu, og hann sá fóru vel að ráði sínu, til þess er þeir síðan urðu, utan- sem innanlands: yfirhöfuð vildi hann þeim öllum vel, og lagði það til hvörs, sem hentugast þókti og bezt sýndist við eiga, hratt í lið fyrir nokkra, eptir það þeir höfðu embætti fengið, því er annars mundi hafa aflaga borið; *Fleira er styrkr, enn peníngar einir!*

Meðan hann dvaldi við Sóreyar háskóla, innbauð hann, á sama dag ár hvört, mörgum þurfamönnum þar, er hann vissi nauðþreyngða, til máltíðar og stundum optar, samt einum eða tveimr, er þurftugastir voru, jafnaðarligast hvörn laugardag, og er það ei ólíkligt, eptir annari hans reglusemi, að hann

máske hafi framhaldið nokkru slíku, eptir það hann kom til Kaupmannahafnar aptr, þó ekki sè það hèr í frásögu fært. Hinsvegar er víst, að hann eptir komu sína þángað leingi frammeptir innbauð íslenzkum stúdentum, er hann þekkti, einusinni eða tvisvar, á hvörju hausti, til kvöldverðar að mestu leiti af íslenzkum tilfaungum, án nokkurs töluverðs kostnaðar. Að öðruleiti er þess ei getið, að vani hans hafi verið, að gjöra nein stór gestaboð; þáði þó heimboð að öðrum, þegar buðust, og bauð þeim aptr til sín, optarst einum í senn, helzt til kvöldverðar; var hann í hvörju samkvæmi og mannfundum, sökum síns þýða viðmóts, vísinda og staka minnis, yfrið unun arsamr og lærdómsríkr, þægiliga glaðvær og smáskrítinn, kryddaði að jafnaði tal sitt með einhvörri lærðri og skemtandi athugasemd; og var það mjög í orð lagt á þeim tíðum, að þegar hann, að loknum mæðusömum embættisgjörðum, eptir þreytufulla nokkurra klukkustunda setu í einni eða fleirum stjórnarnefndum, í Rentukammerinu og annarstaðar, kom í vinasamkvæmi, eðr að kveldi dags í heimboð þángað, sem hann þá var boðinn, var hann strax svo glaðvær og skemtinn í allri viðræðu og umgengni, einsog hönum ekkert hefði mætt, eðr hann neitt al-

varligt átt við að sýsla þann dag; ekki heldr sást, að á hann tæki eðr hann kviði fyrir, þegar svo ástóð, að yfirgefa samkvæmið á ný, þó þar saman væru komnir jafnaldrar hans, vinir eðr velgjörðamenn, nè gánga þaðan í vandasamar embættisannir, tíðum gagnstæðar þeim hann aðstóð fyrri hluta dags, svo um hann mátti segja með skáldinu:

*non aliter*
*Dimovit obstantes amicos,*
*Qvam si illorum cara negotia*
*Dijudicatâ lite relinqveret,*
*Tendens Venafranos in agros*
*Aut Lacedæmonium Tarentum.*

Uppá ræktarsemi hans við ættmenn sína og venzlamenn, má það til merkis hafa, að þó hann væri af landi farinn, kom hann því samt til leiðar, að bræðr hans allir voru til menta settir, því þó Árni gengi ei í skóla, olli því heilsubrestr hans, að hann gaf frá sèr lærdóm, er hann var þó meir enn byrjaðr með.[1]) Sama var og, eptir það að Érichsen var kominn til æðstu meta, að hann

---

[1]) Samanb. Viðb. nr. 2. Af brèfi til Érichsens frá Brynjúlfi sýslumanni í Hjálmholti, má sjá, að hann lagt hefir með Ólafi bróður sínum, hans 3 fyrstu skólaár, 30 rd. eðr 8 rd. til biskups, en 2 til rektors árliga. En hvörsu hönum hefir umhugað verið um alla eins, má ráða af hans mörgu brèfum til beggja bisk-

skrifaði jafnaðarliga náúngum sínum, er lifðu á Íslandi, og fleirum sem þess vildu neyta, ennþótt lítils væru umkomnir. [2]) Hann var og varla nokkurju sinni þeim önnum kafinn, að hann ekki stundarkorn hvört kvöld, sæti hjá teingðamóður sinni, gamallri og heilsulasinni, er hann tekið hafði í hús sitt, henni til skemtunar, meðan hún lifði, eins þótt vinir hans eða kunníngjar væru undireins hjá hönum að heimboði.

Aðal-sinnisfari hans er vandi að lýsa, svo vel sè: það má með sanni segja, að um allt hvað hönum á einhvörn hátt viðkom, var hönum sèrliga annt; opt var hann áhyggjufullr og kappsamr í ástundun sinni og frammkvæmd, að hvörju sem laut; og

---

upanna, einkum Dr. Finns. Sjá Viðb. nr. 6, bst. A. 1758—66—68—72 og 73—75—76 og 77—79 og B. 1783.

[2]) Sigurðr sá á Hnappavöllum í Öræfum, Magnússon, sem um verðr getið í Viðb. nr. 2, við æfi-ágrip Guðrúnar Eyríksdóttur, bls. 3., og lifði frammum nærstliðin aldamót, safnaði rithöndum allra heldri manna, er hann yfirkomst; þaraðauki lá hann út fyrir að fá *væng* af hvörjum fugli, og völu úr hvörju dýri, er auðið varð, utanlands sem innan; margt af þessu hafði Érichsen sálugi útvegað hönum, og virðti hann yðugliga brèfs með eigin hendi, sem sýnir lítillæti hans og vinveitni, þó lítilmótligr ætti í hlut, þegar gjöra var um það, sem að fróðleik laut.

þótt hann annars væri hinn aðgætnasti og vareygðarsamasti í fleirstu, líka hógvær og hinn lítillátasti hvörsdagliga, hætti hönum þó til, þegar það greip hann, einsog fleirum gáfuog frammkvæmdarmönnum, sem þekkja og finna sitt verð, en hafa í mörgu að standa, að vera nokkuð bráðlyndr og heldr enn ekki vandr að virðíngu sinni; að vægja til, eðr breyta meiníngu sinni, sýnist þessvegna að stundum hafi fallið hönum örðugt [1]); því

---

[1]) Svo er sagt, að hann einusinni, útaf þrætu milli eins fyrrverandi stiptamtmanns hèr í landi og landfógèta Skúla Magnússonar, er afgjörast átti í Rentukammerinu, hafi, vegna þess að forsetinn í kammerinu sýndist draga stiptamtmannsins taum, en vildi að landfógètinn sætti ávitum, orðið svo bráðr, að hann stóð upp, og kvaðst ekki aptr setjast, ef þetta fengi framgáng; samt sinnaði hann sig strax, sagðist skyldi lesa öll skjölin á ný, og breyta meiníngu sinni, *ef hann fyndi nægar röksemdir þartil.* Þetta og þvílíkt mun miðr hafa geðjazt stjórnsömum og jáfnbráðlyndum yfirmanni og þá var, jafnvel þó þessi yfirmaðr, að Érichsen fráföllnum, styddi börn hans margvísliga. Áðrgreinda bráðlyndis tilhneiging kallaði einn djúpsær og lærðr landi okkar, ekki ófimliga: þau íslenzku hissugheit. Svo sýnist, sem nokkur skortr á mjúkleika í ráðslagi og þarhjá harðdrægni í meiníngum, hafi stundum ollað Érichsen óþægiligheita, er að visu mun hafa átt sinn þátt mikinn í hans seinasta veikleika. Þetta er svo að skilja, að Ér. var ekki að öllu nógu liðugr *veralldar-maðr*, í þeim háu sætum, hvari hann var;

hann var hreinlyndr og opinskár, þegar hann meinti sig búinn að útgrunda efnið, en annars þess ámilli dulr; sjaldan merktist að hönum væri mjög þúngt í skapi; hann var hinn vinfastasti, en undireins vinvandr.

Hvörsu heitt Konferenzráð Érichsen hafi elskað sína fóstrjörð, Ísland, og látið sèr annt um uppreisn á hennar sóma, lærdómi og búskapar ásigkomulagi, það verðr ekki í stuttu mâli útskírt: hvör sá sem athugar ennar dönsku stjórnar og ýmissra útlendra mannvina margföldu tilraunir, uppákostnað og gjafir til viðreistar öllu því, er þeinkzt gat landinu nytsamt, allt frá 1770 til nálægra tíma, víst framm undir aldamótin, og þarhjá veit, að flest það hefir annaðhvört gengið gegnum Érichsens hendr, eðr er afleiðíng af hans dugnaði [1]), þeim mun ekki virðast of-

þoldi þessvegna ekki vel, að önnur meiníng gildti enn hans, í því er Íslandi viðkom, hvaraf kveiktist ímugustr, um nógu mikla hlutdeilni hans fyrir þessu landi; og jafnvel að aðrir voru í þessu efni, á þeim seinustu árum, svo að kalla, settir hönum til höfuðs.

[1]) Það er talið sem víst, að Érichsen sjálfr gjört hafi uppkast til allra þeirra tilskipana og kóngsbrèfa, sem útkomu þá tið, hann var viðriðinn Rentukammerið, og áhrærðu Ísland, og þaraðauki öll þau vandasömustu brèf til Íslands embættismanna, bæði frá Kammerinu og Höndlunarstjórninni. Eru og næg

hermt, þótt sagt væri: að Konferenzráð Érichsen, med verkum sínum og eptirdæmi, hafi meiru afkastað, landi þessu til sóma og uppkomu, enn fleirstir landar hans á fornum öldum og nýum; þó sá alvísi, sem ávöxtinn gefr, hafi liðið, að margar góðar ráðstafanir, landinu til heilla, ei hafi samsvarað þeim góða tilgángi. Því mun varla nokkur neita, að hann hafi stundað landsins heiðr og lærdóm öllum fremr á þeirri tíð hann lifði. Hans ráðum og dugnaði er það víst að nokkru, ef ei miklu leiti að þakka, að þá útgeingu á prent flest þau lærðu verk, sem enn eru og jafnan munu verða landinu til sóma. Sem dæmi þaruppá, og án tillits til eiginligra fornfræða, má nefna Íslands víðfrægu kyrkjusögu, hvörrar útgáfu hann studdi margvísliga[1]; Egg. Ólafssonar og B. Pálssonar ferðabók, hvörja hann, ásamt Schjönning, hefir leiðrètt í málfæri og efnisins niðrraðan; Ó. Ólavíi reisubók, hvörja hann prýdt hefir með svo lærðum og efnisdrjúgum formála, að hann kalla má kjarna í þessari bók, öllum ómissandi, er þekkja vilja

líkindi til, að frá fleirum stjórnarráðum, þó ekki væri hann við þau riðinn, hafi samt stundum verið leitað hans atkvæða, í því áreið og Ísland snerti.

[1]) Samanber Viðbætir, nr. 6.

Íslands ástand á þeirri seinustu öld; *Arnesens islandske Rettergang* og *Holbergs geistlige og verdslige Stat*, í hvörjum báðum verkum hann á mikinn þátt, og þann allan ágæta þátt, er snertir Íslands gömlu lög, hvarum áðr lítið eða ekkèrt var á prent útgeingið; Rit þess íslenzka Lærdómslistafèlags, af hvörjum 7 bindi útgeingu, áðr hann viðskildi, og ei enn hafa jafníngja, hvað hið hreina og óþvíngaði málfæri snertir.

Að Érichsen ogsvo hafi legið mjög á hjarta, að uppihalda heiðri og áliti Íslands í öðrum greinum, jafnvel hvað þess stjórnarhag snertir, þaruppá mætti fleiri dæmi telja. Hèr skal einungis það nefna: að hann tók sèr það mikið nærri, að það höndlunar frjálsræði, er landinu var tilætlað, skyldi grundvallast, á kólóníuhöndlunar reglum, og að íslenzkr maðr skyldi þessari meiníngu framfylgja[1]); að sá eldgamli æruverði Skálholts biskupsstóli skyldi kollsteypast, án þess að afleiðíngar í báðum þessum efnum, sem

---

[1]) Hèrum má lesa Érichsens snotra og djúpsæra álit, í hans *Forsøg til at besvare det Spörgsmaal, om den bedste Handelsindretning for Island*, bls. 147. Sbr. Viðb. nr. 6, 1784 og 85; lika Fjeldsteds ritlíng um Íslands frihöndlun, bls. 52, hvari þessi kallar það góðan og politice hyggiligan lærdóm, að Ísland álitist sem kólónia af ríkinu.

hann hèlt, væri vel yfirvegaðar og rèttiliga metnar.

Viðvíkjandi búskaparefnum landsins, þá ætla menn Ísland, hafi eingvum sona sinna einsmikið að þakka og Erichsen; þau láu hönum öllu fremr á hjarta. Þegar hann samanlíkti landsins nálæga ástandi, við það sem í fyrndinni verið hafði, sá hann glöggt að því fór hnignandi; óttaðist hann þá fyrir því, að landið mundi að lyktum leggjast í auðn, einúngis vegna skorts á nauðsynligri forsjá og aðgjörðum í öllu því, er búnað áhrærði; leitaðist hann þessvegna við, að uppgötva og kunnar að gjöra almenníngi orsakirnar til fátæktar þess og eymdarhags; sömuleiðis og, fyrir hvörju fyrst og fremst þyrfti umhyggju að bera, svo að hindra mætti fyrirsjáanligar ófarir; og hvörnin landið sjálft gæti með litlum peníngastyrk, hjálpað sèr, eða að minnsta kosti bætt sitt ástand, og búið sig undir mótitöku frjálsrar kaupverzlunar, og annara nytsamra frammkvæmda. Mundi það líka satt reynast, að því nákvæmar sem fleirstum hans forskriftum væri fylgt, þess staðbetri bótum mundi land vort taka. [1]) Áhyggja

---

[1]) Hvör hans andi var í þessu efni, má meðal annars ráða af merkiligu brèfi hans. Sjá Viðbætir, nr. 6, bst. b. 1783.

fyrir þessu og öðru, sem Íslandi viðkom, varð hönum tíðum svo þúng, að hann — kalla mátti — neytti hvörki svefns nè matar, og hafði nær því eingva ró, einkum væri þá nokkur vandi á ferðum þessu viðvíkjandi, hvörs endalykt hönum, á einhvörn hátt, leizt efasöm. Fèllu hönum þá eitthvört sinn við kunníngja sinn þessháttar orð: „Enginn veit „nè trúir, hvílíkt ángr, ónæði og hugarkvöl, „þau Íslandsefni olla mèr, fremr öðru sem á „mèr liggr! það veit guð! að eg ekkèrt vil „áforma nè gjöra annað enn það, sem kon„únginum og landinu er til gagnsemdar; *þó „liggja landar mínir mèr á hálsi, þegar ekki „er allt sem þeim líkar.*" (Sýndi hann þá nokkur brèf, ėr sönnuðu sögn hans.) „Hèr má „auðveldt tortryggja gjörðir mínar, því hèr „þekkja svo fáir landsins lög, ásigkomulag „og nauðsynjar, eðr hafa þará rètta ráðdeild."

„Mörgu sinni hefi eg verið á fremsta „hlunni, að beiðast af konúngi mínum lausn„ar frá afskiptum Íslands, og öllum þess „umráðum, en get ekki fengið það af mèr! „Eg elska Ísland fölskvalaust, þó eg gángi „vakandi að því, að sú elska styttir mínar „lífsstundir."

Að Érichsen hafi verið einn með mestu gáfumönnum, er land vort getr sèr eignað; að hann að sama leiti hafi verið yðjusamr frá

fyrstu til síðarsta, og megi telja með þeim lærðustu mönnum til nálægs tíma, það má með öllum sanni segja. Hvað hans frábæru gáfur snertir, þá er nokkuð þarum að framan talið, og að öðru leiti staðfestist það af hans frammúrskarandi lærdómi, hvörs hèr á eptir mun minnzt verða. En til marks uppá ástundun hans er þess hèr að geta: að fyrst þegar hann var við Kaupmannahafnar háskóla, bláfátækr og vonarlaus um styrk frá foreldrum sínum, en hafði þó svo gott innhlaup og athvarf hjá vinfeðrum sínum Harbóe biskupi og Luxdorph, sem sagt er að framan, notaði hann sèr það miklu sjaldnar, enn þeir ætluðust til, þókti það tefja lærdómsyðnir sínar um of, og laut heldr að lægra kosti heima í kamersi sínu á Regènzi; var það þá stundum, að hann, ásamt legunaut sínum — til að geta einum af þeim 3: Mag. Hálfdáni Einarssyni, Jóni Árnasyni eðr Magnúsi Ketilssyni sýslumönnum — að aptni dags ei fóru úr fötum, heldr lásu þeir og stúdèruðu nætr sem daga, og lögðu sig að eins um 2 eða 3 stundir í fötunum, ofauá sæng sína. Sama yðni og ástundun fylgði hönum, eptir það hann kom til embætta. Þegar hann fyrst kom inn í Rentukammerið frá Sórey, var hann þar, sem nærri má geta, mörgu lítt kunnugr, varðí hann þá öllum þeim stund-

um, sem hönum afgángs urðu, frá hans nýu embættisönnum, bæði dag og nótt, til að lesa og kynna sèr brèfa og gjörnínga bækr þær allar, er í nokkru snertu hans embættisstöðu, með þeim ákafa, að hann nær því varð sjónlaus [1]); vildi hann ekki vera neinu ókunnugr, nè þurfa annara með til að fræða sig, allrasízt höndla í blindni eða fákænsku, heldr vita ástæðu fyrir öllu því hann gjörði. Það varð þá og mál manna síðar í Kammerinu, að fá mál kæmi þar fyrir, hvað gömul sem væri, eðr aðdragandi þeirra lángr, að ekki vissi hann sögu þeirra, jafnvel í yzta hörgul. Þeim sem til hans þekktu og aðgáng þágu í húsi hans — og það stóð þeim flestum til boða, er lærdóms leituðu, og vanda vildu siðferði sitt — allt framm á hans síðustu ár, ber öllum saman um það, að þeir aldrei hafi

[1]) Á sjóndepru þessari varð ekki bót ráðin, af jafnvel einum frægasta líflæknir (líkast Dr. Berger) og ekki fyrr enn vorinu eptir, af handlæknir Jóni sál. Pètrssyni, þá aptrkomnum úr sinni alzjírsku skiplæknisferð; er sagt Jón þá hafi læknað nafna sinn með litlum kostnaði og fyrirhöfn, hvörs Érichsen optliga þakklátr minntist; og eptir það Jón Pètrsson var til Íslands farinn, en sonr einn Érichsens, að nafni Skúli — heitinn í höfuð vinar hans Skúla landfógèta — andaðist úr bólu- eðr mislinga-sótt, er haft eptir Érichsen: *Jeg hefði ekki mist Skúla minn, hefði Jón Pètrsson verið hèr!*

vitað hann yðjulausan eina stund — að fráteknum matmálstíma — allt í frá 7$^{du}$ stundu um morguninn til 9$^{du}$ um kvöldið, nema þegar einhvör vina hans eðr kunníngja heimsókti hann að aptni dags, eðr hann sjálfr sat hjá sinni gömlu teingðamóður, sem fyrr er áminnzt.[1]) Lengr enn þángað til kl. 9 á kvöldum þorði hann ekki, á seinni árum sínum, að lesa eðr skrifa, sökum heilsu sinnar, hvörrar hann lengi vel nákvæmliga gætti, og með athygli lèt sèr annt um allt það, er lengja mætti lífdagana. Sagt er, að þegar hönum voru heimboð gjörð, hafi hann venjuliga haft það í skilmálum, að hann mætti koma og fara, þegar hann sjálfr vildi, svo hvörki liðu hans embættisverk, nè önnur lærð störf.

Að hann hafi verið með þeim lærðustu mönnum hèr á Norðrlöndum, sýna öll þau lærdómsverk, prentuð og óprentuð, sem eptir hann liggja; ekki einúngis innihalda

---

[1]) Getið er þess líka af gagnkunnugum manni, að Érichsen á fyrstu embættisárum sínum í Kaupmh. hafi gætt þeirrar reglu, nær Íslendíngar voru að heimboði í húsi hans, að uppteikna á lausan miða það minnisverdt um Íslands hag, er hann þóktist af hvörjum þeirra nema, sem og sínar athugasemdir þarvið; hvörttveggja í þeim tilgángi, að hann síðar yfirvegaði og rótfesti þetta betr, ef slík efni skyldu til rannsóknar koma.

þau menjar af inum mest útbreidda lestri, í nær því öllum vísindagreinum, heldr bera þau með sèr, að hann hafði, svo að segja, tekið allt það markverðasta þaraf í minni sitt, og með eptirþánka raðað því þar svo niðr, að allt lá á reiðum höndum, til hvörs sem taka þurfti. Hann er því í ritgjörðum sinum hvervetna, eptir því sem á efninu stendr, lærðr, djúpsær og orðuligr, hvörjir lærdóms eiginligleikar gjörðu hönum það möguligt, að stjórna mörgum og vandasömum embættum, og undireins vera fjölefnaðr ritasmiðr. þessir eiginligleikar komu því til vegar, að hann var settr yfir það *stóra konúngliga bókasafn*, er á þeim tímum var komið í mesta rugl, og hönum trúað fyrir, að setja það í orðu. Um lærdóm hans kemst danskr maðr nokkur enn fremr, svo að orði:

„Sakir þess að Erichsen var maðr víð„lesinn og margreyndr, mátti hann ei tæma í „samtali, hvört hann þó alltíð flutti með „þeirri siðprýði, sem heima á hjá inun vitra; „menn heyrðu þann sama mann tala með „bezta smekk í efnum sem viðkomu heims„speki, túngumálafræði, kaupverzlun, sjó„ferðum, landastjórn, fornaldarfræðum og „vorrar þjóðar ásigkomulagi, á þann hátt, „er sýndi skarpleik og lærdóm. þessvegna „trúði konúngr hönum; landið heiðraði

„hann; fróðir elskuðu hann, og líttreyndir „sóktu hann að ráðum, þá stund hann var „heima, brúkuðu hann til að fræðast af, við „ritsmíði sín, og s. frv." Prófessor Ólavsen, sem var hönum svo handgenginn, kveðr svo að orði: „Hann var maðr djúpvitr í öllum „efnum; ýðnastr allra; kappi í vísindastarfi „hvörju, sem þreyta skyldi; þarhjá fölskva„laus og hinn trúasti og vandlátasti í allri „skyldurækt." [1])

Fullkomnun hans og liðugleik í latínu og grísku máli, má ráða af því, sem að framan er sagt, og hvað hátt hann hafi kominn verið í hinni dönsku mælindiskonst á sinni tíð (þó stýlsmáti hans, nú á dögum, þyki nokkuð lángteygðr og hlaðinn), má marka af því, að Rektor þá, síðan Prófessor, þorkell Baden, var eittsinn aðspurðr af íslenzkum stúdenti (Einari Thorlacius, er prestr varð síðar að Grenjaðarstað), af hvörs ritum bezt mátti læra danska málsnilli; svaraði hann þá: „af Érichsens í Sórey opinberliga höldnu „prentuðu ræðum, hærra mun einginn enn„þá komizt hafa í danskri málsnilli." þessu til staðfestíngar er ogsvo þess að geta, að Érichsen var einn sá þriðji aðalfrumkvöðull

[1]) Fleiri lærðra manna vitnisburði um lærdóm Érichsens, má sjá í Viðb. nr. 5, á ýmsum stöðum.

til, að árið 1756 var stiptað fèlag nokkurt, er leingi útgaf *dæmandi frèttablöð*[1]) yfir danskar ritgjörðir; er þessu fèlagi, í hvörs athöfnum Érichsen átti leingi þátt, ennþá framhaldið og að nokkru leiti eignuð sú hreinsun og umbót, er in danska túnga og ræðustýll fèkk á 6^ta tugi þeirrar 18^du aldar.

Sitt eigið móðurmál ritaði Érichsen, einsog öllum er kunnugt, svo einfaldt, hreint og liðugt, en þó tilgjörðarlaust, að lengi mun mega fyrir munstr hafa. Aðrar norrænar túngur, svosem svensku, engelsku, þýzku og frönsku, m. fl. er víst, að hann hefir sumpart skilið, sumpart þarhjá talað og skrifað.

Val hans til lærimeistara við háskólann í Sóreyu, sýnir hvað hann strax, á öndverðri æfi sinni, var í lögspeki; einsog hitt eingu síðr, að Kófóð Ancher, hvör lengi hefir verið haldinn — ef ekki sá efsti, þá þó — einn af þeim mestu lögvitríngum í Danmörku, kaus Érichsen fyrir sinn meðhjálpara, til opinberra fyrirlestra í lögvísi á háskólanum. Einsog K. Ancher var sannkallaðr grundvallari *(Stator)* ennar dönsku laga-historíu, svo var og Érichsen það af inni norsku og ís-

---

[1]) Eðr svoköllluðu *Lærde Efterretninger*, sjá Viðb. nr. 5, bst. h. og nr. 6, bst. a. 1756.

lenzku. [1]) Prófessor Kongslev, eptirmaðr Érichsens í Sóreyu, fetaði í hans fótspor, og er Kongslevs inngángr til hans prentuðu fyrirlestra í Sóreyu allr bygðr á Érichsens köllegío, einsog Eðvarðs Colbjörnsens óprentuðu fyrirlestrar, yfir þá dönsku lagavísi, að skipulaginu til *(systematice)* voru að nokkruleiti lagaðir eptir Érichsens. [2]) Frá Érichsen er og nær því að öllu leiti kapítulinn í Holbergs *Danmarks og Norges geistlige og verdslige Stat,* sem höndlar um þau dönsku, norsku og íslenzku lög, einsog líka Érichsen stóð fyrir annari útgáfu af þessari nytsömu bók. Að hann eigi mikinn þátt í því ágæta verki:

---

[1]) Fyrirlestrar eða köllegía Érichsens yfir lögvísi, þá hann var Prófessor í Sórey, hafa aldrei prentaðir verið, en dyljast þó hèr og hvar í handritum. Amtmaðr B. Thorsteinson komst eittsinn í Kaupmannahöfn yfir 3 parta þaraf, nefnil. yfir náttúrurèttinn, yfir þá dönsku, norsku og íslenzku lagahistoríu og yfir þann svokallaða persónurètt. Af óaðgætni hefir hjá hönum glatazt sá fyrsti og síðarstnefndi partr, einsog þeir ei heldr innihèldu neitt það er nýtt eða merkiligt þykir í lögvísi nú á tímum, nema náttúrurèttrinn, er var skarpvitrliga og orðuliga útlistaðr. Sá partr, er inniheldr lagahistoríuna, er ennþá til, og er þaraf auðsèð, að Prófessor Kongslev, að öllu leiti hefir studt sig þarvið, einsog á verðr vikið í textanum hèr að ófan.

[2]) Samanber Viðb. nr. 5, bst. a. n. p. og nr. 6, bst. A. 1763.

*Arnesens islandske Rettergang*, ber bókin sjálf með sèr, og er alkunnugt. Þegar Konferenzráð Dr. M. Stephensen, í *Eptirmælum* 18$^{du}$ *aldar*, lætr Eymóður vora, Ísland, telja Erichsen meðal saknaðra sona sinna, við ýmsar lærdómagreinir, svo sem sagna- og búnaðar-fræði, m. fl. kveðr hann þannig að við lögspekina, bls. 709: „*En lángt yfir alla* (tel eg) *minn sísaknaða Konferenzráð Jón Eyríksson!*"

Fyrir þeim er nokkuð þekkja til þeirra, um hans daga á prent útgefnu, *fornrita* frá A. Magnússonar nefndinni og hans eigin smáritlínga í því efni, þarf ekki að lýsa hvör hann var í fornfræðavísindum, og hvört líf hann setti í athafnir tèðrar nefndar, er áðr ávikið; af margra lærðra þarum bornu vitnisburðum, skal nægja að vísa meðal annars til greinar í viðbætirnum úr brèfi eins hins merkasta og í þeim efnum hæfasta dómara á þeirri tíð. [1])

Að telja öll — jafnvel ekki nema prentuð — rit þessa óþreytanliga yðjumanns, mun varla möguligt að svokomnu, þar með sanni mun mega segja, eðr óhult fullyrða, að allt frá 1750 til 1786, hafi færri ritgjörðir, áhrærandi Norðrlanda fornfræði, samt Danmerkr og Norvegs historiska og ekónómiska ásigkom-

[1]) Sjá Viðb. nr. 12.

ulag, útgefnar, færri breytíngar gjörðar verið á Íslands og fleiri danskra skattlanda högum, í hvörjum hann ekki, sem ritsmiðr, hefir átt nokkurn þátt, eðr á einhvörn hátt, frá þeirri lærðu síðu, verið viðriðinn [1]); það er líka með þakklæti viðrkennt af mörgum rithöf-

---

[1]) Fundizt hefir blað, þessu viðvíkjandi, sem Erichsen sjálfr ritað hefir, og sem undireins lýsir frómlundaðri óhlutdrægni (*Beskjedenhed*) hans í vísinda-efnum; það hljóðar svo:

Hvad der i øvrigt fra mig findes indrykket i andres Skrifter, erindrer jeg for Tiden følgende:

*a. Etymologi* af Ordet þjófr eller *Tyv*, i Professor Dons's Disputats *de delicto furti*. §. 7. pag. 8—9.

*b. Underretning om visse Slags Bade i Island*, i Professor Chr. Friis Rotbølls *Theoria Balneorum*, *Hafn.* 1755. *Proœm.* p. 7. Men alt for ufuldstændigt, formedelst Mangel af fornødne Efterretninger paa den Tid.

*c. Oversættelse af nogle Stykker af Völuspá*, *Háfamál og Rúnakapitula*, i Professor Mallets *Edda* (se hans *Avant-propos*, p. 23), dog langt fra af den Betydenhed, som man maaskje kunde slutte af hans Ord paa dette Sted; det strakte sig kun til et og andet enkelt Sted, som han spurgde mig om, da Tiden ikke tillod ham, at lade mig se hans hele Oversættelse; jeg kan altsaa ej videre svare dertil.

*d. Katalog over Biskup Herslebs Bibliothek og Myntsamling*, dog den sidste mest efter hans egen efterladte Plan.

*e.* Efter General Kirke-Inspektions Kollegiets Befaling af 3. December 1761, og siden efter Forfatterens egen haver jeg gjennemgaaet Biskop Finner Johnsens *Hist. eccless. isl.* (3 første Tomer) skrevet efter sam-

undum, en til munu máske ogsvo þeir vera, sem á síðara hluta æfi hans höfðu eins mikla orsök þartil, en gleymdu þó að minnast hans með verðskulduðu þakklæti í verkum sínum.

Konferenzráðs Erichsens ritgjörðir, á prent útgengnar, eru, sem menn nú tilvita, þessar inar helztu: [1])

*Tentamen historico-philol.-antiqv. nomina propria Vett. Septentrionalium illustrans, Hafniæ* 1753. 8. Samanb. Viðb. nr. 5, bst. k.

*Disqvisitiones duæ historico-antiqv. de Vett. Borealium Peregrinationibus et Philippia, Lipsiæ* 1755. 8.

---

me höjlovlige Collegii Foranstaltning, og antegnet til hvert Sted, hvad jeg endda syntes at behøve Forbedring. (Sbr. Viðb. nr. 6, 1763, og framvegis.)

*f.* Det jeg haver kontribueret til Konferensraad Suhms Verk *Om Odin og den nordiske Gudelære*, er alt for ubetydeligt, til at fortjene enten den Brug, som han har gjort deraf, eller den Pris, som hans Godhed haver sat derpaa. (Sbr. Viðb. nr. 5, bst. k.)

*g.* Det jeg haver haft at bestille paa Videnskabernes Selskabs Vegne, med Olavsens og Povelsens *islandske Rejse*, er tildels forklaret i Fortalen til samme. Det bestod mest i at rette den danske Stil, igjennem det hele Verk, dog i den første halve Del med nogen Hjælp af Professor Schjönning. (Sbr. Viðb. nr. 6, bst. A. 1773.)

Þetta blað er ekki leingra. Fleira þesslags finnst í Viðb. nr. 5, bst. a. c. g. h. i. k. l. n. o. p. q. r.

[1]) Sbr. *Nyerups og Krafts Forfatter-Lexicon*, bls. 153.

*Specimen juridico-antiqv. de Expositione infantum, ejusqve apud priscos Boreales causis;* prentað aptan við Gunnlaugs Ormstúngusögu.

*Frásögn um jarðskjálftann og eldgosið* 1755 *í Íslandi* (úr Kötlu), innfært á dönsku í Kmh. vísindafèlagsrita 7[da] bindi, eptir frèttum frá Eggèrti Ólafssyni og Bjarna Pálssyni, er þá tíð ferðuðust um Ísland fyrir nefndt fèlag.

*Tale paa Kong Frederik den femtes Fødselsdag, Sorø* 1760. 4.

*Formáli, athuganir, viðbætir og registr* yfir sýslumanns Jóns Árnasonar *Indledning til den islandske Rettergang, sst.* 1762. 4. (Samanb. Viðb. nr. 5, bst. l. n.)

*Forbedringer til tredie Udgave af Baron Holbergs Dannemarks og Norges itzige Stat,* að svo miklu leiti, sem Ísland snertir og þau gömlu dönsku og norku lög, *sst.* 1762. 4.

*Tale paa Sorø Akademies Stiftelsesdag, sst.* 1762. 4.

*Dansk Oversættelse, var. lectiones, Anmærkninger, Register og Forberedelse til Konge-Spejlet, sst.* 1768. 4. (Samanb. Viðb. nr. 6, A. 1768 og B. 1767-69.)

*Udtog af Poul Vidalins Afhandling om Islands Opkomst,* kallað: *Deo, Regi et Pa-*

*triæ, sst.* 1769. 8. (Samanb. Viðb. nr. 5, bst. n. og nr. 6, B. 1769-70.)

*Tale paa Kong Kristjan den 7des Fødselsdag, sst.* 1769. 4.

*Observationum, ad antiqvit. Septentr. pertinentium, specimen de Somniis et Geniis, ib.* 1769. 8.

*Annotatio de Berserkis* (prentuð aptan við Kristnisögu), *Hafn.* 1773. 8.

*Saga af Gunnlaugi Ormstúngu*, ísl. og lat. *Hafn.* 1775. 4. (Sjálfr skrifar Érichsen svo: „alt, undtagen den islandske Text, nemlig: Versionen, Noterne, Afhandlingerne bagved, den om *Expos. infantum* „forbedret, samt *Genealogiæ*, paa den sid„ste nær, *Index rerum*, og de fleste *Voces* „*poeticæ* i *Indice vocum*[1]) ere mit Arbej„de; hvorhen og kan regnes: *Epistola* „*ad Finnum Johannæum, de Chronologia* „*Gunnlaugs-Sagæ, Hafn.* 1778. 4.

*Alphabetum hebraicum s. de pronunciatione lingvæ hebraicæ, versib. island. Hafn.* 1775. Af presti Sìra Gunnl. Snorrasyni hefir Ér. lagað og útgefið.[2])

---

[1]) Þarí átti biskup Dr. Hannes Finnsson mestan hlut, *sub auspiciis ericianis.*

[2]) Sbr. *Nyerups Forfatter-Lexicon*, 2. d. bls. 564.

*De historia et fatis Seriei Torfæanæ*, prentuð í formálanum við *Torfæana*, hjá Kammerherra Sûhm. 1777. [1])

*Kammersekr. O. Olavii Rejse over Islands nordvestlige, nordlige og nordostlige Dele. Kjøbh.* 1780. 4. Fyrirutan það sem Ér. lagfærði stýlsmáta, í allri þessari bók, er hann aðalhöfundr til hennar snotra og fróðliga formála, og flestra athugasemda.

Í *Ritum ens ísl. Lærdómslistafélags* á hann:

*Um saltgjörð af sjó*, 1. bindi.
*Um hvala-veiði*, sst.
*Um marsvína-rekstr*, 2. bindi.
*Um veiði og verkun á laxi og síld*, 3. bdi.[2])
*Um að fá druknaða og helfrosna til lífs á ný*, í 6. bdi. [3])

---

[1]) Þar finnst í mikill hluti af æfisögu Þormóðar Torfasonar, sem Érichsen hafði samantekið á dönsku, og síðar er útkomið í *Minervu*.

[2]) Af privatbréfum, sem farið hafa milli Érichsen og Gûldbergs, hvör þá var direktör fyrir Grænlands, Íslands, Finnmerkr og Færeya höndlun og fiskifángi, sèst berliga, hvörjir aldavinir þeir höfðingjar hafa verið, líka má þaraf ráða: að um þær mundir gekk mikið á um síldarveiði í Íslandshafi, og verzlun á henni til St. Crux eyar í Vestindíum. Sjá Viðb. nr. 13.

[3]) Hèraðauki eru frá hans hendi þeir dönsku formálar framanvið þessara rita 6 fyrstu bindi; líka listarnir yfir konúnglig verðlaun frá Rentukammerinu, í 2.

*Forberedelse til at besvare Landhusholdnings-Selskabets Spörgsmaal: Hvilken er den bedste Handelsindretning for Island? Kjøbh.* 1783. 8.[1])

*Vita Sæmundi Multiscii*, af Prófessor Árna Magnússyni, með athugasemdum og lagfæríngum, prentað framanvið Sæmundar-Eddu, sem Fornfræðanefnd A. Magnúss. hefir utgefið.

*Kort Underretning om de Jordrystelser og Ildsprudning*, som anrettede Ødelæggelsen i Island 1783. [2])

---

4. 5. 6. og 7. bindi. Listi yfir *Landhush. Selskabets* Verðlaun í 5ta bindi fyrir 1784 og 85 og sum af ritefnunum, helzt í 4da bindi.

[1]) Um augnamið sitt með þetta rit, ásamt með fám orðum, um Fjeldstæds bókmála um sama efni, talar Érichsen nokkuð í brèfum til biskups Dr. Finnsens. Sjá Viðb. nr. 6, bst. B. 1784 og 85, samt nr. 6, bst. n.

[2]) Rit þetta var að boði konúngs lesið á prèdikunarstólunum í Kaupmannahafnar kyrkjum, sunnudag milli áttadags og þrettánda 1784, til uppörfunar þess gjafasafns, sem allranáðugast leyft var, til hjálpar Íslandi, eptir jarðeldinn árinu fyrir; svo Érichsen má, að því leiti, eins vel telja frumkvöðul til nefnds stórgjafasafns, sem Jústizráð Pontoppidan. Það má líka ráða af 4 brèfum, sem fundizt hafa til Ér. frá Jústizráði Christiani í Kiel, 2 á þýzku og 2 á látínu, að þessi lærði maðr hefir á þýzku utgefið, eðr ætlað að útgefa á sinn kostnað, útdrátt af áðrtèðu Érs. riti, til hjálpar þeim, er mest liðu við tèðan eld, þó þessa finnist ekki síðar á prenti getið.

*En stor og god Handling i vore Tider*, innfært í Mínervu fyrir októher mánuð 1786. [1])

*Observationes et Emendationes ulteriores in Gunnlaugi Vermilingvis et Hrafnis poëtæ vitam, ex eruditorum in Islandia amicorum epistolis collectæ et latine versæ, Hafn.* 1786. 4. er að álíta sem viðbætir til brèfs hans *De Chronologia Gunnlaugssagæ*.

*Udsigt over den gamle Manuskriptsamling i det store kongel. Bibliotek. Kbh.* 1786. 8.

*Udtog af Chr. Lunds Indberetning til Kong Frederik den* 3die, angaaende de i Aarene 1652 og 53 foranstaltede Sotoge til Grönlands Østerbygd, oplyst ved Anmærkninger og Dokumenter. Kbh. 1787. 8. [2])

*Thormod Torfesons Biografi med Efterretning om hans Skrifter*, innfært í Mínervu fyrir nóvbr. og decbr. 1786, og janr., febr. og marzí 1787; nær þángaðtil þormóðr gjörðist konúngligr sagnaskrifari

[1]) Þessi letrgjörð er í raun rèttri að álíta, sem reikníng yfir það gjafasafn, sem andligrar stèttar menn í Danmörku og í Norvegi, fyrir meðalgaungu hans, lögðu til uppheldis prestum í Hólastipti, og hönum var til útbýtingar á hendr falið.

[2]) Leiðángr þetta gjörðist, undir forsjá þáverandi reutumeistara Møllers.

fyrir Norveg.[1]) Eptir Érichsen látinn, hefir Prófessor og Riddari R. Nýerûp, úr hins eptirlátnu pappírum, aukið þetta rit og Kammerherra Sûhm ritað inngáng þartil, útgefið sèr á parti Kaupmannahöfn. 1788. 8. (Sbr. Viðb. nr. 6, A. 1763.)

*Jóns Loptssonar Enkómíast*, eðr *Lukkuóskarkvæði til hans frá ónefndum höfundi*; sem inniheldr registr og tímatal inna norsku kónga, frá Haraldi hárfagra til Sverris kóngs, með danskri útleggíngu og athugasemdum; samt brèfum þormóðar til ýmsra lærðra manna, einkum Árna Magnússonar, viðvíkjandi *heidinöld* norðmanna, og fleiri Norðrlanda tímatali, einkum frá Haraldi hárfagra til dauða Ólafs helga, allt snúið af íslenzku og að nokkru leiti í ágrip fært, Kaupmh. 1787.

*Brèf 2 til Luxdorphs*, sem prentuð finnast í *Luxdorphiana*, bls. 459-72, hvarí þeim íslenzku sögum er raðað í vissa flokka, eptir þeirra innihaldi og fleiri eiginlegleikum.

*Brèf 1 til Sûhm*, prentað í hans *Levnet*, bls. 333-37, viðvíkjandi *Odins Gudelære*.

---

[1]) Fyrir ritgjörð þessa þökkuðu þeir lærðu útgefarar Minervu Konferenzráði Érichsen með lof-brèfi undir 6ta nóvember 1786, sem lesa má í Viðb. nr. 14.

*Athugasemdir* við skrifdóminn *(recensiónina)* yfir Ólavíí og Horrebows rit um Ísland, í *Nachr. von dem Zustand der Wissensch.* 1. *St.* og 4. *St. p.* 354-60.

*Skírsla um jarðyrkju Íslendínga* á fyrri öldum, hvaraf ágrip nokkuð finnst í Próf. Mallets *Merc. dan.* 1754, bls. 313-15.

*Ritdómar* eða *Recensiónir* ýmsra bóka, innfærðir í þau, á bls. 83, hèr að framan nefndu frèttablöð, og í Berlíngs lærðu frèttablöð, þau 12 ár, hann var í Sórey, og mun ritdómr hans í tèðum blöðum, yfir Eggers *Schilderung von Island* 1786, vera ein með, ef ekki hans síðasti.

Óprentað eptir hann er til:

*Þánkar um Austrbygð Grænlands, eðr hennar fund á ný og uppsiglíngu.* Fróðligt rit og verðugt höfundi sínum. (Útdrátt þaraf sjá Viðb. nr. 15.)

*Um landamerki Lappmerkr og þrætu þarum milli Dana og Rússa* 1772.

*Athugasemdir við Stiptamtmanns Fjeldstæds þánka um Færeyar.* (Útdrátt þaraf sjá Viðb. nr. 16.)

Registrsins yfir þessa lærða og fræga manns bókasafn er getið í Berlíngs lærðu tíðindum fyrir árið 1787, hvar þeim, er grenslast vilja eptir föðurlandsins sagnaritum, finnst vísað til bóka þeirra, í nefndu

registri, hvarí, með þessa yðna eiganda eigin hendi, innritaðar sjást margar hans athugasemdir; sömuleiðis á ýmislig mikilvæg útlenzk handrit, viðvíkjandi föðurlandsins sögusmíðum og ásigkomulagi. Og eru fleirstar þær bækr síðan keyptar handa konúngsins stóra biblíóteki, hvar þær notaðar verða af öllum þeim það girnast og til ná.

Söknuð sinn eptir þennan merka mann og stiptara sinn, lèt hið konúngliga íslenzka Lærdómslistafèlag, framanvið ritgjörðir sínar fyrir árið 1786, í ljósi, með eptirfylgjandi snotru vísu, frumkveðinni af Danmerkr ódauðliga blíðskáldi Thaarûp:

„*Du* var Skaber af *Din* egen Hæder,
„vise Olding! ejegode Mand!
„og den kæreste blandt *Dine* Glæder
„var *Dit* Arbejd' for *Dit* Fødeland.
„*Island,* nöjsom Friheds gamle Sæde!
„nævn en Klippe med *hans* ædle Navn!
„Dine Døtre dèr *hans* Tab begræde,
„Dine Sönner tænke dèr *hans* Savn!"

En á íslenzka túngu er hún þannig útlögð af þáverandi fornfræða-dýrkara, en nú sálaða sýslumanni J. Jóhnsoníus:

„*Þú* varst höfundr *þinnar* eigin sæmdar,
„afbragðsvitri öldúngur! aðalgóði mæríngur!
„*Þèr* var kærust *þinna* forlystínga,
„*Þín* umönnun þeigi spörð, *þinni* fyrir fóstrjörð.

„*Ísland!* frelsis ununar forna setr!
„skírðu göfgu heiti *hans*, hábjarg eitthvört marmarans.
„Þínar dætr Þar *hans* missir sýti!
„minnist niðjar Þínir Þar, *Þessa landa* saknaðar!"

Undir sinnar og Konferenzráðs sál. Érichsens elskuðu fóstrjarðar, eðr sona hennar, nafni, teiknaði, um Þær mundir fráverandi, lèt eyrgrafa og útgaf, Prófessor Ólavsen, snotrt *minníngar-málverk yfir Érichsen;* hefir málverk Þetta nokkra líkíng sem af æruporti, bygðu af ljósgráum marmara eðr sandsteini, stendr Það á mátuliga háum grundvelli af sama steini; framanvið æruportið standa á grundvellinum tvær uppaðdregnar styttur af hvítum marmarasteini, sem ná uppundir karnísinn, eðr himininn efst á æruportinu, sín á hvörja hlið, og bilkorn á milli. Niðr við fótstykkið á hægri styttunni er málað *Íslands vopn,* krýndr Þorskr flattr, og Þaryfir á miðri styttunni Þessi látínu orð; *Fuit. Johannes. Erichsen. Professor. Juris. et in Publico. Regnorum. Ærario. Qvatuorvir. Cætera. Natus. Ao. MDCCXXVIII. Die.* 31. *Aug. Denatus. Ao. MDCCLXXXVII. Die.* 29. *Martii.* Þ. e. Jón Érichsen var Prófessor í lögvísi og einn af 4 yfirstjórnendum í Rentukammerinu. Annars fæddr

1728, þ. 31. ágúst, andaðr 1787, þ. 29. marzí. Utanvið fótstykkið sitr jarðyrkjugyðjan *Ceres* með kornvöndul sinn, sorgandi, og styðr hönd undir kinn. Á vinstri styttunni niðrvið fótstykkið er máluð hugmynd skarpleiksins, og þar uppi yfir þessi orð: *Nascentem. Íslandia. Adolescentem. Norvegia. Adultum. et. Florentem. Dania. Suscepit. Fovit. Amavit. Exstinctum. Congemuerunt. Omnes. Eheu! Qvantam. Vim. et Aciem. Ingenii. in. Rebus. Gerendis. Dexteritatem. atqve. Fidem. in. Regem. Pietatem. in. Patriam. Hora. Lugubris. Præripuit.* — þ. e. „Ísland tók við hönum nýfæddum; Norvegr unni hönum stálpuðum; Danmörk elskaði hann fullorðinn og til metorða kominn, en samsyrgja hann látinn! ó! hverjar fyrirtaks gáfur — hvörn trúleik móti kóngi — rækt til föðurlandsins og lagkænsku í allri framkvæmd burtuhreif hèr ein sorgarstund!" Utanvið fótstykki þessarar styttu sitr vísdómsgyðjan *Minerva* með sitt gorgonshöfuð, eins hnuggin og hin. Milli marmarastyttnanna stendr ker það, eðr öskukrús(*Urna*) með loki yfir, sem fornaldarmenn, á brunaöld, geymdu sinna framliðinna ösku í, með kransi hjálögðum á lokið. Uppi yfir þessu keri, er sem kringlótt op, og dimmt innan fyrir, sèst þar, í lausu lopti, andlits- og brjóstmynd Erichsens sál. einsog albjört. Uppyfir

henni, á karnísi æruportsins, standa þessi orð: *Cineribus. Ericianis. Sacrum*, þ. e. "helgað moldum Erichsens." Framaná grundvelli portsins sýnist lítil hvelfíng opnast niðr til dimmrar undirjarðarkompu, og brennr þar ljós í hánganda lampa, midt yfir inngánginum. Neðanundir málverkinu standa þessi klassisku látínuvers, kveðin af Rektor ok Jústizráði Skúla sál. Thorlacíus:

*Gratia, forma, genus, tituli, nummata potestas,*
*Formidant leges, mors inamata, tuas.*
*Cætera dum fugiunt, virtus post fata perennat*
*Non perit ille, boni qvem periisse dolent.*
*Donec honor meritis, dum laus virtute paratur,*
*Ericii nomen Fama loqvetur anus.*

Þannig útlagt af Íslands lipra og gáfumikla skáldi, herra Landsyfirrèttarassessor B. Thórarensen:

Vinsældir, fegurðin, frændafla her
frægðin og veldið af auði,
og nafnbóta glansinn í felurnar fer,
þá ferligr nálægist dauði.
En komið á flótta þá allt þetta er,
ein varir manndygð og lifir;
Deyr-at hinn látni, ef dapurleik sèr
á dygðugum leiði hans yfir.

Meðan at ráðvendni lof einhvör lèr,
og lýða gagn nokkurs er metið,
Heitið Jón Eyríksson hvör öðrum tèr,
þá heyra menn mæringa getið.

Auk þess upptalda, eru til 4 steinletr eðr grafskriftir, af lærðustu og merkustu mönnum þeirra tíða, yfir Konferenzráð Érichsen. Sú fyrsta grafskrift er samin af Kammerherra Súhm, sú önnur af Jústizráði Sk. Thorlacíus, sú þriðja af Geheimeráði Luxdorph, og sú fjórða af Prófessor og Vasaorðuriddara Ól. Ólavsen [1]).

Loksins er þess hèr að minnast, að sá nafnfrægi bílætasmiðr, Riddari Bertel Thorvaldsen, hefir mótað (módellerað) brjóstbílæti af Konferenzráði Érichsen, en óvíst er, nær þetta er skeð. Bílæti þetta er gjört af gyps eðr krítjarðartegund, er Érichsen sjálfr hafði látið koma frá Íslandi í þeim tilgángi, að útbreiða brúkun hennar, í staðinn fyrir þesskonar jörð, er Danskir kaupa frá útlöndum. Bílæti þetta var aðdánliga falligt, í fullri stærð og að nokkruleiti með rómverskri yfirhöfn *(Costume)*; hvað andlitið snertir yfrið líkt því hèr að ofan nefnda andlitsmálverki, og að þeirra

[1]) Þessi grafletr er að lesa í Viðb. nr. 17, bst. a. b. c. d. og finnast prentuð í *Lærde Efterretninger* fyrir 1787, bls. 96, 112 og 272.

manna sögn, er sèð hafa Érichsen, hans lifandi eptirmynd. Herra Etazráð, Leyndarskjalavörðr og Riddari G. Thorkelín, prýddi leingi þarmeð, einsog með öðrum fágætum kunstarverkum, sitt ágæta bókasafn, þángaðtil hann árið 1825 skeinkti það Amtmanni B. Thorsteinsson, sem eitt annars margfaldliga ítrekað merki uppá sína velvild og vináttu. En á ferðinni híngað til lands vildi sú óheppni til, að sú kista, hvarí bílætið var niðrlagt, hafði, annaðhvört af ógætiligri meðferð, eða af skipsins hræríngu, liðið svo stóran skaða, að það, nær hún var opnuð, fannst brotið, og ei annað algjörliga heilt, en sjálf andlitismyndin, hvörja egandinn geymir í skylduga þakklætis endurminníng, bæði við þann er gaf, sem og við þann sjaldgæfa höfðíngja, hvörs æfisaga hèrmeð endast.

---

# VIÐBÆTIR.

## Nr. 1.

*Ættartal Eyriks og Steinunnar, foreldra Konferenzráðs Jóns Eyrikssonar.*

Faðir Eyríks bónda á Skálafelli í Hornafirði var Jón bóndi á Skálafelli Jónsson, Sigmundssonar á Hnappavöllum í Öræfum, Jónssonar. Móðir Eyríks og kona Jóns bónda á Skálafelli, var Anna, dóttir Jóns Þórarinssonar frá Heinabergi og Guðrúnar Eyríksdóttur, ogsvo frá Heinabergi, Eyúlfssonar. Móðir þessarar Guðrúnar og kona Eyríks á Heinabergi var Astríðr, dóttir Orms prófasts og prests á Kálfatjörn, Egilssonar. En móður Jóns á Skálafelli og konu Jóns Sigmundarsonar á Hnappavöllum finnst ekki getið. Móðir Jóns og kona Sigmundar á Hnappavöllum, var Guðlaug [1]) Bjarnadóttir frá Múla (eystra), Guðbrandssonar. Er sá Guðbrandr talinn hjágetinn sonr Halldórs [2]), með Guðrúnu, er kölluð

[1]) Hún var systir Guðrúnar, kvinnu Guðmundar prests Lárenzíussonar að Stafafelli í Lóni.

[2]) Halldór þessi hèlt Skaptafells sýslu, og Þykkvabæar klaustr, næst eptir ábótana, nær því í 20 ár.

var Sól, Skúlasonar [1]) Guðmundssonar austr á Síðu, Sigvaldasonar lángalífs. [2])

[1]) Sumir segja at Skúli þessi hafi átt Þórunni, dóttur Marteins biskups Einarssonar prests á Staðastað, Snorrasonar. Skúli Guðmundarson og Gissur Einarsson, fyrsti evangeliski biskup í Skálholti, voru bræðrasynir.

[2]) Sigvaldi var auknefndr *Lángalíf*, því hann var manna lengstr, vantaði 1 kvartil á fjórðu alin að hæð; hefir hann þá — segir Sira Vigfús Jónsson — verið $3\frac{5}{7}$ ál. vorrar álnar, þar sú gamla alin var sjöundaparti styttri. Hann er nafnfrægari af niðjum sínum og eptirkomendum, heldr enn faðerni og forfeðrum, því þeirra er að litlu getið, jafnvel af þeim fróðustu mönnum í hans ætt: Sira Böðvari Jónssyni í Reykholti og Jóni Gissurarsyni á Núpi í Dýrafirði, hvörir ekki greina faðerni hans, en svegja samt að því, það skyldt hafi átt við hústrú Ólufu Loptsdóttur, og hjá henni uppalizt. Svo segir Jón prófastr Halldórsson, að í rotnum blöðum, er hönum í hendr bárust að hendíngu, og hann meinar skrifuð í tið Odds biskups Einarssonar í Skálholti, hafi ritað staðið: að þá Loptr hinn ríki Guttormsson, faðir hústrúr Ólufar, sem optarst sat á Möðruvöllum í Eyafirði, en þó til skiptis á stórbúum sínum, var eðr sat á Skarði á Skarðsströnd, kom þángað eitt sinn með föður sínum og var þar nætrgestr, piltr nokkur úngr er Illhugi hèt, auknefndr síðan *hinn svarti;* þessi Illhugi gaf sig í prikaleik við annann dreing á gólfinu, hvarum Loptr inn ríki í sama svip reikaði, vildi þá svo slisaliga til fyrir Illhuga, að prik hans óvörum kom á fót Lopti, svo hönum varð mjög dátt í á eptir, settist niðr og sagði: „Þú slær ógætiliga, piltr! það er ennþá ekki „úti fyrir þèr, þú munt gera mèr meira til, áðr enn

Faðir Steinunnar, konu Eyríks bónda á Skálafelli, var Jón Vigfússon, ríkr bóndi að Hofi í Öræfum; en kona Jóns Vigfússonar og móðir

„þú deyr!" Faðir Illhuga bað auðmjúkliga og forþýddi fyrir son sinn, afsakaði vilja hans og ásetning í því falli, en Loptr hafði sömu orð um, þó datt þetta niðr í það sinn. Illhugi þroskaðist, varð sá maðr fyrir sèr, að hann komst í þènustu Lopts ríka, og í þá kunnugleika við dóttur hans Ólufu, þá á æskuskeiði, að hún átti fyrst stúlkubarn, er nefndt var Ástriðr, þó mátti hún aldrei kalla Ólufu móður sína, hvað Óluf ekki lèzt liðið geta; lèt hún hana frá sèr, og giptist Ástriðr á Vestfjörðum. Má hèraf ráða, að ekki hafi allar ríkisstúlkur í þá daga, heldr enn nú, verið svo fyrirtaks vandar að virðíngu júngfrúdóms síns, nè reiknað sèr stórt niðrdrep, þó fallerast lètu; ætt þeirra ok ríkdómr þvoðu af þann flekk. Aptr átti Óluf son við Illhuga, sem hèt *Sigvaldi;* vildi hún þó ekki kannast við, að hann væri hennar sonr, heldr kendi hann þjónustumey sinni, samt óx hann þar upp hjá henni, með sveinum hennar. Einhvörju sinni bar svo til seinna, að Óluf gekk til skripta, þegar hún gekk inní kórinn til prestsins, lagði hún, eptir siðvenju, af sèr skart sitt ok kvennsilfr á kistu eða bekk framm í kyrkjunni; var Illhugi með öörum sveinum hennar þar nærstaddr, og skoðuðu skartið og kvennsilfrið til gamans sèr, er þá sagt Illhuga hafi ófyrirsynju sloppið: „Piltar! ætli þið ekki hann sè mikilsháttar, sem „á fyrir fylgikonu hana þá þarna?" en þetta fór lengra enn hann varði, svo Illhugi rèði af að forða sèr, og flúði á braut. Sveinar Ólufar og máske öfundarmenn Illhuga spurðu, hvört ekki skyldi veita hönum eptirför? en hún kvað það lítilmannligt, að elta einn einstæðingsmann, og varð eigi af eptirför-

Steinunnar[1]) var Þórdís, dóttir Jóns siglíngamanns Jónssonar[2]) á Bæ í Lóni. Var sá Jón

inni. Sigvaldi, sonr Illhuga, þroskaðist meðal sveina hennar, var hraustmenni, frammkvæmdarmikill í viðlögum, húsasmiðr kostuligr, og lèt sèr ekki allt fyrir brjósti brenna, svo síðarmeir tók hann eina, ekki þá síðstu, af þènustupíkum Ólufar, og jafnvel náskylda manni hennar, Birni Þorleifssyni, og hljóp með hana austr á land, og þó Óluf væri aðspurð, eðr áfýst, að láta grípa hann, en ná aptr stúlkunni, hvað henni var nærsta auðveldt, þá hún um það mund hafði vald og magt yfir öllu landinu, gaf hún sig samt ekki að því, og svaraði, hún þekkti hann vel, hann hefði spyrnt sèr fyrri. Hèldu sumir henni hefði ei óvart komið burtuhvarf Sigvalda, og hún jafnvel hefði gipt hönum stúlkuna, en vísað hönum frá sèr austr á Síðu, hvar hann síðan staðnæmdist. Er þessi grein þeim til fróðleiks, sem ekki lesa Árbækr ens fróða Espólíns.

Sigvaldi kallaðr *Lángalíf*, $3\frac{3}{4}$ ál. hár, var vestanað úr Dýrafirði, hefir smíðað kyrkju í Vatnsfirði, var hún með spónþaki, og er sagt mynd hans hafi verið á dyrastaf, og náð hærstu mönnum undir höku. Sigvaldi skamtaði sèr sjálfum smíðalaun, strauk burt frá Ólufu í Austfirði með Þuríði, dóttur Einars júnkæra Þorleifssonar. Dr. H. F. sbr. F. J. *Hist. eccl. Island. Tom.* 3, bls. 244.

[1]) Bróðir Steinunnar var Vigfús prestr Jónsson að Stöð í Stöðvarfirði, lærðr maðr og listaskáld, eins á látsem ísl. túngu; sýna það hans snotru *Barnaljóð*, prentuð í Kaupmannahöfn, að forlagi Jóns Konferenzráðs, og eins látínuvers til frænda hans, Jóns prests Gissurssonar að Hálsi við Hamarsfjörð.

[2]) Aðrir nefna Jón, föður Þórdísar, Árnason, Gunnarssonar, að norðan.

Jónsson kallaðr engèlski, því hann var í siglíngum, og hafði dvalið 10 ár í Englandi.

Kona Vigfúsar, móðir Jóns á Hofi, var Vilborg Þorsteinsdóttir, Jónssonar prófasts Hakasonar að Kálfafelli á Síðu, og Kristínar Snjólfsdóttur, nafnfrægs bónda.

Kona Jóns siglíngamanns og móðir Þórdísar, hèt Arndís, dóttir Gísla á Bæ í Lóni, Bjarnasonar prests að Þíngmúla [1]), Gissurssonar ogsvo prests að Þíngmúla [2]), Gíslasonar prests að Söndum í Dýrafirði, Örnólfssonar.

Kona Bjarna prests Gissurarsonar í Þíngmúla, var Ingibjörg, dóttir Arna prests að Stöð, síðan að Vallanesi, og andaðist 1635. Hann var sonr Þorvarðar prests að Vallanesi og prófasts í Múlaþíngi, Magnússonar.

Kona Gissurar prests Gíslasonar, en móðir Síra Bjarna, var Guðrún, dóttir Síra Einars í Eydölum, Sigurðssonar, og hans seinni kvinnu Olufar Þórarinsdóttur, Gíslasonar. Var þessi Guðrún hálfsystir Odds biskups í Skálholti Einarssonar.

Seinni kona [3]) Arna prests Þorvarðarsonar,

[1]) Hann var liðugt skáld; tók við kallinu eptir föður sinn 1648; dó nær níræðr og emeritus ár 1712.

[2]) Síra Gissur hèlt fyrst nokkur ár Stöð í Stöðvarfirði, var síðan 10 ár kapellán hjá Síra Einari Sigurðarsyni í Heydölum, áðr hann fèkk dóttur hans, og 4 eða 5 ár giptr, en alls 14 eða 15 ár; hann tók við Þíngmúla ár 1615, deyði 1647. Síra Gísli, faðir Gissurar prests, hèlt Sandakall hèrumbil 1593.

[3]) Fyrri kona hans var Margrèt Einarsdóttir frá Heydölum, hún dó af barnsförum.

móðir Ingibjargar, var Gróa, dóttir Sìra Halls á Kyrkjubæ Högnasonar.

Kona Þorvarðar prófasts Magnússonar, móðir Sìra Arna, var Ingibjörg, dóttir Arna[1]) Brandssonar prests að Hofi í Vopnafirði[2]), Rafnssonar lögmanns ins fyrra, Fljóta-Brandssonar á Barði, Halldórssonar.

Kona Arna Brandssonar, móðir Ingibjargar, var Ulfheiðr, dóttir Þorsteins í Reykjahlíð[3]) Finnbogasonar Maríulausa, lögmanns norðan og vestan, Jónssonar prests á Grenjaðarstað, Pálssonar, Þorvaldssonar.

Kona Rafns lögmanns eldra eðr fyrra og móðir Brands príórs, var Margrèt, dóttir Eyúlfs Riddara Arnfinnssonar, Þorsteinssonar lögmanns og hirðstjóra, Eyúlfssonar[4]).

Kona Fljóta-Brands og móðir Rafns lögmanns eldra var Ragna, dóttir Rafns, lögmanns norðan og vestan, á Skriðu í Reykjadal[5]) Guð-

---

[1]) Árni var bróðir Rafns lögmanns ins síðara, sem veginn var 1529. Rafn lögmaðr enn fyrri dó 1484 eða fyrri; báðir voru þeir lögmenn norðan og vestan.

[2]) Hann var þar fyrst prestr við 46 ár fyrir Siðaskiptin, eptir það seinasti príór á Skriðuklaustri fyrir austan, og lifði 1552.

[3]) Þorsteinn var í Oddeyrardómi, ár 1551.

[4]) Eyólfr riddari hafði fálka í merki sínu. Arnfinns föður hans er getið í brèfum, ár 1388 og 1410. Hann kallar sig Noregs konúnga hirðmann í eiði Íslendinga ár 1419.

[5]) Þessi Rafn lögmaðr átti deilur útaf vogreki við Jón Hólabiskup Vilhjálmsson, dó 1432.

mundssonar[1]), Arasonar á Reykhólum, Márssonar á sama bæ, Atlasonar rauða, Ulfssonar skjálga, Högnasonar ens hvíta, Oblauðssonar, Otryggssonar, Hjörleifssonar Hörðakóngs ens kvennsama.

Kona þorsteins í Reykjahlíð, móðir Ulfheiðar var Sessilja[2]), dóttir Torfa ens ríka í Klofa, Loptssonar ins ríka, Guttormssonar.

Kona Finnboga lögmanns, *móðir* þorsteins, var Málmfríðr, dóttir Torfa Riddara Arasonar og Akra-Kristínar, þorsteinsdóttur lögmanns á Ökrum, Olafssonar.

Kona eða barnamóðir Jóns prests Pálssonar á Grenjaðarstað og móðir Finnboga var þórunn, dóttir Finnboga ins gamla að Asi í Kelduhverfi, Jónssonar lángs.

Kona Torfa ríka í Klofa[3]) var Helga Guðna-

---

[1]) Hèr mun vanta nokkra liðu ímilli, ef það annars hángir rètt saman; eg hafði ritað það eptir skruddu á Turni — óvissa mín gjörir, að eg sleppi að telja konur þeirra manna, er hèr umgetr. *St. Jónsson.*

[2]) Þorsteinn í Reykjahlíð taldi sèr 4 hundruð hundraða til giptingar, en Sesselja 2 hundruð hundraða ár 1505.

[3]) Torfi var á dögum Steffáns biskups í Skálholti, hefir haft sýslur ok völd þar eystra, því hann var stórmenni mikið og vellauðugr. Hann hafði drepið Lenharð, fógèta frá Bessastöðum, og tók þarfyrir opinbera aflausn og skriptir af Steffáni biskupi. Hafði fógètin komið sèr ílla við landsfólkið, og hafzt margt íllt að, því mætti Torfi ekki stórum gjöldum fyrir dráp, hans; er það sagt, að þegar Steffán biskup spurði þetta stórræði, hafi hann svarað til: „að Torfi „skyldi vegið hafa allra manna heppnastr!" Ár 1505 gaf Helga, kona Torfa, Steffáni biskupi jörð-

dóttir[1]) frá Ögri, Jónssonar á Kyrkjubóli, Asgeirssonar, og Kristínar Guðnadóttur frá Hóli í Bolúngarvík, Oddssonar Lepps lögmanns[2]), Þórðarsonar, Sigmundssonar.

ina Köldukinn og Kolbeinsey í Þjórsá til heilagrar kyrkju, fyrir sektir bónda síns. Torfi hafði fordrukkið sig á Fiflholts þingstað, og varð dýrt að kaupa hönum legstaðinn í Skálholti, því biskup vildi ekki leyfa hönum kyrkjugröft, heldr enn þeim er sálgar sèr sjálfr, er og sagt áðr hafi lengi verið óvild ámilli þeirra, hafi þá Helga gefið undir Skálholt, fyri kyrkjulegið, jarðirnar Vindás, Hreiður, Akbrautarholt, Lækjabotn og Hjallanes, sbr. J. F. *Hist. eccl. T.* 2, bls. 495.

Aðrir segja Torfi hafi andazt úr sótt á Skyrbakka (nú Skiðbakka) í Landeyum, og kosið sèr kyrkjuleg í Skálholti, hvört Helga kona hans hafi með fylgi og frammistöðu orðið dýrt að kaupa, og gefa þartil 5 jarðir.

[1]) Helga var systir Björns Guðnasonar í Ögri, og fleiri voru þau systkyn. Guðni, faðir þeirra, var lengi ráðsmaðr hústrúr Solveigar Þorleifsdóttur, sem átti Orm Loptsson, og sat á Hóli í Bolúngarvík. Sagt er og hann hafi haft umboð Lopts Ormssonar, og fjármeðferð á Staðarhóli, meðan Loptr var í siglíngum; tók Guðni 10 hundruð í kaup eðr starflaun á ári. Loptr og Guðni gjörðu þar brèf um ár 1475. Líka þegar Loptr var andaðr utanlands, hafði Guðni heimtur á fjám og arfi Lopts, vegna Steinunnar Gunnarsdóttur, konu Lopts, og sonar þeirra Pèturs Loptssonar ár 1481. Ár 1510 hafði Guðni sýslu milli Geirhólms og Lánganess.

[2]) Oddr lögmaðr leppr, gaf Árna biskupi Ólafssyni ár 1415 allar þær jarðir, sem hann hafði erft eptir Skúla Þórðarson bróður sinn, en Magnús kóngr hafði Skúla

Kona Jóns Olafssonar og móðir Torfa ríka í Klofa, var Ingibjörg Eyríksdóttir, systir þeirra Sæmundar í Asi, Sìra Jóns í Vatnsfirði og Sìra þorleifs á Breiðabólstað; Eyríkr faðir þeirra í Asi var Bjarnason, Sumarliðasonar, Eyríkssonar, Sumarliðasonar.

Kona Olafs Loptssonar var Guðrún, dóttir Rafns lögmanns áðrnefnds á Skriðu, Guðmundssonar.

Kona Guðna Jónssonar í Ögri var þóra, laundóttir Björns ríka, þorleifssonar [1]), Arnasonar; en kona þorleifs Arnasonar var Vatnsfjarðar-Kristín, hvörrar ætt er talin víða til Sveinbjarnar súðvíkings. *Móðir Sveinbjarnar súðvíkings* var Herdís Rafnsdóttir, Sveinbjarnarsonar, Bárðarsonar ins svarta, Atlasonar læknis, Höskuldssonar, Atlasonar, Högnasonar ins heppna, Geir-

---

gefið. Oddr leppr var í sáttargjörð Björns jórsalafara og Þórðar Sigmundarsonar, ár 1394, og var lögmaðr ár 1407. Hann sat að Ósi í Bolúngarvík.

[1]) Um ætt Þorleifs Árnasonar er allt harla óljóst: Dr. H. biskup Finsson segir hann án efa þann Árna Einarsson, sem ár 1399 keypti 5 jarðir: Efrahvol, Miðhús og Vindás í Hvalhrepp, Læk í Fljótshlíð og Næfrholt í Áverjahrepp, móti Ytriborg í Viðidal, hálfu Ásbjarnarnesi, o. s. frv., af Birni Einarssyni. Máske — segir biskupinn — Árni sè sonr Sìra Einars Hafliðasonar, sem dó 1393, einu ári miðr enn níræðr, lèt Árni sonr hans flytja hann með sæmiligri fylgð til Hóla; elligar máske hann sè sonur Einars lögmanns Gislasonar, hvör 1368 gjörði samning við Þingeyarklaustr um veiðina í Húnavatni.

þjófssonar landnámsmanns, Valþjófssonar ens gamla.

Kona Arna og móðir Þorleifs var [1]) dóttir [2]) Hákonar [3]) Gissurarsonar galla í Víðidalstúngu, Björnssonar, Svarthöfðasonar, Dugfússsonar, Þórarinssonar [4]) í Snóksdal; en kona Svarthöfða var Herdís Oddsdóttir, Alasonar ens auðga, Ulíðarsonar [5]), Þorvarðarsonar frá Söndum í Dýrafirði; en kona Ulíðar varð Vigdís, dóttir Guðlaugs, og Ingiríðar Þorvaldsdóttur, Kjartanssonar, Asgeirssonar í Vatnsfirði, Svartarsonar. Kona Kjartans var Guðrún Halldórsdóttir, Snorrasonar goða; en kona Asgeirs Svartarsonar var Þorbjörg digra Olafsdóttir Pá, Höskuldssonar, Dalakollssonar.

## *Nr. 2.*

### *Um systkyni Jóns Konferenzráðs Eyríkssonar.*

*Jón* ýngri, fæddr á Skálafelli ár 1736, mun hafa lært í Skálholts skóla, eðr undir sèrligri umsjón Dr. Finns biskups [6]); komst til siglíngar með ráði og tilstyrk bróður síns og nafna; híngað aptr kominn, hafði hann nokkra stund Flögujarða umboð í Skaptártúngu. Síðan fèkk hann Vestmanneya sýslu; giptist þar Þórunni

---

[1]) Eptir meiníngu biskups Dr. H. F.

[2]) Heiti hennar er óljóst.

[3]) Þessi Hákon er fæddr 1324, en dáinn 1381.

[4]) Aðrir segja: Þorleifssonar.

[5]) Nokkrir hafa: Oddssonar.

[6]) Samanber Viðb. nr. 6, bst. a. 1758 og 1766.

Olafsdóttur [1]), lifði með henni rúm 6 ár; dó úr líkþrá, barnlaus, þann 8da december 1795, einu ári minnr enn sextugr.

*Arni*, fæddr á Hólmi 1745, lagði góðan grundvöll í látínulærdómi, hjá Sveini prófasti Halldórssyni, systurmanni sínum, en varð sökum heilsutæpleiks, að hætta við bókmentir [2]). Bjó hann lengi og vel í *Hjálmholti* í *Flóa*; eignaðist ár 1783 Margrètu, dóttur Magnúsa prests í Villíngaholti, þórhallasonar, áttu þau 6 börn saman, hvörra 3 að eins komust á legg, nefnil. Vigfús, sem nú er Kand. í lögvísi í Kaupmannahöfn, Olafr nú sálaðr, og Katrín, sem er tvígipt. Arni var í mörg ár hreppstjóri, og, eptir það sættarnefndir voru hèr innleiddar, forlíkunarmaðr í Flóa; var hann virdtr vel, og leituðu margir ráða hjá honum, jafnvel í sjúkdóms tilfellum, á hvörjum hann vonum framar hafði gott skynbragð, einkum var hann í miklu afhaldi hjá þeim ágæta sýslumanni Kansellíráði Steindóri Finsen á Oddgeirshólum. Loksins dó hann snöggliga, þó lengi hefði áðr legið, þann 2. mají 1807, og hafði þá 2 um sextugt.

*Olafr*, fæddr á Hólmi 1749; þegar hann var 11 ára, komst hann að tilmælum bróður hans, Jóns eldra, nýorðins prófessors í Sórey, til móðurbróðurs þeirra, Vigfúsa prests í Stöð, hvörs hann þó litlu síðar misti við; síðan var

[1]) Hún eignaðist síðan Jón þorleifsson, Nikolássonar landþíngsskrifara, er sýslumaðr varð í eyunum, áeptir hennar fyrri mann, en sálaðist á undan hönum.

[2]) Sbr. Viðb. nr. 6, bst. a. 1773 og 75.

hann 4 ár í Heydölum hjá Gísla presti Sigurðarsyni, komst í Skálholts skóla, og dimitteraðist þaðan; var síðan 6 áðr djákn á þykkvabæar klaustri, og loksins prestr í Uppholta þíngum 1779 til 1790; bjó í Guttormshaga, var búmaðr góðr, en alltaf heilsutæpr, andaðist ókvæntr og barnlaus.

*Anna*, fædd á Skálafelli árið 1731; hún eignaðist Sira Svein Halldórsson prest, sem áðr er sagt, að Einholti; veik með hönum 1775 sem presti að Hraungerði og prófasti i Arness sýslu, frá 1780; þau áttu saman 16 börn, hvörra nú einúngis 2 lifa: Benedikt prestr í Hraungerði og Eyríkr merkisbóndi og hreppstjóri að Asi í Holtum, báðir barnamenn. Auk þessara komust á legg, en eru nú sáluð: Ingveldr, er eignaðist Jón prest Jónsson, nú til Stóradals undir Eyafjöllum; hún fèll til geðsmuna veikinda, er síðan munu hafa flýtt fyrir andláti hennar. Solveig var um hríð þjónustumey hjá sál. biskupi Geiri Vídalín, þá á Lambastöðum, og andaðist þar. Steinunn eignaðist Arna prest Skaptason að Arnarbæli í Ölvesi, lifði skamma stund, af öllum er til hennar þekktu, elskuð og söknuð. Anna Eyríksdóttir var, sem allar þær systur, öðrum fremr að gáfum og öllu kvenligu atgjörfi; var hennar opt, þar í Flóanum, vitjað til sængrkvenna, ætíð með góðri heppni. A efri árum sókti hana, sem fleiri af ættfólki þessu, sinnisveiki eðr þúnglyndi, uns hún sálaðist 22. febrúar 1797, er hún hafði 6 um sextugt.

*Kristín*, hana eignaðist merkisbóndi og þjóðhagr smiðr í Öræfum, þorlákr að nafni, á Hnappavöllum, Sigurðarsonar líka þar, Steffánssonar; áttu þau 2 börn saman, pilt og stúlku, sem bæði eru, einsog foreldrarnir, önduð, þó piltrinn kæmist af barnsaldri. Kristín var einhvör hin bezta yfirsetukona, og í þeim fræðum yfirheyrð af Landfys. sál. B. Pálssyni, naut hún þareptir árliga þeirra af konúngi gefnu peninga, sem helzta nærkona í eystri Skaptafells sýslu.

*Guðrún*, giptist einnegin fyrirtaks bóndamanni Arna, syni Brynjúlfs prests gamla [1]) á Kálfafelli í Suðrsveit, Guðmundarsonar; bjuggu þau alla tíð á Smyrlabjörgum; áttu 8 börn saman, hvaraf 2 einúngis stálpuðust. Systir, sem náði fullorðins aldri, varð tvígipt, og átti mörg börn; eptirlifir Brynjúlfr prestr, sem fyrst vígðist til Sandfells í Öræfum, en 1823 fèkk Lángholts kall í Meðallandi, og býr þar nú, ekkjumaðr. Gudrún burtkallaðist á undan manni sínum Arna, eignaðist hann fyrir síðari konu, ekkju frá Hreggs- eða Hestgerði, Guðrúnu Olafsdóttur, Magnússonar; bróðir Olafs var Sigurðr Magnússon á Hnappavöllum, sem nafnkunnugr varð af bókaskriftum og ýmsu fornfróðligu [2]). Guðrún þessi lifir enn, haldin merkiskona og kvennskörúngr, en Arni er sálaðr fyrir nokkrum árum.

---

[1]) Hann var 60 ár prestr á Kálfafelli, frá 1726 til 1786. Dr. H. Finsson.

[2]) Sjá athgr. 2, bls. 71.

*Þórdís;* hún varð tvígipt: fyrri maðr hennar var Einar Brynjúlfsson, bróðir Arna bónda á Smyrlabjörgum. Bjuggu þau um hríð á Kálfafellsstað, og áttu 2 börn, Einar sem vera mun sálaðr, og Eyrík, sem fyrr bjó í Borgarhöfn, en nú á Brunnum við Kálfafell. Síðari maðr Þórdísar varð Sigurðr Guttormsson, nú andaðr, og áttu ei barn saman, svo um sè getið. A sínum efri árum varð Þórdís brjáluð á geðsmunum um hríð, loddi þaðanaf við hana sinnisveiki, uns hún burtkallaðist, undan manni sínum Sigurði.

## *Nr.* 3.

### *Lecturis Salutem et Felicitatem!*

Modicus originis, neqvaqvam nobili sato genere posterior est habendus, si scilicet idem à rerum omnium patre ac satore non proba indole solum et ad virtutem prona, sed eximiis etiam animi dotibus ornatus sit atqve instructus; qvid enim, ut cum Poëta loqvi liceat, stemmata faciunt? Aut qvid prodest longo sangvine censeri? cum nobilitas sola sit atqve unica virtus. Harum literarum Exhibitor *Johannes Ericius*, sedecim annos natus, qvamvis familiæ splendori originem non debeat, minime tamen laudibus, qvas promeruerat, privandus est, aut aliis sui ordinis postponendus. Testor itaqve, ab ingenuis oriundum hunc adolescentem Johannem Ericium, probo ingenio atqve judicio, pro juvenili ætate, satis acri, præditum, nihil per biennium illud, qvo exercitiis scholasticis operam dedit,

me sciente, admisisse, qvod in modestum et moribus probum adolescentem dedeceat, temporis vero hanc exiguitatem, felici industria et ingenii dexteritate adjutum, ita in suos usus convertisse, ut in Philologia latina et græca, nec non exercitiis Logices, Arithmetices simplicis, paucis commilitonum suorum, rude ad præsens donatis, cesserit; lectioni autem biblicæ et exercitiis theologicis tantum impendisse laborem, ut eum inde ab eminentioribus Doctoribus, laudem utpote minorennem sperem fore reportaturum, modo tantum felicitatis affulgeat jubar, ut illorum Athenæum videre contingat, qvo fine patriam relicturum hunc adolescentem bonis omnibus humillime commendatum habet.

*Gislavus Magni fil.*
scholæ Skalh. h. t. Rector.
(L. S.)

Skálholti a. d. XI. Cal. Sext. A. R. S. MDCCXLV.

## *Nr.* 4.

*Magnifico, Perillustri, Summe venerabili, Nobilissimo et Amplissimo Senatui academico!*
*S. P. D.*

Publicam scholam biennio freqventavit civitatis academicæ candidatus *Jonas Erici filius*, qvi postqvam metas inferiorum classium contigit, in supremâ compendium Theologiæ Theticæ, decem selectas Ciceronis orationes, omnes Horatii odas, sermones et epistolas, obscœnis tantummodo exceptis, Virgilii Æneidos secundum et sextum librum, totum N. T. græcum, Plutarchi Pædagogiam, cum tribus Isocratis ora-

tionibus; duodecim priores libros Iliadis Homeri, opera Hesiodi, viginti qvatuor priora Geneseos Hebrææ capita, universalis et patriæ historiæ, universæ Geographiæ, Logicæ, Physicæ, Ethicæ et doctrinæ Sphæricæ compendium legit, studuit, didicit. Qvorum omnium strenuum et indefessum se monstravit cultorem, sedulitate enim et industria nemini in cœtu nostro scholastico fuit secundus, sed potius qvam plurimos superavit. Cum talia ediderit profectus specimina, qvalia pauci apud nos disciputi antea exhibuerant, Græcarum inprimis literarum eam sibi comparavit notitiam, ut sine cortice nare potuerit; nam suo marte solerter legit et professus est autores græcos in metris scholasticis non injunctos. Huc accedit, qvod Islandiâ ortus et ingenio excellenti atqve in studia nato ornatus, suo docuerit exemplo, in ipsa frigoris patria ignea progigni posse ingenia, istiusqve regionis juvenes æqve ac aliarum, summo cum fructu et laude, non vero invita Minerva, litteris suam addicere operam. Nec candidati mores tacendi sunt, etenim uti diligentiam in perdiscendo, sic in obseqvendo observantiam, et in vivendo modestiam ac integritatem probavit, ita ut, si incepto non destiterit, non solum bene sperare sed et confidere cives possunt sui, eum patriæ ornamento aliqvando futurum. Non igitur opus est, ut multis verbis, vestræ, summi Mæcenates! gratiæ et tutelæ eum commendemus, qvi se ipse tam laudabiliter commendat; interim æqvum est ut ei omnium bonorum benevolentiam ex animo

voveamus, studia enim sua hactenus promovit omnibus opibus nudus, sed sola nutritus et adjutus munificentia Perillustris et summe Venerabilis Episcopi Ludovici Harboe, qvi suo jam abitu, apud omnes bonos, summum hic loci desiderium relicturus est. Favete ergo Vestrum submisse ambienti favorem, qvem etiam sibi exoptat.

Nidarosiæ die 29. Maji,
Anno MDCCLIIX.

Vestrorum Nominum
humillimus Cultor
*Benj. Daſs,*
Rector sch. Cathedr.

## *Nr. 5.*

*Merkingargreinir úr prentuðum bókum, snertandi Konferenzráð Jón Eyríksson.*

*a.* *Prófessor Kongslew* i *Danske og norske private Rets første Grunde*, fyrsta bindi, bls. 6, kemst svo að orði, þegar hann er búinn að nefna Erichsen meðal annara lögvitrínga, hvörra rit hann hefir undir höndum haft og notað: „Denne Gang har jeg været under-„støttet af min forrige Lærer, Hr. Etatsraad „Erichsen. Villigen har han opofret mange „af sine faa Fritimer paa at gjennemlæse mit „Haandskrift, derved gjort Erindringer, og „i nogle Materier forskaffet mig de seneste „Forandringer." I formál. til 2. b. bls. 4. víkr hann að sama efni á þá leið, að Konferenzráð Erichsen hafi lánað sèr safn sitt, af júrídiskum Dispútt. samt: „fortsat sin

„Omhu i at forskaffe ham de seneste Forandringer." A sama stað bætir hann við: að þáverandi Jústizráð Wormskjold, síðan Konferenzráð og riddari, sem einsog Kongslew var Érichsens lærisveinn fyrrmeir við Sóreyar háskóla, hafi í þessu fylgt dæmi Érichsens, er hann þar kallar, „*Föður þeirra beggja.*" þetta Kongslews kostuliga og snotra verk útkom árin 1781 og 82, en stansaði við dauða höfundsins.

b. *Wille*, Stiptprófastr í *Udtog af Nordens Mythologi*, talar í formála til þessa verks á þá leið, sem hans velgjörari Konferenzráð Érichsen hafi lesið þetta rit (að líkindum ogsvo komið við í því hèr og hvar), samt haft í ásetníngi að fá það innfært til brúkunar í skólunum. þetta rit útkom 1787 sama ár og Érichsen deyði, og hefir sá ásetníngr þarvið hindrazt.

c. *Dr. F. Joh. Hist. Eccl. Island, Tom.* 4. viðrkennir í formálanum, með sèrligu þakklæti, Ér. mörgu og góðu hugvekjur við þetta verk, frá upphafi til enda, sem og umhyggju hans í að gjöra verkið svo fullkomið, sem orðið gat.

d. Kammerherra *Suhm* í *Samlede Skrifter*, 6ta bindi, bls. 78, segir í æfisögu Luxdorphs skrifaðri 1789: „Erichsen tog han sig af fra „det første; ham vejledte han, anbefalede „ham paa behørige Steder, var altid nidkær „i at befordre hans Bedste, ja understøttede

„ham endog paa en kraftig Maade." [1]) Þegar nú Sûhm svo bætir við: „ligeledes og paa „samme Tid tog Luxdorph sig og en anden „Mand an, der tilsidst erholdt Stiftamtmands „Værdighed og Embede", meinar hann sjálfsagt Islendíng, Stiptamtmann sáluga Fjeldsteð, þó hann ekki nefni hann.

e. *Sami*, sst. bls. 35, í æfisögu Schönnings, telr Erichsen sem þessa vin, og lýsir hönum enn framar svoleiðis, að framtöldum hans fæðíngar uppruna og embættum: „Meget stærk „i Nordens gamle Sprog og Historie, utrættelig i sine Embedsforretninger, berömt af „adskillige Skrifter, og bekjendt som den „redeligste, retskafneste Mand."

f. *Sami*, 15. bindi, bls. 210; þarí er eitt brèf til Sûhms frá þeim í öllum lærdómi stálherdta, Þrándheims skólameistara Dafs, aldavini Sûhms, Schönníngs og margra annara, á hans tíð lifandi lærðra manna, skrifað 1755, hvarí hann fortélr meðal annara lærðra frètta: að Jón Eyríksson (hans lærisveinn) hafi látið prenta utanlands: *Disqvisit. de Peregrinatt. et Philippia etc.*, og bætir við: „Han har „i disse Dage disputeret over samme, og

[1]) Í Luxdorph æfisögu, framanvið *Scriptor. rer. danicarum*, á látinu útgefinni 1792, eru orðin: „han vejledte ham," o. s. v. þarí meint um Saudvig, en ekki Erichsen. — En þar Sûhm er höfundr að báðum þessum æfisögum, hefir hann sjálfsagt meint það hann á báðum stöðum skrifað hefir, þó því ei öldúngis samanberi.

„víst sig at være en hurtig Disputator, lige-
„som han i Traktaten har gjort Prøver paa
„en god Læsning og sund Kritik, saa man
„har bedste Forhaabning om ham blandt vore
„unge Studerende." Daſs var þenna tíma í
Kaupmannahöfn, en Sûhm í þrándheimi,
nýgiptr.

g. *Sami*, sst. bls. 221. þar er og brèf frá Daſs til Sûhms, frá 1755, hvaraf sèst, að Erichsen þá hefir gjört registr yfir þáverandi Etatsráðs síðan Geheimeráðs Hjelmstjernes bókasafn, hvað án efa verið hefir bæði mikið verk og vandasamt.

h. *Sami*, sst. bls. 253. Ennþá brèf til Sûhms frá Daſs, af 1756; sýnir það, að þessi alvörugefni Rektor kallaði Ér. og aðra, er í sambandi þá með hönum voru, að útgefa þau lærðu tíðindi: *Journalista*. það voru þá nýmæli að byrja slík verk. Grundvöllinn til þessa fèlags lögðu, auk Erichsens, Bloch, er biskup varð á Jótlandi, og Dons, er síðar varð Depúterаðr í Kancellíinu. Fleiri lærðir menn slóu sèr seinna af og til í þetta erfiði, svosem áðrnefndr Daſs, Biskup Rotbøll, Prófessor Rotbøll, og fl.

i. *Sami*, sst. bls. 333. þar er brèf (eðr brèfsútdráttr, því datum vantar) frá Erichsen til Sûhms, hvarí hinn, til vegleiðslu fyrir þennan, uppteiknar allar vorar íslenzku sögur, í og eptir staðaröð í landinu.

k. *Nýerup*, í *Luxdorphiana*, bls. 459, getr um að sama slags brèf hafi Luxdorph fengið frá

Érichsen 1760. Að Sûhm, auk áðrsagðs, hafi haft Er. með í ráðum, þegar hann var að semja sitt fræga rit um Oðin, sýnir brèf þessa til hins, af 1770 (*Sûhms saml. Skrift.* 16. bdi. bls. 297) og sú athugasemd, er Nýerûp þarvið gjörir, nefnilega að Ér. hafi sendt hönum ellefu þètt skrifuð blöð, med heillærðum athugasemdum, hvörjar Sûhm hafi allar innfært í sitt verk, á tilhlýðiligum stöðum. Um *Ér. Tentamen philol. antiqvar. de Nom. prop. vett. Sept.* dæmir Sûhm, í *Saml. Skrift.* 7 bdi. bls. 404, svo: „Er lærd og grun„dig skrevet, og indeholder meget Nyt."

*l.* *Kongslew*, í áðrnefndu verki, bls. 194, segir, að Érichsen sjálfr sè höfundr til Arnesens *isl. Retterg.* frá bls. 310 til 557, um þing og dómendr, m. m., hèr á landi, á eldri og ýngri tíð. Er þetta sá kostuligasti hluti verksins, og hèrumbil þriðjúngr þess.

*m.* Prófessor *Sneedorff* í *Saml. Skrifter*, 2. bindi, bls. 279, telr Érichsen meðal annara lærðra manna, Krafts, Basedows, Schyttes, sem verið hafi prýði Sóreyar háskóla, og bls. 284 meðal þeirra nafntoguðu manna Griffenfeldts, Worms, Höyers, Grams og Schlegels, er konúngsins stóra bókasafn hafi mesta nytsemi af haft.

*n.* *C. U. D. Eggers*, í *Physic. und Statist. Beschreibung v. Island* 1786, í inngánginum, um Islands bókmentir, gefr Érichsen á mörgum stöðum forþènað hrós, og segir útþrykkiliga: að mestr hluti þess, er Kongslew hefir

um Islands lög, sè Ér. verk, tekið úr Arnesens *isl. Rettergang.* Sömuleiðis og, að Ér. verk, *Deo, Regi, Patriæ,* (hvört annars ber Páls lögmanns Vídalíns nafn), sè eitt hið markverðasta rit, og innihaldi marga góða og fullþroska hugvekju um landsins hag og betrun hans; eins líka Erichsens rit um Islands kaupliöndlunar innrèttíngu. I þessu Eggers verki átti Erichsen sjálfr án efa mikinn þátt, eins líka í sama höfunds *Philosophische Schilderung der gegenwärtigen Verfassung von Island,* (hvar þó lítið filósófiskt er í, því sú *Schilderung* höndlar mest um osta, sauði, smjör, höndlun, o. s. frv.) það er víst að Erichsen, áðr þessi verk voru prentuð, hefir gjört talsverðar athugasemdir við þau. Að öðru leiti geðjaðist Erichsen aldrei Eggers plan, um þær snöggu breytíngar, er í þær mundir voru í undirbúníngi ok sumpart framkvæmdar hèr í landi. (Sbr. athugagr. bls. 60.)

o. *Dr. G. L. Baden* í *Dansk-Norsk historisk Bibliothek* 1815, bls. 26, nefnir Jóhann Érichsen sem höfund til *Bibliotheca Runica, Gripswald* 1766, 4., er recensèrað er í hinum lærðu tíðindum fyrir 1766, bls. 294; en þegar maðr lítr hèr eptir, sèst það að hann hefir verið prestr til Starkov, nálægt Strjálasundi, en áðr þýzkr skólameistari í Stokkhólmi; þarf því einginn að slengja þessum Sìra Jóhanni saman við Konferenzráð Erich-

sen, sem nýnefndi höfundr ekki heldr gjört hefir.

p. *Sami* í *Lovkyndighedens Historie*, 1809, bls. 98, segir, að af öllum þess stóra K. Anchers lærisveinum hafi engvir — sem lögvísir menn — gjört sig eins forþènta, sem J. Erichsen og Edv. Colbjörnsen. Seinna bls. 102 talar hann um Érichsen sèrilagi á þá leið: að hans fyrilestrar í lögvísi hafi óneitanliga haft frábært verð; að hann hafi verið sá fyrsti, sem í útleggíngu lögbókar Kristjáns kóngs 5ta, jafnan hafi litið til inna eldri laga, og bendt tilheyrendum sínum þángað. Þetta hvorttveggja þó að dæmi lærifööur síns, K. Anchers, sem fyrstr allra innfærði þennan kenslumáta í þeirri dönsku og norsku lögvísi. Að hans mörgu rit beri óræk merki þess, að hann hafi djúpsærustu þekkíng haft í öllum fornfræðum, meðal hvörra þau gömlu lög sèu markverðust og mest áríðandi. Þessvegna — segir hann — virdti Ancher Érichsen öllum fremr, sem þá stúdèruðu lögspeki, og vildi þegar lasnast fór, helzt hafa hann sèr aðjúngeraðan í embættinu. Érichsen — segir hann enn fremr — var af þeim sjaldgæfu lærðu mönnum, er skipti tímanum svo haganliga, að hann var undireins framkvæmdarsamr embættismaðr, og nytsamr rithöfundr. Hann segir ennþá, at Er. hafi átt mikinn þátt í, og jafnvel samantekið þá forbetruðu fûndazíu fyrir Sóreyar háskóla, af 29da janúar 1782, og að hann hafi unnið þarað, með sínum gamla

vini og kollega, Geheimeráði Gûldberg, ennþótt þessi góða fùndazía hafi ei orðið svo nytsöm, sem til var ætlað.

q. *Magn. Ketilsson* í *Samling af isl. Forordn.*, 3. b. í formálanum, þakkar Erichsen fyrir þá aðstoð, er hann við þetta verk veitti hönum, í því að láta útdraga af Rentukammer-arkívsins prótókollum, ýmislig kóngsbréf og þaraðlútandi upplýsíngar. þennann útdrátt segir M. Ketilsson, að Erichsen sjálfr hafi gegnumlesið, og gjört athugasemdir við; en þar Ketilsens verk, af ýmsum orsökum stansaði, hefir Er. útdráttr ekki að fullum notum komið, og nû óvíst, hvar hann er niðrkominn.

r. Af formálanum við aðra útgáfu af *T. Hoffmanns Riti um tíund*, 1777, má sjá, að Erichsens hafi verið leitað til ráðs og aðstoðar við þá útgáfu.

s. *N. Riegels*, *Commentatio historica de fatis faustis et infaustis Chirurgiæ*, lofar elsku Erichsens til vísinda og þeirra dýrkara, samt viðrkennir, að hann hafi styrkt sig með ráðum og bókum af kóngsins stóra bókasafni.

t. I bréfi af 18da júlí 1825 til ýngri dóttur Erichsens, Steinunnar, kemst Geheime-statsminister, Greifi Kristján Reventlow, svo að orði, þegar hann hefir talað um eitthvað hennar efni, yfir hvörju hann segist glaðr vera: „Da „jeg, saalænge jeg lever, vil erkjende Deres „salig Herr Faders Fortjenester for Danmark, „og hvad jeg selv skylder ham som min Læ„rer paa Sorø og indsigtsfulde Kollega i Ren-

„tekammeret, da Fødestavnsbaandet ophæve-
„des, hvortil han ved sine kloge Raad ikke
„lidet bidrog. Gud velsigne hans Börn og
„Börnebörn derfor, og lade dem opleve me-
„gen Glæde."

## *Nr.* 6.

*Útdráttr af þeim merkiligustu brèfum Érichsens, til þeirra feðga, Biskupanna Dr. Finns og Dr. Hannesar.*

*a.* Til Doktor Finns,
öll á islenzku.

1756. Hrósar Erichsen mikið siðgæði, skilníngsgáfum og bókýðn Hannesar, (sem þá mun nýliga hafa kominn verið til háskólans, rekommendèraðr Erichsen). Ráðleggr hann biskupi Finni i þessu brèfi, að láta H. yðka vel öll *studia humaniora*, og víkr á hvörjar bækr hentugast muni að láta hann lesa, í hvörri einstakri vísindagrein; og hvörja fyrilestra hönum sè gagnligast að sækja. Hann segir ekki muni hönum veitá af 6 ára tíma við háskólann, þar ei sè nóg, sem sumir haldi, að ná einu eðr öðru examíne, eðr a einhvörn hátt leiða til lykta þær svokölluðu háskóla-yðkanir, heldr sè nytsamligt, að hann nemi hin nýu túngumál; læri siðblendni erlendis, og að þekkja þar landsins ásigkomulag. I þessu brèfi segist hann að mestu skrifa, „*Lærde Efterretninger*", og hafa umráð þaryfir; en ekkèrt hèldi sèr til þeirra yðna, nema sá applausus, verkið hafi fengið hjá lærðum mönnum og alþýðu.

1758. Oskar Erichsen attestis frá biskupi, um gáfnalag Jóns bróður síns, sem annaðhvört hafði verið undir tilsögn biskups, eðr í Skálholts skóla, svo hann, með styrk þessa attestis, gæti útvegað hönum ölmusu í dönskum skóla; getr hann þess, að bróðir sinn sè *inter ingenia tardiora*, en minnist líka þess, að fljótskarpir menn sèu ekki hvervetna hentugastir til bókmenta, þar nóg sèu dæmi til, að minnst verði úr þeim, nær eldast, og náttúran sýni það sjálf, að þá opt skorti stöðuglyndi og sinniskrapta, hvört bóknám til lángframa þó útheimti.

1763. I þessu brèfi (og fleirum áundan) nefnir hann *Histor. eccles. Island.*, og hvetr biskup, að halda áfram með þetta verk; um stýlinn sèrilagi segir hann, að sèr þyki hann, „*að öllu* „*leiti góðr, því í slíkum historiskum bókum* „*gagni cothurni til einkis, heldr sæmi þeim best* „*simplex et æqvabile dicendi genus.*" Hann segist sumstaðar hafa leyft sèr, að setja eitt orð í annars stað, líka sumstaðar að sundrgreina §§., til haganligri brúkunar fyrir málið. Líka kemst hann þar svo að orði: „víst er það, „að Olafr hvítaskáld er autor af nokkru í *Skáldu*, „en ei Snorri, já, máske af mestum parti henn„ar, og vel og gott, ef ei að *Eddu* með, þó „Snorri hafi eitthvað veitt þarað. það sem skrif„að er um ó t t u og e y k t, má einganvegin úr„gánga; að aðrir hafi aðra þánka, hindrar ekk„èrt; eg hefi lært þaraf, hvað ei áðr vissi, og „öðrum mun gánga eins." Hann hvetr biskup til, að halda áfram, meðan Geheimeráð Thott og

biskup Harbóe sèu í Kyrkju-inspekzíóns-kollegió, því óvíst muni, missi þeirra við, hvört verkið útgefið verði. Af þessu brèfi er líka að sjá: að Erichsen er höfundr til þess af Kongslew tilbendta stykkis, í *Arnesens isl. Rettergang;* hann segir að margt sè þarí ófullkomið, vegna skorts á góðum dókúmentum; þarhjá sè líka *omne initium grave.* Líka má af þessu brèfi sjá, að Er. hefir þá í undirbúníngi haft æfisögu Torfæi, því hann biðr biskup um upplýsíngar þartil; þó útkom sú æfisaga ei fyrr enn nálægt andláti hans, sem áðr er sagt. Sbr. bls. 92 og Sûhms *Torfæana.*

1766. Hèr segist Erichsen vera glaðr yfir, að hafa náð lausn frá hálfs annars árs interims aðministrazíón yfir Sóreyar háskóla. I sama brèfi bendir hann biskupi á hinn greidasta veg, að prentun á *Hist. eccles.* geti strax byrjað. Hann ræðr hönum til, að senda k. Inspekzíóns-kollegió einúngis 1 *periodum*, en gefa ei von um að meira verði sendt, fyrr enn þetta sè prentað, því bágast sè, að fá prentunina byrjaða, en hægra að halda henni áfram. Hèr getr hann þess, að Jón bróðir sinn þá hafi kostað sig 500 rd., og sè þó enn ekki forsorgaðr. Hann segist þessvegna, og svo hins, að sín egin börn árliga fjölgi, ekki vega að taka hina 2 bræðr sína til sín; en biðr biskup styrkja þá til, að ná hálfri ölmusu, því þá muni hann hjálpa þeim að nokkru.

1768. Nefnir hann þá bræðr sína, sèrilagi Olaf, og þakkar biskupi fyrir hann. Kvartar yfir að Hóla prentverk liggi í lamasessi, og gefr hugvekju um, að það væri til heiðrs og nota, að

fá *Vitas illustrium Islandorum* á seinni tímum, samdar og prentaðar, en segist sjálfr ei hafa verkefni þartil, nema það lítið, sem finnst í prentuðum bókum, og sèrilagi í þeim *Conspectu histor. literar. Island.*, sem hann meini Jón sál. Therkelsen ritað hafi fyrir Prófessor Sibbern — (Máske þetta frumvarp bæði frá Er. og biskupi F. hafi vakið fyrstu drög til Mag. Hálfdáns Einarssonar alkendu *Sciagr. Hist. litt. Island.*)

*Speculum regale* segir hann nú sè búið, og voni hann að það verk ei verði landinu til mínkunar. Líka minnist hann þess, að þó hann og biskup Hannes sèu nokkuð dissentientes, um aldr þessa rits, virði þeir það hvör fyrir öðrum á góðan veg, allrahelzt þar þeir komi hvör öðrum nærr, enn nokkur hinna, er þarum hafi áðr ritað.

1772. Hèr víkr hann á eitt og annað í ritgjörðum biskups, *Kúgildi og Tíundir;* er svo að skilja, sem hann þá ekki hafi verið meðmæltr kúgilda innrèttíngu hèr í landi, en lofar síðar meir að láta meiníng sína þarum klárligar í ljósi. Olaf bróður sinn nefnir hann á ný, að náð geti dimissíón, og komizt á hentugan stað, til enn frekar að dýrka sinn lærdóm, hvartil hann kveðst munu hönum bækr útvega..

1773. I brèfi þessu getr hann þess: að Islands sakir, er áðr heyrðu undir Rentukammerið, nú aptr sèu til sín flotnar, sem depúterаðs í Ökonomí- og Kommers-kollegíó, samt Tollkammerinu, og að þetta sè skeð án nokkurs síns tilstillis, (þá mun hafa vandhæfi á þókt, að finna jafndugligan mann og hann, til að stjórna Is-

lands efnum í Rentukammerinu). Af þessu brèfi sèst: að Luxdorph og Erichsen hafa verið þess flutníngsmenn, að Hannes biskup þá varð Sekretèri við Arna Magnússonar fornfræðanefnd, með árliga föstum launum. Hann þakkar biskupi Finni fyrir boðið liðsinni, að Olafr bróðir sinn nái einhvörstaðar djáknadæmi, er hann álítr hönum hentugt, heilsunnar vegna. Að bróðir sinn Arni, vegna heilsuleysis, hætti bóknámi, telr hann ráðligt, en óskar því hagist svo til, að hann verði góðr bóndi, og lofar að veita hönum peníngastyrk þartil. Hann hrósar mjög riti biskups um kúgildin, og segist hafa vikið því máli: *um ábyrgðar ansvar pestdauðu kúgildanna*, og *allt ansvar þeirra yfirhöfuð framvegis*, í það horf, að kammerið sendi öll prosjekt þarum til landsins aptr, undir beztu manna yfirvegun og úrræða-frumvarp, þar Kollegía, sem vanti *notitias locales*, egi ekki að setja slíka hluti *fyrstir* á stofn. I sama brèfi nefnir hann Islands kompagní-höndlun, og segir (einsog áðr í öðru brèfi) að hún geti ekki staðizt; á fríhöndlun segist hann sjá torveldni, og að hún á sumum stöðum landsins, ekki muni koma sèr vel, ályktar þó, að hún muni skárri verða, enn kompagní-höndlun, og brúkanlig, ef aðsetr kaupmanna fast yrði í landinu, og kaupstaðirnir ávalt byrgir með nauðsynja vörur.

Viðvíkjandi *Reisubók* Eggerts og Bjarna, gjörir hann þá athugasemd: að hið *bezta* í þessari bók sè það, sem snertir *Oeconomia privata*, helzt enna gömlu, þar hann sè eigi lángt frá að

meina, að sá mundi mátinu beztr, til Íslands uppreistar, að þeir, sem þartil hefðu efni, kynnu og vildu, eptir hendinni, upptaka þá eldri búskaparháttu, því þeir sambjóða betr eðli og ásigkomulagi landsins, en hvörjir aðrir.

1775. Hèrí getr hann um heilsulasleik sinn, sem rísi af önnum þeirra mörgu embætta, sèr sèu uppálögð. Minnist ennþá bræðra sinna, og að hann hafi sendt Arna lækníngameðöl og Olafi fèstyrk.

Þegar hann er búinn að skrifa eitt og annað um biskup Hannes, og að hann vilji hans velgengni sem sína eigin, bætir hann við: „*Enn* — „*mikillar dstúðar og yndis missi eg þá, ef* „*hann með öllu skal hèðan, og eingvu minna* „*tapar okkar Antikvitets-stiptun þarvið; en* „*það held eg þó, að svo muni ek ætið breyta,* „*að það, sem hönum sjálfum best hentar í öllu* „*þessu, skuli sitja í fyrirrúmi.*" Af þessu brèfi má ráða, að biskup hafi beðið Erichsen að fá Harbóe til að rita formála fyrir *Hist. ecclesiastica*, ella gjöra það sjálfan, í hvörju tilliti biskup hefir sendt hönum öll verkefni þartil; en E. afsakar Harbóe frá því verki, sökum aldrdóms og embættisanna, en segist álíta *contra decorum*, að semja hann undir sínu nafni, „*þar hann* „*ekki geti haldið sig nema úngling eða viðvan-* „*íng, að jafna við biskup*" (bendir þetta til, hve mikils þessir miklu menn hafa virðt, og hvað fölskvalaust elskað, sem vinir, hvör annann).

*Extraskattinn* segir hann sig, í þessu brèfi, hafa svo heppinn verið að fá hèr afmáðan; en

*Prócentóskattinn hafi það verið ómöguligt.* Hinsvegar segist hann vænta, að þessi skattr, eptir kammersins reglugjörð þarum, ekki verði þúngbær, líka muni stjórnarráðið á sínum tíma tilleiðanligra að afmá hann, nær sem prófað verðr, *að hèr er til lítils að slægjast.*

1776. þegar hann í þessu brèfi er búinn að minnast bræðra sinna og náúnga, víkr hann til formálans fyrir *Hist. eccles.*, og segir: að verkið tali sjálft fyrir sèr, betr en það lukkast mundi í nokkrum formála; að lángt muni frá að höfundr þess hjaðni niðr *intra parietes domesticos*, heldr muni ritið útfæra hans lærdóm og *candorem*, og þeim á lopt halda í Evrópu, svo lengi sem bókmentir verði í nokkru gildi, því nærsta lítilvægt megi það álítast að vera, sem aðrir landar vorir hafi á látínu útgefið, að Torfæo einum fráteknum, ef metast ætti móti þvílíku verki. þegar hann talar um, að biskup nú sè frí orðinn frá Rangskatti, segir hann, að þetta hefði átt að vera fyrir laungu skeð, þar það gegni engri sannsýni, að menn þeir, sem ekki hafi annan rang, en fylgi embætti þeirra, skuli lúka skatti þaraf, helst í því landi, hvar rang sè til eingra nota nè hlunninda. Við þá biskupsins athugasemd: *að víða hafi fleiri hrútlömb fædst, eptir fjárpestina enn gimbrarlömb*, færir hann þá orsök þartil, að það nýa fè muni fá betra fóðr, enn áðr, er fleira var á fóðri, og þessvegna verða kjark- eðr fjör-meira, en þótt þetta seinki tínguninni í fyrstu, muni það jafnast með tíðinni. Framvegis segir hann hèr: að Arna Mágnús-

sonar nefndin hafi meðtekið biskupsins *tímatal (chronologiam)* til *Eyrbyggju*[1], *Laxdælu*[2], *Kórmaks-* og *Grettis-Sögu*, og að Kammerherra Sûhm brúki það til hinnar fyrstnefndu, sem hann sè að útgefa. Hann biðr biskup gefa krítík yfir Gunnlaugssögu, er þá var útkomin; segist hafa gjört sèr mikið ómak fyrir henni, þó eitt eðr annað hafi yfirsèzt, einsog opt gángi til, þegar ekki gefist tóm nóg til eptirsjónar.

1777. Einnig í þessu brèfi minnist hann á bróður sinn Olaf og mág sinn Svein prófast, er áðr hafði fengið Hraungerði. þetta brèf vísar annars, að Erichsen muni höfundr vera bæði til kóngsbrèfs af 28da maji 1778, um Landskuldagjöld, líka tilskip. af 4ða maji 1778, um Vogreka-rèttinn hèr á landi. Hèr minnist hann á tímatal biskups til Gunnlaugssögu, og að sín þaraðlútandi *Epistola* til biskups muni útkoma. Sömuleiðis: að æfi Snorra Sturlusonar[3]) af bisk-

---

[1]) Ekki er biskup nefndr sem höfundr tímatals Eyrbyggju, í þessarar sögu útgáfu, á Sûhms kostnað, 1787, en notað er það þar víst, sjá Érichsens brèf hèreptir af 1779.

[2]) Ekki finnst þetta tímatal nefndt eða notað, eða neitt annað tímatal í þeirri útgáfu þessarar sögu, sem útgeingin er frá þeirri árnamagn. kommissión 1826. Máske hefir það glatazt eða gleymzt við hlutanna umbyltingar á seinni tímum.

[3]) Biskup F. hefir samantekið á látínu æfisögur Sturlúnga, hvörs eins sèrilagi, með titli: *Vitæ Sturlúngorum;* fróðligt og umfángsmikit rit, sem enn er til óprentað, nema sú hèrnefnda æfi Sturlu Þórðarsonar, sem prentuð er fyri framan 5ta bindi af því

upi, sè prentuð framanvið *Heimskrínglu* 1. bdi., og að A. Magn. fornfræðanefnd muni nota sèr *Chronologiam et Chorographiam* biskups yfir Grettis-sögu, en kvartar þarhjá um, að þessi kommissión sè *seinfær* í gjörðum sínum.

1779. Minnist hann enn ættmanna sinna einsog vant er. Um Vogreka-fororðn. segir hann, að tilgángr sinn hafi einúngis verið sá, að hvör skyldi njóta slíks rèttar, sem hin fyrri lög — rètt skilin — hefðu ákvarðað, og þaráameðal kyrkjur og staðarhaldarar, sem hvört um sig mjög þurfi síns við. Hann segir, að útgáfu Grettis-sögu sè af kommissióninni skotið á frest, meðan verið sè að útgefa Sæmundar-Eddu, en að því til lykta leiddu, muni biskupsins tímatal og athugagreinir við þá sögu notaðar verða. Hann segist vera biskupi samdóma, að í söguna sè víða innskotið, og í Kórmaks sögu sè tímatalið ekki gott, og sagan sjálf marklítil, nema hvað átrúnað og trúsíði fornmanna snerti. Ritlíngr biskups, *de prærogativa noctis præ die, aut dubia aut nulla*, segir hann sè hið mesta torgæti; og að þarum sè viss markverðr staðr í *Grágás*, sem eptir góðu exemplari sè innfærðr í *Arnesens isl. Rettergang*, bls. 75, þó hann í það sinn ei hafi þorað að trúa hönum, þar sèr hafi þá fyrir augum staðið, ekki einúngis hvað hinir stóru tímatalsmeistarar: Scaliger, Petavius, Longius og fl. heldr og hvað Brúnsmann, *in Exord. et Exod. diei, Ty-*

stóru og ágæta verki Snorra Sturlusonar Noregs kóngasögum. Að öðru leiti er biskup F. þar ei nefndr sem höfundr að þessari æfisögu.

*chonius de noctis præ die prærogativa*, og fl. þýzkir og svenskir antiqvarii skrifað hafi yfir það, sem Július Cæsar sagt hefir um dægra deilíng hjá Gallis, sinna tíma. *Tímatal* biskups til *Eyrbyggju* segir hann notað sè af Gr. Thorkelín.

1782. Hèr kveðr hann meðal annars svoleiðis að orði: „þèr hafið satt að mæla, að allt of „gífrliga er arkaiseráð bæði í formálanum til „*Talnalistar* Olafs Sekretèra, og í bókinni sjálfri; „og svo kær sem mèr er óbjöguð Islenzka, þó eg „ei geti skrifað hana sjálfr, svo mikla andstygð „hefi eg á hinu; öllu má muna að blanda „túnguna svo hègómliga, sem sumir gjöra, jafn„vel í públík skjölum og gjörðum, með útlend„um orðum og talsháttum, að málleysur einar „verði, og að rita sundurlausa með fornaldar stýl. „Enn — *mjótt er mundángs hófið!* I lærdóms„listafèlags ritum vorum höfum vèr þó af öllu „megni kostað kapps um, að ætla okkr hóf í „þessu efni, og hvað þar enn kann áfátt að vera „á sumum stöðum, getr vel betrazt með tíð og „tíma, þegar menn verða vanari við; en bágast „sýnist mèr að fá *veritates philosophicas* (heim„spekislærdóma) á góða Islenzku, þar svo lítið „er áðr ritað *in philosophicis*, að túnguna enn „vantar mýmörg orð og talshætti, sem því efni „hlýði."

1784, á skírdag. I þessu brèfi stendr: „ágæta fyrirtekt tel eg, að rita *Histor. isl. civi*„*lem*, en þótt eg ei hafi mikið vit á því, sýnist „mèr þó: að það sè *opus magni moliminis*; ann„ars sè eg ei, að það verði gjört, nema *secundum*

„*familias*, því það sambýðr bezt *statui aristo-*
„*cratico-oligarchico*, sem hjá oss var. *Subsidia*
„til þess á seinni tímum munu ei vera mjög mörg
„í Arna Magn. safni, að fráteknum ættartölum
og brèfabókum." (Til hvörs af biskupunum
þetta brèf er ritað, sèst ekki gjörla.)

1785. Í þessu brèfi segir hann í áformi hafi
verið, at kaupa fè í Björgvínar stipti, og færa
yfir til Islands, til að uppbæta þann stóra skaða
af fjárpestinni; en þar ei hafi verið, nema lítið
eitt, fáanligt, og ekki svo mikið sem kostnaði
mundi hafa svarað, hafi því áformi verið slept.
Fè frá Danmörku þori menn ei að senda, af ótta
fyrir að fjárpestin kunni með því aptr að innfær-
ast; fè frá Skotlandi mundi máske best henta, en
þartil þurfi leyfi frá því engèlska Parlamenti,
hvarum skrifað sè, ef með kunni þurfa. Um
bændr í Skálholts stipti segir hann menn sèu nú
síðr enn ekki áhyggjulausir, þar áformað sè, að
gózið skuli seljast, og stóllinn með skólanum
flytjast til Reykjavíkr, og haldast þar með regle-
mentèruðum reiðupeníngum af kóngsins kassa.
Svo bætir hann við: „þó eg sè *membrum* af enni
„stóru kommissíón um Island, sem hèr er nýliga
„niðrsett, hefir þessi breytíng þó ekki verið mitt
„ráð, heldr hitt: að bezt væri áðr að heyra sig
„fyrir, hvört hún skeð gæti, *salvo jure tertii et*
„*commodo publico* (að óskerdtum þriðja manns
„rètti og almennings nytsemi), en aðrir hafa
„orðið í því ráðríkari."

1786. Hèr skrifar hann um: að við breyt-
íngu og sölu á stólsgózinu sè nú ekkèrt frekara

að gjöra, nema að bera sig að, að færa allar afleiðíngar þaraf í hið hentugasta lag, hvartil hann og lofar að stuðla, sem Guð gefi sèr bezt vit á; en ekki segir hann sèr komi það óvart, þó biskup og skólakennendr ábatist ekki á reiðupeníngum, þó það hafi ætlað verið af sumum; sitt ráð segir hann það hafi ei verið, að taka leigukúgildi af jörðum, sízt beneficèruðu gózi, heldr einum og öðrum *abusu* (misbrúkun), sem er við kúgildanna próporzíón á jörðunum, og annað þvíumlíkt.

*b.* Til Drs. Hannesar,
á dönsku meðan hann var erlendis, síðan á íslenzku.

1767, jan. 25. biðr Erichsen um upplýsingar, viðvíkjandi þeim *hvalategundum*, sem nefndar sèu í *Speculo regali*, frá hvörjum Er. hefir, í útgáfu þessa verks, ítarliga skírt í sínum athugasemdum.

1768. Segist hann hafa minnzt á biskup í formálanum, og voni það ei dragi til ósátta þeirra í milli, þó meiníng þeirra um aldr á *Spec. reg.* ekki sè að öllu hin sama.

1769, apríl 9. Utfærir hann þetta enn framar, og segir: að í historiskum efnum nái menn sjaldan fullri vissu, og margir verði að leggja sitt til, að fá einhvörja fasta meiníng þarí. — Hannes biskup hafði áðr sendt hönum ritgjörð eina *de causis erudit. et script. Island.* Við þessa ritgjörð sendir Er. hönum nokkrar athugasemdir, en lætr þarhjá í ljósi þann ásetníng sinn: að hann eptir hendinni útgefa ætli safn

nokkurt af ritgjörðum, með titli: *Observatt. ad antiqvitt. septentr.*, og biðr biskup leyfa, að þessi ritgjörð megi inntakast sem *hin fyrsta* í safnið; segist þarhjá hafa skrifað sínum beztu vinum hèr í landi, að stuðla til þess: að lærðir fornfræðamenn hèr, vildu samantaka og senda sèr fróðar ritgjörðir til safnsins. Uppá þann máta segist hann halda, að hið svokallaða *ósýniliga fèlag*, (við formál. við *Spec. reg.*), sem þó aldrei hafi verið nema *prosjekt* og *nomen otiosum*, geti virkiligt orðið. (þessi Erichsens ásetníngr — annars einn af fleiri ljósum vottum, hve mjög hann stundaði heiður landa sinna — kom þó ekki fylliliga í framkvæmd, nema hvað hans eigin ritgjörðir: *de Philippia, Peregrinationibus, etc.* snertir, og ekki er það kunnugt, að ofannefndt rit biskups Hannesar sè nokkurstaðar prentað, eða hvað nú er af því orðið.) Í þessu brèfi segist hann notið hafa hjálpar af Landfógèta Sk. Magnússyni, til að útgefa ritið *Deo, Regi et Patriæ, (um uppreisn Islands).*

1770, apríl. Hèr skrifar hann að nýu ýtarliga um áðrumgetið safn: *Observatt. ad antiqv. sept.*, en segist ei hafa fengið tíma til, að samantaka neitt heilt þaraðlútandi. Biskup H. ritgjörð: *de causis erud.*, segist hann behalda, og feginn þiggja ritgjörðir, um vissar einstakar materíur, helzt í þeirri gömlu kyrkjuhistoríu, hvarum biskup hafði gefið ávæni, með tíma og hentugleikum. Hann hvetr biskup sèrilagi til

að semja ritgjörð um fólksfjöldann á Islandi [1]) í eldri tíð, þar hann segist undra sig yfir, að lögmaðr Sveinn Sölvason hafi skrifað sèr, að hann trúi fólksfjöldi og velmegun, ekki sè minni í landinu nú, enn nokkrusinni áðr. þetta segist Er. halda sè bæði *ósönn og skaðlig trú*, og hvað fólksfjöldann sèrilagi snerti, segist hann ekki skilja, hvar hann sè aukinn, svo jafnvigt nái, fyrir það, sem tapazt hefir á fornbygðum, en nú eyðilögðum hèruðum, fjölda af einstökum bændabýlum og húsmannastöðum. — Bókina um *Islands Opkomst* segist hann hafa samantekið, til þess að gefa ei einúngis löndum sínum hèr, heldr líka stórmennum utanlands, hugvekju um: *að forbetra Islands hag*; þetta fyrirtæki hafi nú borið svo góðan ávöxt, að í ár sèu kommissaríí sendir til Islands, til að grenslast eptir einu og öðru þesshâttar, og óskar hann að sönn föðurlandselska megi leiða öll þeirra fyrirtæki. Loksins minnist hann þess: að í ár hafi verið undir það komið, að hann til Islands kæmi, því þeir hafi nokkrir verið, sem sèr unna vildu stiptamtmanns embætti þar, hvörju hann mundi hafa móti tekið, ef vilji þeirra hefði framgengr orðið; sèr hafi að sönnu, í þess stað tilboðið verið, að ferðast til Islands, sem kommissaríus, en það hafi hann afþakkað.

---

[1]) Máske hefir þessi upphvatning verið nokkur orsök í, að biskup H. samantók þær ágætu, í vissum pörtum hèraðlútandi, ritgjörðir, um barnadauða á Islandi, og um mannfækkun af hallærum samastaðar, sem innfærðar eru í Lærd. lista-fèlags. 5. og 14. bdi.

1770, nóv. 20. Drepr hann aptr á stiptamtmanns embættið, og segist vera glaðr af, að það ei fèll í sitt skaut, því sig hafi vantað marga þá kosti, er það embætti útkrefr; einsog að kríngumstæður ei mundu leyft hafa sèr, að koma öllu því af stað, landinu til gagns, sem hann þó hefði vitsmuni og vilja til; og svo hefðu sín laun ekki önnur orðið, enn *sorg og gremja!*

1779, júlí 26. þegar hann er búinn að tala um öll þau prosjekt, sem innkomin voru til innar nýu Pólitífororðníngar [1]), og hve torveldt sè að útdraga þaraf nokkuð samanhángandi heilt, bætir hann við, að það sem helzt hafi haldið sinni erfiðissemi tilbaka í því efni, sè það, að þegar þessi fororðn. sè búin, muni hún komast undir bekkinn, einsog húsaga-fororðn., hvað ráða megi þaraf: að svo margir klagi yfir sjálfræði og óstýrilæti vinnufólks, jafnvel þó fororðníngin hafi þarvið góðar skorður reist, væri að öðru leiti vel eptirgengið af yfirvöldum og öðrum sem þarað standa. *Fjárhirðingarrit* Magn. Ketilssonar sýslumanns, segist hann nýliga lesið hafa, og falli sèr það vel í geð. Hann segist vera þeirrar meiníngar, að þekkíngar- og aðgæzlu-leysi, helzt í búskaparefnum, sè Íslandi eins skaðligt og peníngaleysið sjálft.

1780, júní 17. Víkr hann enn til *fjárhirð. ritsins*, og biðr biskup — þar hönum líka hafi

[1]) þessi políti-orðníng kom aldrei út, en svo lángt var það komið, að búið var að gjöra niðrraðaðan útdrátt, af öllum þaraðlútandi skjölum, víst án efa, af mjög misjöfnu verði.

fallið það rit vel í geð að uppörfa rithöfundinn til framkvæmda, sem og alla þá er dugnað hafi, því nú þúrfi Island, máske fremr en nokkru sinni áðr, *að menn vaki.* (þetta hefir líkliga tillit til þeirra stóru breytínga, er þá voru í aðsígi, og sem ekki fèllu Er. að öllu leiti vel í geð. I spaugi bætir hann síðar við: að biskup egi á hvörri prestsvígslu og katechisazíón, að prèdika um *kvarnirnar.* Hann segir það sè sorglig eymd, að erlendis mylnumenn skuli senda almúga híngað sand fyrir mjöl, en þetta verði þó ei hindrað, meðan mölunin sè í þeirra höndum, hvað og árliga kosti landið, að mjöltunnunum meðreiknuðum, hèrumbil 10,000 rd., sem betra væri að brúka til einhvörra nytsemda. I eldra brèfi (af 1779) segir hann sèr hafi þókt gullvægt Cirkularbrèf sýslumanns Jóns í Rángárvalla sýslu, snertandi *kvarnirnar,* og segist halda hann vera merkismann.

Ágúst 7. s. á. Hèr segist hann vantreysta kröptum sínum, að fulkomna þau rit, er hann undir höndum hafi, ásamt öðrum efnum, sem hann í sumar hafi nokkuð brotið heilann í, hvör efni sèu af þeirri náttúru, að hann nú ei megi nefna þau, nema í því tilliti: „*að biskup vilji* „*biðja Guð að styrkja sig í öllu því, er Islandi* „*megi að gagni verða.*" Hann fer hèrum fleirum orðum, jafnvel á þá leið, „*að sín kjör sèu óviss, ef nefnd efni skuli framgáng fá, en sín kjör sèu og litilsvirði, ef landinu gángi vel!*" þetta allt mun líta til þeirra nýbreytínga, er þá voru í undirbúníngi, og til einstöku manna, er

þá máske vildu lækka Er., til að koma sèr sjálfum framm. þessir menn, að svo miklu leiti vissa hefir fengizt um þeirra samdrátt móti Er., eru nú flestir dauðir, og nefnast hèr ei, ekki heldr þeir sem af þessum flokki ennþá máske lifa.

1781, páskadag. Segist hann hafa sundrdreift mestum fjölda þeirra skýa, er í fyrra hafi uppdregið, þó sè ennþá nóg eptir, og miklar biltíngar í aðsígi, og óvíst hvört ei nái þaraf nokkrar til sín. (þetta mun hafa verið um það leiti eða nokkru áðr, enn vor núverandi kóngr gekk sem krónprins inní Ríkisráðin; Gùldberg fèkk fararleyfi, aldavinr Erichsens; Lúxdorph kominn á veginn; J. G. Moltke afleystr; Harbóe orðinn gamall og örvasa, svo þannig fækkuðu þeir, er höfðu verið Er. til mestu styrktar og uppheFðar.)

Svo sýnist, sem Hannes biskup, í einhvörju brèfi sínu, hafi andað móti, að biskupar hefðu stólsins ökónómí, en þaruppá svarar Er. þannig: „Satt er það, að nokkurt ansvar fyrir biskupa fylgir við *œconomica: Sed nihil sine magno natura labore dedit mortalibus*, og er það þó ekki betra, enn dagliga að hánga af annara náð, sakna ens nauðsynliga fyrir sjálfan sig og stólinn, og geta ekkèrt leiðrètt þegar nokkuð er áfátt?" Og um kennendr við skólann segir hann: „að hvörsu góð sem þeirra kjör mættu sýnast, hefir þó sá karl af lífvaktinni, sem þènar mèr, þau vel svo góð, nema hvað hann höggr og klýfr brennivið minn!!"

1782, páskadag. I þessu brèfi biðr hann biskup fyrir systurson sinn, Benedikt Sveinsson,

að áminna og upphvetja hann til stúdèringa, þar hann sè í skólann kominn. Hann segist nú hafa umsjón yfir þeirri stóru útgáfu af Eddu, lesa korrektúru þaraf; bæta sumstaðar frá sjálfum sèr við æfi Sæmundar Fróða af Magnúss. og s. frv. Lærdómsl. fèl. ritin segir hann líka taki frá ser mikinn tíma, en það segist hann láta sèr vel lynda í þeirri von, að rit þessi, ef með stöðugleika viðhaldist, geti gefið margar brúkanligar upplýsíngar, ef nokkur vildi eptirtaka, hvörs síðara ei sè með öllu að örvænta, þar svo margir góðir menn hafi rètt því hönd; af biskupi sèrilagi segist hann vænta meira enn af öðrum, þar hann jafnan hafi álitið hann fyrir þann mann, af hvörjum landið geti mestu uppreist feingið, í rèttum þenkimáta og góðum vísindasmekk, *in vità communi, privata et publica*, og það sama áný́ar hann í brèfi, af 5. júní árið eptir.

1783, páskadag. Hèr segist hann halda nú sem fyrri, að hið óbæriliga flakk og betlerí á Íslandi, muni ei koma einsmikið af því, að góð lög vanti þar í móti, einsog hinu, að þeim sem þar um til eru, sè ei rèttiliga eptirlifað. Hann segir slík efni sèu fyrir utan sinn embættishríng, en þó hafi hann nokkurn þátt átt í þeirri útgefnu tilskipun af 19da febr. þ. á., og ráðið segist hann hafa til, að þessi tilskipan væri styrkt, með skorinorðu kóngsbrèfi af 10da marzí 1784, eptir þeirri ávísun, sem biskup hafi sèr þarum gefið.

Um Lærdómslista-fèlagsins nytsemi ítrekar

hann hèr hið sama, sem í næstundangengnu brèfi. Um M. Stephensen (nú Konferenzráð, Jústizíaríus og Dr. júris), hvörn biskup hafði hönum rekommenderað, hermir hann ið mesta lof, sem einhvörn inn efniligasta úngan mann frá Islandi kominn, og segir hann muni á sínum tíma verða vigtugr maðr á Islandi, ef faðir hans leyfi hönum tíma til að búa sig þarundir; hann segist hafa stuðlað til, hann fengi pláz í Rentukammersins Kancellíi, til þess hann geti æft sig í *negotiis*, og lofar að vera hönum ekki óhollari enn sínum eigin börnum. Hèrumbil það samà ítrekar hann í brèfi, árið 1784.[1])

Júní 5ta s. á. Hèr kemst hann svo að orði: „Með skrifi yðar um brennusteins höndlun í „Friðriks 2. tíð[2]), viðrkennist eg, að þèr hafið „auðsýnt mèr mestu æru, hvarfyrir eg tel mig „fullkomliga skuldbundinn, nær sem eg verð maðr „til, að sýna þakklæti mitt; og lædómsl. fèlag„inu hafið þèr þarmeð orsakað eins mikla gleði, „þar það þarí hefir fengið eina rètt markverð„uga *particulam* af föðurlandsins ökónómíu- og „höndlunar-historíu, sem eg opt forgefins hefi „ámálgað, einhvör vildi leggja hönd á. Eg álít

[1]) Margir aðrir Íslendingar áttu Ér. sál. að þakka sinn framgáng til láns og velgengnis, hvarámeðal hèr einúngis nefnist Konferenzráð, Amtmaðr, Riddari af Dannebr. S. Thórarensen, er sálaðist árið 1828, þó Ér. velvild og hjálp hönum til handa ei sè nefnd í æfisögu Amtm. sál. útgefinni 1824, líkliga af því, að rithöfundrinn hefir þarum ókunnugr verið.

[2]) Innfært í Lærdómsl. fèlags rit, 4. bindi.

„hlutinn svo: *ad historia œconomiæ et commer-* „*ciorum* (historía um landsins búnaðar- og höndl- „unar-ásigkomulag), sè einmidt sú undirstaða, „hvará allt skuli byrjast, og af hvörju bezt verði „ályktað, hvað þènanligt sè, eðr ei. Að minsta „kosti hefir eg, í því lítilræði eg hefi útgefið „um Islands ökónómí og höndlun, ætíð haft „hana fyrir augum, þó mitt *institutum* (áform) „aldrei hafi leyft mèr fullkomliga að afhandla „neitt um hana. En víst tel eg það, að margt „gott og nytsamt, því efni viðkomandi, frá Is- „lands bygð til utgaungu 13da aldar, mætti sam- „antína af lögum og sögum, hvör sem hefði tóm „þartil; þetta tímabil tel ek annars það fyrsta og „bezta í því efni; 2að frá sekul. 14. til danskra „höndlunin tókst; hið 3ðja, til þess hófst ein- „valdsstjórnin; hið 4ða til dauða Kristjáns 6ta; „og 5ta frá byrjun Friðriks 5ta ríkisstjórnar til „vorra tíða."

1784, á Skírdag. Ritið um Islands kauphöndlun (nl. *Érichsens Forbered. osv.*, sjá bls. 91), segist hann vona innihaldi eitt og annað ei ónauðsynligt; þar hann hafi leitazt við að safna þarí *resultatis* af öllu því markverða, sem reynt hafi verið í hans aðmínistrazíónar tíð við höndlunina, frá 1774 til 1781, að því leiti höndlunin er samteingð við Islands bjargræðis útvegi. Etazráð Fjeldsteðs rit (sjá athgr. bls. 75) segist hann enn ekki hafa lesið, en vita, að það sè sínu í mörgu frábrugðið, þar Fjeldsteð einúngis hafi ritað um annað höndlunarform, en hann einúngis í þeim tilgángi, að vísa þá beztu brúkun

á *Statu præsenti* (nærverandi ástandi), til að undirbúa einhvörn betri. Svo bætir hann við: „*Eg tek nú að verða gamall, þreyttr, ónýtr til* „*alls, einkum þess, er á augun reynir, og því* „*mun eg ei meir fást við þau efni, helzt þar* „*svo margt er að vinna.*"

1785. Um *Separazións-akt* þann í fyrra er „nú ekki fremr að tala: það er ályktað, að hann „ei skuli framkvæmast í Skálholts stipti, heldr „skuli stóllin með skólanum flytjast til Reykja-„víkr" — „rætist þessi umbreytíng vel, skal það „vera mèr kært; en ekki verðr það mèr að þakka, „því minn þánki var, að bezt væri áðr að exa-„minèra öll *commoda* og *incommoda*, og sjá svo „hvað ráðligast þækti. Sè því einhvörju ofhrað-„að í þessu, er það ei heldr mèr að kenna í „neinu, og þessvegna bið ek að þèr ei skrifið „mèr neitt í þessum efnum, heldr Kancellíinu. „það gleðr mig þó, að eg hefi því til leiðar kom-„ið, að legstaðir alls þess göfugmennis, er liggr „í Skálholti, ei verðr troðið undir hestafótum, „sem víst hefði skeð, hefði þar ei kyrkja verið „framvegis." (Sbr. hans undirbúníngs álit hèr-„eptir, Nr. 10.) Að föst kúgildi ekki yrðu afmáð á pûblík gózi, það segist hann hafa álitið skyldu sína að koma í veg fyrir, en undireins vona, að biskupar og aðrir, ef þvílík breytíng skyldi enn til umtals koma, aðgæti þarí nákvæmliga presta-kallanna og hospítalanna hag. þegar hann hefir minnzt á, að Etazráð Fjeldsted sè orðinn meðlimr af þeirri stóru kommissíón' sem yfirvega átti Islands allmennu nauðsynjar, og hann enn fremr

hefir drepið á, að nær yfirvega skuli breytíngar í höndlunarinnar ástandi, muni. þessa manns Kólóníal-höndlunar *princip* (útlistað í hans riti, um nýa höndl. innrètting) framkoma, bætir hann við, að við margt slíkt og þvílíkt verði menn stundum varir, er hann, fyrir sitt leiti, geti ei álitið bygt á lögum, sannsýni; nè *factis historicis*; „*en* — segir hann — *það er nú hdttr vorr-„ar prosjekta-aldar; og mdske er það Guðs „vilji, að eitthvað gott geti spunnizt útúr því „öllu.*"

## Nr. 7.

### 2 *brèf frá* Luxdorph *til* Erichsen.

1.

Udkaarne Ven!

Om der er, eller bliver gjort Ham i disse Dage et Slags Forslag, saa udfordrer Venskabs, som den helligste Pligt blandt Mennesker, dens Lov, af mig, at jeg maa bede Ham vel betænke sig, og prøve hvad Hans Skuldre kand bære. Er Han skabt til at være til Hove? Er Hand indgetogen nok dertil? Kand Han forestille, kan Han tvinge sig nok? Er Han bevant med at underviise Folk af den *Stand* og den *Alder?* Er det ikke bedre, at blive i den Forretning, som man veed man kan bestride, hvor man kan lægge sig Ære ind, hvorved man kan leve, og hvorfra man har Rettighed til med Tiden til noget bedre, NB. efter eget Valg, end at vove sig til noget nyt og usædvanligt? — Man taber intet ved at sige nej, og skyde paa sin Uformuenhed.

Maaske er min Erindring ufornøden. *Ne me moneas memini ego etc.* Maaske er den ugrundet. Jeg vilde helst det sidste; thi ingen önsker meere Hans Vel, end jeg: men man dömmer andre af sig selv, og Jeg tog mig det vist ikke paa. Imidlertid *vale et ama tuum totum*

Nærum den 15de Junii 1764.

*Luxdorph.*

2.

Kjøbenhavn den 19de Junii 1764.

Höjstærede kjære Ven!

Jeg kom herind kort för Postens Afgang og forefandt kjære Vens Brev, som foraarsagede mig en inderlig Fornöjelse, ja ret satte mit Sind i Roelighed. For strax at melde, hvad Han helst og først vil viide, saa var jeg allerede, för jeg skrev Ham til, betænkt paa de Midler, hvorved det ej allene ikke skulle blive Ham til Fortreed, at Han undskyldte sig, men snarere til Fordeel. Jeg veed vist ikke hvad Svar Han faaer. Siges der du skal, da er det Guds Villie. Ingen Modsigelse meere! Er man siden ikke fornöjet, finder man for megen Aabenhjertighed, for liden Föjelighed etc., da er Svaret: Jeg undskyldte mig jo. Jeg sagde Eder det forud. I saa Fald tales vi da og vel nærmere ved: men det forrige, at Undskyldningen ej skal blive ilde optaget, troe mig kun, det skal jeg, næst Gud, troelig besørge, endog i denne Dag. — Kort sagt, lad det nu gaae som det kan, bliver Han det, saa gaaer det vist nok got; Thi saa har Han gjort sit.

*Sed pauper Philosophia* vil tabe derved i sin Dyrkelse. *Vale et ama tuum totum*
*Luxdorph.*

## *Nr.* 8.

### *Um það íslenzka Literatúr-Fèlag, af Professor Riddara Ó. Ólavsen á Kóngsbergi í Norvegi.*

Svo lýsir þessi vor tignaði skagfirzki landsmaðr stiptan þessa síðar konúngliga, en bráðum þareptir allrar veraldar veg gengna, fèlags, undireins og Konferenzráðs Erichsens nákvæmu umönnun fyrir því, sem fylgir:

„Um sumarið 1779 gjörðum við, þórarinn Sigvaldason Liljendal og eg, framvarp til fèlags nokkurs, hvörs aðaltilgángr skyldi vera, at bæta vísindasmekk Islendínga, með snilliligum skrásetníngum, í bundinni ræðu og óbundinni; sömuleiðis að fræða þá, í hvörjum þeim lærdómsgreinum, er fèlagið orkað fengi, og þá sýndist helzt skorta. Framvarp þetta sýndum við fleirum löndum vorum, er meðr oss stúdèruðu við háskólann, og fèllust þeir á fyrirtækið. En sökum þess við sáum, að lítið eðr ekkèrt mátti úr fèlaginu verða, nema það fengi einhvörn málsmetandi stjórnarmann, hvör við helzt æsktum yrði Jón Eyríksson, maðr í þær mundir alment virdtr og elskaðr, og þaráofan landi vor; og ekkèrt annað fyrir því liggja, enn fæðast, tóra um hríð með litlum sóma og deya síðan, tók eg mèr á hendr, af því eg hafði liðugan aðgáng og leyfi að koma í hús hans, og eiga tal við hann, að bera

upp fyrir hönum áform vort, með öllu þaraðlútandi, og í nafni allra, er hlut að áttu, biðja hann fulltíngis ásetníngi vorum. Ekki hafði eg fyrri stunið erindi þessu upp, enn hann með glöðu bragði brauzt út með hèrumbil þessum orðum: „það er mèr ánægja, að slíkt er á ferðum, og „betr það hefði skeð miklu fyrr! þèr megið „reiða yðr uppá það, að hvörsu annríkt sem eg á, „og þótt störf mín ekki leyfi mèr nokkurn tíma, „nema þann, er hvíld mín krefr, og eg sjái fyrir-„fram, að margr ófögnuðr vilji mæta mèr, vil „eg þó gjarnan gánga í fèlagið, og styrkja það „allt hvað eg má. En *höfuðtilgángr* þess vilda „eg væri, að fræða landa vora í *bústjórnarefnum*, „en *aukatilgángr* að eins, að kenna þeim snjöll „vísindi; og byrjið þèr fèlagið í Guðs nafni! en „látið mín ekki viðgetið að svo stöddu!"

Að fengnu loforði þessu mættu, fyrir tilstilli Liljendals og mína, á Borchs kollegió *tólf* íslenzkir stúdentar; var þá saminn *skilmáli* sá, að nú skyldi fèlagið byrja; getið tilgángsins og ákvarðað, að allir fèlagar skyldu svo laga gjörðir sínar, að hönum mætti ná.

Var skilmáli þessi undirskrifaðr af áðrnefndum 12 stúdentum, eptir aldrsröð þeirra við háskólann, því ekki fannst sæma, að við Liljendal skyldum, sem úngir stúdentar standa fyrstir, sem þá var komið. Meðlima registrið í fyrstu ritum fèlagsins, er og prentað í sömu röð, er þá var tilsett. Nú var þá fèlagið þannveg tilkomið, en með því það var lagalaust, engi formaðr og ekkèrt atsetr eðr samkomuhús, lögðu nú allir

